EINAR HJÖRLEIFSSON

# SÁLIN VAKNAR

ÞÁTTUR ÚR
SÖGU ÆSKUMANNS






REYKJAVÍK
ÚTGEFANDI: ÞORSTEINN GÍSLASON
MCMXVI

## I

## Ný trúlofun

Það þóttu mikil tíðindi og fremur ósennileg, þegar það fréttist um Reykjavík, að þau væru trúlofuð, Eggert Sölvason og Svanlaug Melan.

— Það er andlitið á honum .... en-n-n ....

Og menn yptu öxlum.

Víst var hann laglegur.



— Ne-ei .... hefirðu tekið eftir, hvað hárið á honum er svart, og hvernig það liðast um höfuðið? sögðu ungu stúlkurnar við stallsystur sínar.

— En augun .... hvað þau eru undarlega dökk!

— O-ó .... en munnurinn! .... Alveg eins og á grísku myndinni heima hjá okkur — eg man ekki hvað hún heitir.

— Já .... en það segja nú margir, að það sé ekkert gott .... alls ekki neinn góðs viti.

Já, það gátu verið skiftar skoðanir um, hvort það væri „gott“. En „voðalega sætt“ var það. Það kom þeim öllum saman um.

Margir sögðu, að hann væri lifandi eftirmynd móður sinnar, en alls ekki líkur föður sínum, Sölva gamla frá Neðra-Túni. Einn óhlífinn bekkjarbróðir hans hafði einu sinni spurt hann í skólanum, hvaðan úr veröldinni þetta andlit væri komið á hann. Og svo hafði hann spurt rétt á eftir, hvort mikil útlendinga-umferð hefði verið á Neðra-Túni. Allir vissu, og spyrjandi manna bezt, að Neðra-Tún var uppi í afdal, að þangað hafði aldrei neinn útlendingur komið, og að Sigríður, móðir hans, var ekkert annað en gæðin og samvizkusemin. En það var nú siður að reita Eggert til reiði, sér til skemtunar. Í þetta sinn varð samt ekki eingöngu skemtun að spurningunum. Út úr þeim urðu áflog og barsmíðar, svo að lengi var að minnum haft í skólanum. Spyrjandi gekk allur vafinn og reifaður lengi á eftir, því að Eggert var snemma bæði stór og sterkur og hafði ekki dregið af sér þetta skiftið.

— Já, það er andlitið á honum. Það er ekki ónýtt að eiga andlit, sem útvegar mönnum Svanlaugu Melan, átu ungu mennirnir hver eftir öðr-

um af góðfýsi, sem naumast hefði fundist öðruvísi en í smásjá.

En sannleikurinn var sá, að flesta furðaði á því, ef hann gæti fengið þá stúlku. Hann hafði einhvern veginn ekki unnið sér traust. Mönnum fanst eitthvert los á honum .... eins og úr hans átt gæti verið allra veðra von. Mönnum kom alls ekki saman um, hvað að honum væri. Einum fanst þetta. Öðrum alveg gagnstætt. En furðu gott samkomulag var um, að mikið væri að honum. Og ekki bætti það úr skák, að hann hafði hætt við nám, þegar hann varð stúdent, og stofnað blaðið Ö k u þ ó r, sem mörgum fanst heldur stefnulítið og leiðinlegt.

Undrunin var í raun og veru ekki fyrir þá sök, að neinn fullyrti, að Svanlaug væri sjálf mikið fremri öðrum ungum stúlkum, sem aldar eru upp í allsnægtum, eftirlæti og góðum siðum. Lagleg var hún auðvitað — en það voru svo margar. Einkum tóku menn, að minsta kosti í fyrstu, eftir stórum, stálgráum augum og einkennilega einbeittu augnaráði og miklu hári, sem örðugt var að segja, hvernig væri litt, af því að það voru svo margir litir á því í góðri birtu, ef vel var að gætt. Þær vinkonur hennar, sem ekki var mikið um það gefið, að henni væri hælt vitleysislega .... af því .... sko .... að þær vildu

láta fara rétt með, þó að bezta vinkona þeirra ætti í hlut, og dæma menn réttvíslega .... þær sögðu, að hún væri .... já .... allra-bezta stúlka .... ó .... já .... ekki nokkur vafi á því .... en óttalega ráðrík og mislynd. Piltar höfðu dálítinn beyg af henni á dansleikum, þeir sem ekki voru æfinlega við því búnir að koma vel fyrir sig orði. Hún átti það til að koma með svo óvæntar og miður þægilegar athugasemdir. Það var yfirleitt eins og hjá henni kendi einhvers andvara af afbrigðileik, jafnvel af óstýrilæti — af einhverju, sem enginn átti von á. Og sumum fanst óljóst, að ekki væri ugglaust, að sá andvari gæti ekki orðið að stormi. Svo að það var ekki svo alveg ólíklegt, að hún gæti farið að vilja giftast manni, sem engum hafði komið til hugar, að hún mundi vilja líta við.

Hitt var meiri furðan, að faðir hennar, hann Guðmundur Melan konsúll, skyldi ekki taka í taumana, þegar einkabarnið hans átti í hlut. Ungum mönnum hafði fundist, sem sá maður yrði að hafa eitthvað að bjóða, sem legði út í það að fara heim til hans, til þess að biðja hann um dótturina. Það fanst þeim óárennilegasta bónorðsförin, sem þeir gátu hugsað sér. Ekki fyrir það, að konsúllinn væri óþýður í viðmóti. Hann var kurteisin sjálf og ljúfmenskan.

Mönnum miklaðist velgengni hans. Hann hafði ekki haft löngun til þess að fara embættisveginn, þegar hann hafði lokið prófi í lögum, heldur fengist við verzlunarstörf í ýmsum löndum. Á síðari árum hafði hann átt heima í Reykjavík, rekið sjávarútveg og umboðsverzlun og keypt íslenzkar vörur til sölu í öðrum löndum. Það var sagt, að á hans skipum brygðist aldrei afli, og að allar vörur hækkuðu í verði, þegar hann væri nýbúinn að kaupa þær. Og þjóðsögur gengu um land alt af auðæfum hans.

Hann var talinn prýðisvel mentaður maður. Hann hafði kynst miklum fjölda manna erlendis. Hann hafði lesið og las enn mikið. Bókasafni hans var við brugðið. Heimili hans var yndislega fallegt. Og það þótti sæmd að vera boðinn þangað — einkum ef það var h a n n, sem hafði boðið.

Samt var það ekkert af þessu, sem einkum ægði ungum mönnum, heldur látlaus, hæggerð fyrirmenska í látbragði hans, með undur-smágerðum ýringi af hæðni. Og þeir voru fáir jafnaldrar hans, sem fóru með hann nákvæmlega eins og hann væri jafningi þeirra. Það gerði í raun og veru enginn, nema dóttir hans.

Ungu mennirnir höfðu oft bollalagt um það, hver mundi nú á endanum ráðast í það að fara

heim til hans og biðja hann um hana. Venjulegast kom þeim saman um, að líklegast yrði það enginn Íslendingur; það mundi verða einhver glæsilegur útlendingur, ef til vill einhver liðsforingi af háum stigum — líklegast franskur.

Og nú var sagt, að það ætti að verða Eggert Sölvason!

Þeir tóku því illa. Þeim fanst eins og einhverri ólesinni, „spennandi“ skáldsögu hefði verið stolið frá sér. Þetta var eitthvað svo hlægilega hversdagslegt. Hann Eggert Sölvason! Þeir höfðu flogist á við hann, og haft hann að olnbogabarni, og enginn haft trú á því, að hann yrði að manni! .... Ef þetta var þá satt.

Það v a r satt. Og Eggert Sölvason hafði jafnvel ekki þurft neitt að fara til konsúlsins. Svanlaug hafði komið öllu í lag fyrir hann.

Nokkuð hafði henni veitt það örðugt. En þó að fæsta mundi hafa grunað það fyrir fram, stöfuðu örðugleikarnir ekki frá föður hennar, heldur frá móðurinni.

Frú Ingunn Melan var komin af fátæku, fremur lítilsigldu fólki. Melan hafði lofast henni ungur, á skólaárum sínum. Trúlofunin hafði enzt og orðið að hjónabandi — mönnum til nokkurrar furðu. Ýmsir höfðu búist við, að hann mundi líta eitthvað ofar. En allir sáu, að þetta hafði farið

vel. Frú Ingunn var sköruleg kona, hélt vel fríðleik sínum á fimtugsaldri og sá um heimili sitt af mestu snild. Kunnugir þóttust vita — einkum frá stúlkum, sem höfðu verið í húsinu — að þau hjónin litu nokkuð ólíkum augum á marga hluti, að frúin væri örgeðja og vön að sækja sitt mál nokkuð fast í byrjuninni, en að æfinlega væri það maðurinn hennar, sem réði að lokum. Mönnum þótti það eðlilegt, að hún hefði ekki við honum í neinni andlegri glímu.

Svanlaug hafði unnið föður sinn á sitt band, áður en móðir hennar eða nokkur annar fékk grun um, hvað hér var um að tefla. Konsúllinn sagði konunni sinni frá þessu í heimaskrifstofu sinni, og Svanlaug var viðstödd. Frúin vissi ekki, hvert hún ætti að komast, þegar hún heyrði þessa fjarstæðu.

— Vonandi lætur þú þetta ekki við gangast, sagði hún við mann sinn.

Konsúllinn lét á sér skilja, að hann sæi sér ekki fært að taka ráðin af dóttur sinni.

— Það er hún, sem er að hugsa um að gifta sig, en ekki eg, og hún á sjálf mest á hættunni.

Frúin hélt, að það væri nú samt hans skylda að hafa vit fyrir barninu.

— Já. En hvað er vit og hvað er óvit, góða mín? sagði konsúllinn. Menn geta ekki trygt sér

gæfuna í þeim efnum með viturlegum útreikningum.

— Hann, sem er ekkert, sagði frúin.

Svanlaug hélt, að hann gæti orðið meiri maður en hann væri nú.

— Pabbi er meiri maður nú, en þegar hann var tuttugu og tveggja ára.

— Og þó að hann væri eitthvað mikið, þá væri gæfa Svanlaugar ekki trygð með því, sagði konsúllinn. Eg hefi talað mikið við hana um þetta. Eg trúi því, að henni þyki verulega vænt um hann. Eg vil ekki hafa ábyrgð á því að uppræta það .... Ef henni skyldi nú aldrei þykja vænt um neinn annan ....

— Já .... þið hafið talað um þetta. Það er ekki verið að tala um það við mig, sagði frúin.

— Jú, við *erum* að tala um það við þig, góða, sagði konsúllinn.

— Já, eftir á!

Þau þæfðu um þetta nokkura stund. Konsúllinn var ljúfur, mjúkur — en fastur fyrir.

— Hvað haldið þið að fólk segi? sagði frúin.

— Það er þitt gamla áhyggjuefni, mamma, sagði Svanlaug. Mér finst, að aðrir eigi fremur að spyrja um, hvað *við* segjum.

Konsúllinn hló, og leit til dóttur sinnar dálítið skringilega, eins og hann væri henni ekki alveg

ósammála. Honum fór eins og svo mörgum öðrum, að hann hafði mikla tilhneigingu til þess að vera einkabarninu sínu sammála.

Þau slitu talinu það skiftið. En konsúllinn hélt hvað eftir annað áfram að tala um málið, þegar þau voru tvö ein saman, hjónin. Og það fór eins og vinnukonurnar sögðu, að tíðast færi: hún sætti sig að lokum við hans skoðun.

— Eiga þau að giftast bráðlega? spurði hún. Nei, konsúllinn sagði, að þau Svanlaug hefðu komið sér saman um að fresta því um óákveðinn tíma. Sjálfur hefði hann haldið því fast fram.

— Á hann að halda áfram við þetta blað?

— Já. Hann á að spila á eigin spýtur og sýna, hvað í honum býr.

— Á ekki að minsta kosti að halda þessu leyndu fyrst um sinn?

— Svanlaug vill helzt ekki leyna því. Hún segir, að allur bærinn viti það, hvort sem er, ef þau sjáist nokkurstaðar saman.

— En hvað vilt þú sjálfur?

— Er ekki bezt að lofa henni að ráða því?

— Eigum við þá að hafa einhverja gesti, þegar þau setja upp hringana?

Konsúllinn sagði, að því réði hún alveg. Frúnni fanst hún kunna betur við það.

— Eg verð líklegast að hafa ofurlítinn kvöldverð, sagði hún.

En þá komu nýjar áhyggjur.

— Á eg að bjóða Sölva gamla og konunni hans?

Já, konsúlnum fanst það sjálfsagt.

— Og ráðherrafrúnni og yfirdómarafrúnni og bæjarfógetafrúnni? Það verða nokkuð sundurleitir gestir. Hvernig á eg að fara að þessu?

Konsúllinn lagði til, að frúnum yrði þá slept.

— Ertu alveg frá þér, Melan? Það get eg ekki. Slept beztu vinkonum mínum!

Að lokum var ráðið fram úr þessu vandamáli. Frúin hætti við kvöldverðinn. Gestirnir áttu að koma kl. 9 að kvöldinu og fá kaffi og ávexti.

— Það væri svo voðalegt, ef karlinn borðaði ósköp leiðinlega .... tilvonandi tengdafaðir Svanlaugar! .... Ja, hvað ætli fólkið segi?

Málið réðst á alveg óvæntan veg. Ráðherra hafði boð inni kvöldið, sem frú Melan hafði valið. Og bæjarfógetafrúin og yfirdómarafrúin höfðu lofað að koma þangað.

Þegar frú Melan fékk að vita þetta, vildi hún velja eitthvert annað kvöld. En Svanlaug mátti ekki heyra það nefnt.

— Eigum við að fara að hlaupa eftir því, mamma? sagði hún. Jeg gat trúlofast, án þess

að þær hjálpuðu mér til þess. Þá get eg líklegast sett upp hring án þeirra.

Og faðir hennar var á hennar máli.

Þeim Eggert og Svanlaugu kom saman um, að hann skyldi nefna við foreldra sína að koma. Móðir hans tók því vel. En Sölvi gamli þvertók fyrir, að hann færi eitt fet.

— Eg hefi aldrei lafað aftan í þessum höfðingjum, sagði hann. Þú gerir það á þína ábyrgð, Eggert.

— En þetta sem er að verða tengdafólk okkar, sagði Sigríður.

— Ja-á .... það er nú ekki orðið það enn, sagði Sölvi. Eg hefi nú heyrt ýmislegt af þessum Reykjavíkur-trúlofunum. Þær eru ekki allar sérlega endingargóðar. Þú ræður þínum ferðum, Sigríður. En eg fer ekki þversfótar.

Sigríður fór með syni sínum. Henni var tekið ágætlega. Hún hitti þarna nokkurar konur, sem hún hafði aldrei séð áður. Og hún var nærri því utan við sig af öllu skrautinu í stofunum. Hún hafði aldrei séð svo mikla húsprýði áður, og henni hafði aldrei til hugar komið, að hún gæti verið til. En hún gleymdi bráðlega allri feimni, því að konsúllinn gerði sér svo mikið far um að vera ljúfur við hana. Henni fanst hún aldrei hafa

hitt svo þægilegan mann. Hann setti hana hjá sér í legubekk í skrifstofu sinni og rabbaði við hana, eins og þau hefðu verið vinir mörg ár. Áður en hún vissi af, og án þess að hún vissi, hver aðdragandinn að því hafði verið, var hún farin að segja honum sögur af Eggert, þegar hann var lítill, og frá því, hvað hann hefði æfinlega verið sér góður og eftirlátur.

Nokkurar konur voru inni í salnum. Menn þeirra voru flestir að njóta sumarblíðunnar hér og þar utanbæjar. Enda gerði það minst til. Þetta var boð frúarinnar, og tilefnið að sjálfsögðu fremur hugðarefni konunum en mönnum þeirra. Svanlaug hafði horfið með Eggert, þegar er hann kom. Og frúin hafði brugðið sér frá augnablik.

— Vitið þér, frú Guðríður, hvað stendur til? spurði frú Anna í hálfum hljóðum.

Hún var auðug kaupmannsekkja og ein af vinkonum húsmóðurinnar. En ekki í fremstu röðinni þar. Þar voru ekki aðrar en ráðherrafrúin, yfirdómarafrúin og bæjarfógetafrúin. Frú Anna hafði fengið frú Guðríði, sem var embættismannskona, með sér út í stórt glugga-útskot, þar sem þær gátu setið báðar og haft ofurlítið næði.

Já, frú Guðríður fór nærri um það.

— Ertu ekki hissa? sagði frú Anna.

— Ójú.

— Ef hann væri kandidat ....

— Já, það er nú eitthvað annað.

— Mikið hefði mér þótt fyrir því, ef svona hefði farið með hann Ólaf minn.

— Að fá Svanlaugu Melan? spurði frú Guðríður dálítið háðslega.

— Nei, ekki á eg við það, eins og þér getið nærri .... Ef hann hefði ekki tekið neitt próf, og ekkert orðið úr honum. Þér trúið því ekki, hvað eg varð fegin, þegar hann lauk við prófið og varð yfirdómslögmaður. Eg er nú að vona, að hann fái sýslu, áður en langt líður. Eg furða mig á því, ef hann fer nú ekki að fá sér konu.

— Já, eftir að hafa leitað fyrir sér víst á fimm stöðum sama mánuðinn, sagði frú Guðríður í huganum.

— Yður finst ef til vill, að það hefði verið eitthvað líklegra, að h a n n hefði fengið Svanlaugu Melan? sagði hún upphátt. Mér finst það líka.

— Jæja .... svo yður finst það? sagði frú Anna ánægjuleg .... En heyrið þér — er hann ekki eitthvað undarlegur, þetta mannsefni hennar Svanlaugar? Mér finst eg hafa heyrt það. Hafið þér ekkert heyrt um það? Einhverjar sýnir? Og drauga? Og eg veit ekki hvað.

— Ætli það sé ekki þessi nýmóðins trúarbrögð? Vitið þér það ekki, frú Anna, að nú eru þeir farnir að trúa á hinar og aðrar forynjur .... alt, nema guð?

— Já, hann Ólafur minn trúir nú ekki á guð, og mér þykir það nú að sumu leyti leiðinlegt. En hann trúir ekki á neina vitleysu. Það má hann eiga .... En heyrið þér — hvernig fara þau að giftast, hún Svanlaug og þessi piltur? Eg skil það ekki.

— Nú .... líklegast eitthvað líkt og aðrir, hélt frú Guðríður. Hvað skiljið þér ekki?

— Jú, sjáið þér til .... nú giftast þau náttúrlega í dómkirkjunni .... þér getið því nú nærri .... svona fólk .... Og karlinn hann faðir hans er sagður svo óttalega leiðinlegur. Og hann er sagður fullur af úlfúð og vonzku til okkar hérna í Reykjavík. Eg veit ekki, hvað þessir karlar eru að vilja hingað, sem ekki geta litið okkur réttu auga. .... Og svo ætti hann sjálfsagt að vera svaramaður brúðgumans. Hvernig getur hann verið svaramaður .... í svona brúðkaupi .... í dómkirkjunni? Eg skil ekki, hvernig þau giftast.

— Það getur vel verið, að þau giftist aldrei. Það giftast nú svo sem ekki allir, sem trúlofast, sagði frú Guðríður.

Þessum áhyggjum létti nú af frú Önnu, því að nokkur ókyrð varð í salnum, svo að hún leit fram úr gluggaskotinu. Frúin var komin inn í salinn aftur. Og á eftir henni komu þau Svanlaug og Eggert — með hringana á höndunum.

Allir stóðu upp og óskuðu til hamingju. Frú Anna féll í faðminn á frú Melan, og sagði, að þetta væri mikill og fagur dagur fyrir hana, að hafa eignast tengdason. Þá laut hún að eyranu á henni og spurði, hvenær brúðkaupið ætti að vera.

— Það veit eg ekki, sagði frú Melan.

Þau konsúllinn og Sigríður komu framan úr skrifstofunni inn í salinn og tóku móti heillaóskum. Og frúin bauð fólkinu að koma nú inn í borðstofuna og fá kaffisopa.

Samræðan við borðið gekk ekki eins liðugt og vant var í samkvæmum Melans-hjónanna. Konsúllinn virtist ekki alveg eins vel fyrir kallaður, eins og hann væri dálítið annars hugar. En frúnum fanst yndislegt að sitja með alt þetta silfur og postulín fyrir framan sig og alt það sælgæti, sem á borðinu var.

Þegar kaffidrykkjunni var lokið og menn höfðu staðið upp, var einhver, sem orðaði það við Svanlaugu að leika dálítið á flygelið. Það var alkunnugt, að henni lét það mætavel. Hún

var fús til þess. Og fólkið settist og hlustaði. En um það bil, sem hún var að hætta, benti konsúllinn Sigríði að koma með sér aftur fram í skrifstofuna.

Hún var honum þakklát fyrir það. Hún kunni ekki sem bezt við sig hjá kvenfólkinu. Henni fanst öll augu standa á sér, og talið var alt á þá leið, að hún fann, að hún varð að sjálf-sögðu utan við það, af því að hún var ókunnug umræðuefnunum.

Þau settust aftur í legubekkinn.

— Eitt er, sem mig langar til að spyrja yður um, sagði konsúllinn. Hvað finst yður það vera, sem hugur sonar yðar stefnir einkum að?

Hún hugsaði sig um dálitla stund.

— Ég veit ekki, hvað eg á að segja.

En henni fanst konsúllinn svo yndislegur, að hún væri skyldug til afdráttarlausrar einlægni við hann.

— Hann er svo ungur. Þér vitið, að það er stundum nokkuð misvinda í sálum æskumannanna.

— Já, eg veit það, sagði konsúllinn. En eg veit líka, að þér furðið yður ekki á því að mér sé forvitni á, hvaða vindar leiki um hans sál. Eg þekki hann ekkert, nema frá Svanlaugu. Og hún er enn yngri en hann, og enn óreyndari.

— Stundum finst mér hugur hans stefna að því, fremur öllu öðru, að hafa sig eitthvað mikið áfram í veröldinni. Þér trúið því líklegast ekki .... en þá er eg venjulega dálítið hrædd.

— Hvers vegna, spurði konsúllinn.

— Af því að mér finst, að þeir, sem það komast, séu oft, þó að ekki sé það æfinlega, svo óbilgjarnir og meti svo lítils rétt og tilfinningar annara manna .... og að þess vegna komist þeir áfram.

Konsúllinn kinkaði kolli, en sagði ekki neitt.

— En svo er annað veifið, mælti hún enn fremur, að mér finst eins og hann muni geta fengið verulega ástríðu fyrir því sem gott er, eins og meðaumkunin og sjálfsfórnin sé hans eina eðli. Og þá verð eg líka hrædd.

— Hvers vegna verðið þér það?

— Það er sjálfsagt af því, að mig vantar svo mikið á að vera nógu góð, og mér finst veröldin heimta af okkur svo mikið jafnvægi .... líka í því sem er gott. Það er heimtað af okkur að hnitmiða alt svo nákvæmlega .... líka kærleikann .... En eg veit ekki, hvað að mér kemur. Eg hefi aldrei talað orð við yður fyr en í dag, og eg hefi samt sagt yður meira en nokkurum öðrum af því, sem eg ber mest fyrir brjósti.

Og svo finst yður líklegast þetta vera ekki annað en vitleysa.

— Mér finst það vera mjög mikið vit, sagði konsúllinn. Og eg er yður stór-þakklátur fyrir traustið.

Í þessu bili kom frú Melan fram til þeirra í þeim erindum að sækja Sigríði. Hana langaði til að sýna henni meiri alúð en hún hafði enn gert.

— Komið þér með mér og sjáið þér myndina, sem við erum öll að skoða.

Það var dýrindis málverk, sem var nýkomið í húsið.

Sigríður fór með henni. En hún gerði það nauðug. Hún hefði mikið heldur viljað mega sitja kyr.

Í sömu svifum kom Eggert fram í skrifstofuna. Konsúllinn bauð honum vindil og sæti.

— Hvernig gengur með blaðið? spurði hann.

— Og jæja .... þetta svona, sagði Eggert.

— Þér ætlið yður að verða ráðherra með því .... er ekki svo? spurði konsúllinn.

— Hvers vegna haldið þér það?

— Það ætla allir Íslendingar sér að verða, sagði konsúllinn og hló.

Eggert leið hálfilla. Honum hafði komið þetta til hugar. Og hann fann ekki alvöru undir niðri

hjá tengdaföður sínum tilvonandi. Svo konsúllinn fékk ekkert svar. Þá hélt hann áfram:

— Já, völdin eru lokkandi í augum ungra manna. Og reyndar í augum allra.

Eggert langaði til að slíta þessu tali. Hann stóð upp og gekk að skrifborði konsúlsins. Þar lá opin bók: Maðurinn og alheimurinn eftir Sir Oliver Lodge. Konsúllinn horfði á eftir honum.

— Hafið þér lesið þessa bók? spurði hann.

— Nei.

Það var 288. blaðsíðan, sem blasti við honum. Hann leit á hana fáein augnablik, sá, að verið var að tala um ummyndun Krists, og að neðst á blaðsíðunni voru þessar línur:

„Sama er sagt um Móse, eftir að hann hafði verið einn á tali við Jahve; vel má vera, að svo hafi og verið um Jóhönnu frá Arc; sama getur við og við enn hent helgustu mennina."

— Þetta er afskaplega merkilegt, ef það er rétt. Finst yður ekki? sagði Eggert.

Hugur hans var æfinlega næmur á þess konar málefni.

— Jú, sagði konsúllinn. Þeir eru farnir að skrifa um hitt og annað, ensku spekingarnir.

Þá kom húsfreyja fram í dyrnar og bað þá

að koma inn í salinn og fá sér ávexti með hinu fólkinu.

Sumarnóttin vafði sig, björt og hlý, utan um sálir þeirra mæðginanna, Sigríðar og Eggerts, á heimleiðinni. Eggert fundust allir veraldarinnar vegir greiðfærir, eins og nýtrúlofuðum manni sómdi. Og Sigríður var að hugsa um það, að ef Svanlaug væri nokkuð lík föður sínum, hlyti Eggert að vera borgið.

— Við skulum vona, að hún sé það, sagði hún í huganum.

---

II

## Máninn líður — —

Gamla Runka þótti rætast betur úr veðrinu en á hafði horfst. Útsynningurinn hafði verið með köldum, illhryssingslegum rumbum alt af öðru hvoru allan daginn, og Gamla Runka hafði ekki þótt veita af að vera með trefil og í þykka voskuflinum sínum. Það var öllu til skila haldið, að hann héldi á sér hita samt.

En nú var veðrið orðið mikið stiltara.

Oftast nær hafði Gamli Runki ekki nema óljósa hugmynd um það, að tunglið væri einhverstaðar eitthvað að gaufa bak við skýin. En við og við gylti það skýrönd og gægðist fram undan henni, til þess að athuga, hvaða vitleysu Gamli Runki og aðrir jarðarbúar væru nú farnir að gera, fylti úfna haustnóttina mildum ljóma og lét glitta kankvíslega á öldurnar úti á sjónum.

Gamli Runki stóð, gráýrður og geðvonzku-

legur, hrukkóttur og veðurbarinn, hjá „búðinni“ sinni, minstu búðinni í bænum, rétt fyrir ofan bæjarbryggjuna, og var að dunda þar við vörurnar, færa þær til undir flutninginn. Nú ætlaði hann að fara að halda heim með þær — og búðina — enda var komið undir miðnætti. Búðin var að hálfu leyti hjólbörur og að hálfu leyti skápur. Þess vegna sögðu menn, að ekkert væri selt og keypt í henni, heldur eingöngu úr henni. Enginn maður komst inn í hana, nema Gamli Runki sjálfur — og þótti snild af honum að geta troðið sér þarna inn. En að öllum jafnaði stóð hann utan við hana.

Hann hafði orðið lengur að kaupsýslu sinni þetta kvöldið en endranær. Menn höfðu verið að slæðast til hans við og við eftir vinnutíma og fá flösku og flösku af köldum drykkjum úr skápnum hans, og einstöku maður smurða brauðsneið líka. Og ýmsir höfðu staldrað við og verið að rabba við hann, eftir að veðrið fór að verða dálítið góðlyndara. Hann átti það til, að hreyta út úr sér kynlegum, oft meinlega hnittilegum tilsvörum, og þeim, sem ekki voru svo flónskir að firtast við hann, þótti sjaldan leiðinlegt að vera hjá honum stundarkorn.

Sjálfum lá honum ekkert á. Íbúðin var ekki ákaflega mikið stærri en búðin, og þar var dauf-

legt vakandi manni. Líka gekk svo seint á sölubrauðið, að svangur þurfti hann ekki að vera. En nú ætlaði hann að fara að halda heim.

Þá kom bátur að bryggjunni, utan af höfn, með einum manni. Gamli Runki dokaði við. Ekki var óhugsandi, að hann keypti eitthvað. Maðurinn festi bátinn við bryggjuna og hélt upp eftir henni. Gamli Runki þekti hann. Þorlákur hét hann og var stýrimaður á einu botnvörpuskipinu, sem lá á höfninni.

— Sæll vertu, Gamli Runki, sagði Þorlákur. Gamli Runki tók ekki undir. Hann glápti eitt andartak á Þorlák, eins og agndofa, frá sér numinn.

— Hvaða helvíti er að sjá þig, maður! sagði hann þá.

— Hvað? Hvernig? Hvað er það? sagði Þorlákur steinhissa.

Þá varð Gamli Runki stórreiður sjálfum sér og allri tilverunni út af því að hafa sagt þetta. Hann hafði eitt augnablik séð gegnum heila húfuna á höfðinu á Þorláki, og séð gat á hauskúpunni. Og á því augnabliki hafði Þorlákur verið í augum hans fölur eins og tunglsgeisli á hvítum vegg. Nú var Þorlákur orðinn alveg eins og hann átti að sér. Gamli Runki hafði séð hitt og annað um æfina, ekki ódæmislíkt þessu. Og

hann vissi það vel, að menn eiga að halda sér saman um þess konar.

— Hvað er það? spurði Þorlákur aftur.

— Ekkert, ekkert! sagði Gamli Runki.

Þá kom maður sunnan Pósthússtræti og stefndi til þeirra. Hann var með svipu í hendinni, gekk hratt og vígamannlega, og var sýnilega nokkuð ölvaður. Hann hálf-rak sig á Gamla Runka, enda var skýið fyrir tunglinu þá með þykkasta móti.

— Nú-nú! Já-já! Það er naumast að þú ert á ferðinni, Þorsteinn, sagði Gamli Runki önugur.

— Áttu nokkuð hjartastyrkjandi núna, Gamli Runki? sagði Þorsteinn.

— Hvað!? sagði Gamli Runki enn önugri.

— Þú veizt víst, við hvað eg á, sagði Þorsteinn. Og hér er öllu óhætt í myrkrinu. Enginn maður við, nema hann Láki.

Hann sneri sér að Þorláki.

— Ekki færir þú að verða sá bölvaður ódrengur að klaga. Og þú ert ekki heldur nema eitt vitni.

Gamli Runki rak úr sér runu af blótsyrðum.

Honum hafði áður verið nokkuð gjarnt til þess að miðla öðrum meiru af hjartastyrkjandi lyfjum en lögreglunni hafði getist að. Út úr því hafði hann átt í miklum brösum við hana. Afleiðingarnar af þeim brösum höfðu orðið tvenn-

ar: Gamli Runki hætti alveg við alla áfengisverzlun, og tók nú aldrei tilmælum um að fá í staupinu annan veg en með illyrðum. Og hann hafði fengið hjartgróna andstygð á lögreglunni, og gerði sér það að reglu, að segja æfinlega eitthvað ljótt, ef hann heyrði á hana minst. Nú dembdi hann hellirigning af hroðalegum orðum yfir þau bæði, Þorstein og lögregluna.

En Þorsteinn varð ekkert reiður — þó að hann væri ölvaður, og þó að hann væri annars ekki talinn sem geðbeztur.

— Jæja, Gamli Runki, vertu nú ekki með þessar skammir, sagði hann. Fáðu þér þá í staupinu hjá mér.

Og hann dró upp úr vasa sínum þriggja pela flösku, sem var full upp í axlir. Gamli Runki tók við flöskunni og athugaði hana með stillilegum alvörusvip.

— Hvaða fjandi ertu vel birgur núna, sagði hann, saup á og rétti flöskuna aftur að Þorsteini.

— Hana, Láki, sagði Þorsteinn og rétti Þorláki flöskuna.

— Nei! sagði Þorlákur.

— Hvað? .... Viltu ekki .... konjak? sagði Þorsteinn.

Auðheyrt var, að honum þótti það furðulega dularfult fyrirbrigði, að nokkur maður væri til, sem vildi ekki konjak.

— Nei! sagði Þorlákur.

— Þá geturðu drukkið hland! sagði Þorsteinn vondur.

— Þakka þér fyrir, sagði Þorlákur þurlega. Mig langar ekki heldur í að drekka þ a ð frá þér.

Þorsteinn reiddi upp svipuna.

— Engin ólæti hér, sagði Gamli Runki einbeittur.

— Hann þarf ekki að vera að senda mjer neinar glósur, sagði Þorsteinn.

En hann lét svipuna síga niður.

Í þessu bili gekk maður fram hjá þeim vestur eftir Hafnarstræti.

— Er þetta ekki Snjólfur? sagði Þorsteinn. .... Heyrðu, Snjólfur, hrópaði hann, og ætlaði að leggja af stað til hans.

En Snjólfur, eða hver sem það nú var, hirti ekkert um köllin, greikkaði sporið, og hélt leiðar sinnar. Þorsteinn sneri sér þá aftur að félögum sínum.

— Hvers vegna viltu ekki konjak, maður? sagði Gamli Runki við Þorlák. Ertu kominn í bindindi?

— Nei, sagði Þorlákur. Eg hefi fengið mér í

staupinu með Þorsteini nokkurum sinnum áður. Út úr því hafa æfinlega orðið illindi og hneyksli. Eg ætla ekki að brenna mig á sama soðinu eftirleiðis. Eg held Þorsteini sé nú bezt að fara heim og gæta konunnar sinnar.

— Gæta konunnar sinnar? Þarf nokkuð að gæta hennar? spurði Gamli Runki.

— Þorsteinn fer næst um það, sagði Þorlákur.

Gamli Runki tók eftir því, að Þorsteini brá við þetta. Það var eins og ölvímu-svipurinn hyrfi af andlitinu, og það yrði snöggvast hart eins og grjót.

En Þorsteinn svaraði engu ummælunum um konugæzluna. Hann lét sér nægja að fara af nýju að minnast á það, að Þorlákur gæti þá drukkið sama vökvann, sem hann hafði áður talið honum samboðinn. Þorlákur lét nú sem hann heyrði það ekki.

— Hvað ertu að þvælast með þessa svipu? sagði hann. Ætlarðu að fara að ferðast í nótt?

— Kemur þér það nokkuð við? sagði Þorsteinn önuglega og háðslega. Ef eg hefi verið að gera við hana, ætli þér komi það þá mikið við? Eða ef eg geng með hana svona að gamni mínu, ætli þér komi það þá mikið við? Ef eg ber þig ekki með henni, þá kemur svipan sú arna þér nokkuð lítið við.

— Jæja .... þá það! sagði Þorlákur. Verið þið nú sælir.

Og hann gekk hratt af stað upp í Hafnarstræti, og beygði af til vinstri handar.

— Má eg ekki verða þér samferða, sláninn þinn? hrópaði Þorsteinn og hljóp á eftir honum.

Gamli Runki hristi höfuðið og fór að eiga við búðina sína. Hann gat ekki annað en farið að hugsa um höfuðið á Þorláki.

— Þeir gera þó vonandi enga bölvaða vitleysu, afglaparnir! sagði hann við sjálfan sig.

Ský dró frá tunglinu í þessu bili.

Gamli Runki fór að raula fyrir munni sér lag, sem hann hafði sjálfur búið til við alkunnar línur úr þjóðsögunum:

Máninn líður.
Dauðinn ríður.
Sér þú ekki hvítan blett í hnakka mínum,
Garún, Garún?

En Gamli Runki fékk einn gestinn enn, áður en hann gat lagt af stað með búðina sína — litla, gamla, fátæklega, veiklulega, hóstandi konu. Hún hafði vafið sjalinu um höfuð sér. Og hrollur fór um hana, þegar er hún hafði staldrað við andartak.

— Komdu nú sæll, Runki minn, sagði konan.

Hún reyndi að brosa dálítið glaðlega. En Gamli Runki var athugull maður, og hann sá það, að þessi glaðværð var ekki annað en uppgerð.

— Komdu nú sæl, Álfhildur mín, sagði hann. Þú ert seint á ferðinni núna. Hvað er þér nú á höndum?

Þau Gamli Runki og Álfhildur voru góðir kunningjar. Hún hafði staðið í samningum við hann um að selja ekki Bjarna sínum áfengi, meðan Gamli Runki lagði stund á þá verzlun, æfinlega farið vel að honum, og gefið honum kaffi í þeim samningum. Svo að Gamli Runki yrti þýðlega á hana.

En Álfhildi gömlu var ekki létt um mál þetta skiftið.

— Þú munt ekki vita .... sagði hún.

Og þá fór hún að gráta.

— Hvað mundi eg ekki vita? spurði Gamli Runki í örvunar-róm.

Álfhildur reyndi að harka af sér grátinn.

— Þú munt ekki vita .... hverjir hafa verið settir inn í kvöld? sagði hún vandræðalega.

— Ha....a? sagði Gamli Runki, og eins og stóð á öndinni við að heyra þessa fjarstæðu.

— Eg skal segja þér, mælti Álfhildur, það er svona, að hann Bjarni minn var drukkinn í dag. Hann hefir ekki komið heim enn.

Gamli Runki fór allur í blossa.

— Þú heldur þó ekki, að eg viti, hvað lögreglu-roðhænsnin gera sér til skammar og bæjarbúum til skaða? sagði hann. Kannske þú haldir, að þeir hafi mig í ráðum? Kannske þú haldir, að eg sé að snuðra kringum þá?

— Nei, nei. .... Vertu nú ekki vondur! .... En hann Bjarni minn var rennandi blautur í fæturna. Eg sá það í dag, og vildi láta hann hafa sokkaskifti. En hann var ófáanlegur til þess. Ef þeir fleygja honum nú inn í kaldan klefa, þá getur hann veikst. Hugsaðu þér — ef hann fengi nú lungnabólgu. Nú eru menn alstaðar að leggjast í lungnabólgu.

— Já, sagði Gamli Runki. Og að deyja úr henni.

Eðlilega var þessi athugasemd ekki Álfhildi til mikillar huggunar.

— Já, sagði hún hálf-grátandi. Og hugsaðu þér .... ef hann dæi nú úr henni.

Einhver þrætugirni kom upp í Gamla Runka.

— Bezt væri það nú .... fyrir þig, sagði hann.

— Guð fyrirgefi þér, Runólfur, sagði Álfhildur sár og steinhissa.

— Hefirðu nokkurn tíma haft nokkurt gagn af honum, slánanum þeim arna? sagði Gamli

Runki ákafur. Er það ekki þ ú, ræfillinn, sem alt af hefir orðið að hjálpa h o n u m?

— Guð fyrirgefi þér, Runólfur, sagði Álfhildur aftur.

Gamla Runka gekst hugur við þessum fyrirgefningar-bænum. Hann fann, að hann hafði verið með hrottaskap.

— Jæja, Álfhildur mín, sagði hann góðlátlega.

— Heldurðu, þú vildir nú ekki ....? Nei, það er nú annars varla von, sagði Álfhildur ráðaleysislega.

— Að eg vildi ekki hvað? sagði Gamli Runki.

— Heldurðu, þú vildir ekki koma með mér og reyna að finna hann? sagði Álfhildur. En eg veit, það er ekki von. Það er orðið svo framorðið. Og þú hefir annað að gera.

— Við lögreglulánana tala eg ekki. Það geri eg ekki fyrir nokkurn mann, sagði Gamli Runki. Þó að eg væri að drepast, og allir væru að drepast.

— Nei, það gerir nú ekkert til. Nei, nei. Æ, eg veit ekki, hvað eg á að gera. Mér finst eg vera .... vera svo einmana.

Gamli Runki klóraði sér í höfðinu.

— Hvernig hugsarðu þér að finna mann um hánótt í öllum þessum bæ, þegar þú veizt ekkert, hvert hans er að leita? sagði hann.

— Leitið, og þér munuð finna, sagði Álfhildur með grátstaf í kverkunum.

Hún tók fastara í sjalið, til þess að láta það leggjast þéttara að höfðinu og hálsinum, og ráfaði af stað vestur eftir Hafnarstræti.

— Heyrðu, Álfhildur, bíddu ofurlítið við, sagði Gamli Runki. Eg kem með þér.

Hann hélt á eftir henni.

Og máninn leit með góðlátlegu brosi niður á mannlausa búðina hans Gamla Runka.

---

## III

## Ritstjórinn fer að horfa á tunglsljósið

---

Hún mætti ungum manni í Hafnarstræti, áður en Gamli Runki náði henni. Hún vissi, að maðurinn hét Eggert Sölvason, og var ritstjóri nýja dagblaðsins, Ö k u þ ó r s.

Hún hafði lesið Ö k u þ ó r um daginn, séð þar meðal annars nokkuð langa grein um regnhlíf, sem hafði rifnað af stormi, lengst inni á Laugavegi. Henni hafði ekki þótt viðburðurinn svo merkilegur, að hann væri í frásögur færandi á prenti. En hún hafði farið að furða sig á því, hvað blaðamenn gætu komist að smásmuglegum hlutum. Og nú kom henni til hugar, að ekki væri óhugsandi, að hann hefði komist að því, sem hana langaði mest til að vita.

— Sælir verið þér, sagði hún, og nam staðar frammi fyrir ritstjóranum.

— Gott kvöld, sagði ritstjórinn.

— Þér munuð ekki vita, hverjir hafa verið

settir inn í kvöld? sagði Álfhildur nokkuð rösklegar en áður.

Hún var farin að venjast þessari spurningu sjálfrar sín.

— Hvað? .... inn? .... Nei, sagði ritstjórinn.

— Þér þekkið mig líklegast ekki? Eg heiti Álfhildur.

— Nei. Eg man ekki eftir, að eg hafi séð yður.

— Og ekki heldur ungan sjómann, sem heitir Bjarni Ólafsson?

Ritstjórinn mintist þess, að hann hefði einhvern tíma heyrt um hann getið, sem mjög óefnilegan ungling.

— Nei, ekki í sjón, sagði hann.

— En þér hafið heyrt hans eitthvað getið? spurði Álfhildur.

— Það minnir mig.

— Og þér munuð ekkert vita um hann í kvöld?

— Eg? Nei. Hvernig ætti eg að vita nokkuð um hann? sagði ritstjórinn forviða.

— Nei, nei, auðvitað ekki. En maður spyr svona, líklega sem ólíklega, sagði Álfhildur bljúg. .... Fyrirgefið þér. Verið þér sælir.

Hún rölti vestur eftir Hafnarstræti, og tautaði fyrir munni sér:

— Ó, Jesús minn! Leitið, og þér munið finna. Þú hefur lofað því sjálfur.

Nú gekk Gamli Runki fram hjá ritstjóranum og náði henni.

Eggert Sölvason hélt áfram austur eftir Hafnarstræti, þegar hann hafði losnað við Álfhildi gömlu. Hann ætlaði upp Hverfisgötu. Þar átti hann heima, nokkuð innarlega. En á Lækjartorgi kom honum til hugar, að það mundi vera gaman að leggja krók á leið sína út á battarí, og horfa þaðan út yfir sjóinn. Tunglið skein þá svo glatt milli skýjanna. Sjórinn hlaut að vera þakinn brosandi glömpum. Fjöllin hlutu að vera full af lokkandi, dularfullum skuggum. Og golan var svo hressandi eftir svækjuna inni í skrifstofunni.

En þegar hann steig upp á battaríisgarðinn bæjarmegin, var ský komið fyrir tunglið, og fyrir því orðið miklu skuggsýnna en áður. Og í sama bili, sem hann leit ofan í battarísskálina, reis maður upp úr henni. Eggert vissi ekki, hvort hann hafði setið þar eða legið eða dottið að eins, og verið að reisa sig við aftur. Maðurinn var sýnilega óstyrkur á fótunum. Hann straukst rétt fram hjá Eggert og stefndi inn til bæjarins. Eggert tók ekkert eftir honum, að öðru leyti en því, að hann sá, að hann var

með ljósleitan trefil um hálsinn. Trefillinn var nokkuð langur. Annar endinn flaksaði fyrir golunni aftur af bakinu; hinn hékk niður að framan. Eggert leit við á eftir honum, eins og ósjálfrátt. Maðurinn skjögraði, en reyndi að hraða sér. Eggert þótti þetta ekkert merkilegt, og hugsaði ekkert frekar um það.

Hann ætlaði sér yfir á garðlagið, sem að sjónum vissi, og bíða þar, þangað til aftur drægi frá tunglinu.

En hvaða fliksa var það, sem lá þarna í skálinni við vesturgarðlagið?

Eggert fór að athuga fliksuna.

Maður? .... Já, víst var það maður!

— Nú. Þeir hafa þá verið hér tveir að fá sér í staupinu, og annar orðið eftir. En að hinn slarkarinn skyldi fara svona frá honum ósjálfbjarga! sagði Eggert við sjálfan sig.

— Viltu ekki reyna að vakna, lagsmaður? sagði hann við manninn, og tók að hrista hann.

En hvort sem maðurinn vildi það eða ekki, þá g e r ð i hann það ekki, hvernig sem Eggert hristi hann og hrópaði til hans.

Nú dró frá tunglinu. Eggert sá glögt framan í náfölt andlitið. Honum hnykti nokkuð við. Hann fór að lykta fram úr manninum. Hann

fann enga áfengislykt. Og hann varð þess ekki var, að maðurinn drægi andann.

Honum hitnaði öllum af æsingu. Hann hafði aldrei rekist á dauðan mann úti á víðavangi, örsjaldan séð lík.

— Er hann dauður?

Hann *virtist* að minsta kosti vera dauður. Hann lá hreyfingarlaus eins og spýta, með opin augun móti tunglinu. Og Eggert gat ekki heyrt hann anda, hvernig sem hann hlustaði.

— Er nokkur áverki sjáanlegur?

Hann fór að athuga höfuðið betur. Og hann þurfti ekki lengi að leita. Reyndar dimdi, því að nú dró fyrir tunglið aftur. Og hárið var þykt og dökt. En hann þreifaði um höfuðið á manninum, og fann, að hárið var blautt — af blóði, hélt hann — á bletti ofan á höfðinu. .... Og þegar hann studdi á blettinn, fór einn fingurinn inn úr hauskúpunni.



— Guð minn góður! sagði hann við sjálfan sig.

Hann fann fyrst til ótta, þar sem hann stóð svona, alveg að óvöru, andspænis dauðanum. Enn kom tunglið fram undan skýrönd og glampaði hryllilega á galopin augun á andvana líkinu. Opinn munnurinn var líka voðalegur í augum hans. Honum lá við að stökkva burt í einhverju æði.

En þá kom upp í huga hans óljós slæðingur af barnæsku-endurminningum um það, að menn ættu að veita þeim mönnum nábjargirnar, sem þeir fyndu andvana úti á víðavangi. Dauðir menn fylgdu þeim, sem legðust slík kærleiksverk undir höfuð. Svo að hann fór að loka augunum og munninum á líkinu.

Við það hvarf óttinn, og nýrri, alveg óskildri, hugsun skaut upp.

Hann hafði einhverstaðar lesið, að blaðamaður í Chicago hefði fundið dauðan mann úti á víðavangi, alveg eins og nú var að henda hann sjálfan. Blaðamaðurinn hafði tekið það til bragðs að drasla líkinu inn í eyðikofa, til þess að fela það fyrir lögreglunni og öllum öðrum um stund. Með þeim hætti tókst honum að láta sitt blað koma með fregnina á undan öllum öðrum blöðum. Fyrir þetta hafði hann fengið mikið lof og orðið frægur maður.

Ritstjórinn áttaði sig á því samstundis, að ekki væri honum nein þörf á að beita svo kynlegu ráði. Ö k u þ ó r átti að koma út næsta morgun, á undan öllum öðrum blöðum. Undir morguninn átti að prenta hann, og nægur tími gat unnist til þess að koma enn grein í hann, ef vakað var fram eftir nóttinni.

Nú hafði hann frá nokkuru merkilegu að segja

í blaðinu. Þess var líka mikil þörf. Enginn vissi það betur en hann. Aurabyrðarnar voru ekki þungar, sem söludrengirnir komu með á kvöldin fyrir blaðið. Og óhlífnir mannskrattar höfðu vaðið upp á hann með háðungarorðum og hlátursköllum fyrir það, hvað Ö k u þ ó r gæti verið leiðinlegur.

— Nú veit eg, hvers vegna blaðið þitt heitir Ö k u þ ó r, hafði einn sagt við hann einmitt þá um daginn. Þessi Þór er alt af að aka sér af andlegum óþrifum!

Svo illmannlega höfðu menn talað upp í opið geðið á honum. Hann vissi það vel, að sumir sögðu enn verra á bak.

Hvernig átti hann að halda blaðinu skemtilegu, þegar ekkert gerðist? Þau vissu minst um það, þessi þrælmenni, hvernig hann hefði brotið heilann og hvað örðugt var að láta sér detta nokkuð í hug.

Nú kom heit fagnaðaralda upp í sál hans út af þessu nýja ritgjörðaefni. Heilli runu af yfirvalds-yfirheyrslum brá fyrir anda hans. Sjálfur var hann þar aðalmaðurinn. Hurðin að skrifstofu hans stóð aldrei við. Þeir mundu verða nokkuð margir, sem nú þyrftu að spyrja ritstjóra Ö k u þ ó r s. Hann vissi það, að fyrst um sinn þurfti hann ekki, eins og að undan-

förnu, að kreista greinar út úr huga sér, þangað til sál hans var orðin eins og þurundin tuska, yfirkomin af meðvitundinni um það, að þrátt fyrir alla áreynsluna nenti enginn að lesa þetta. Hann sá það, að nú gat hann ritað af eldmóði og sannfæringarvissu um það, að hvert orð mundu Reykvíkingar sloka í sig.

Lífið var alt í einu orðið nýtt og glæsilegt. Honum fanst nærri því eins og einhver forsjón hafa verið að vaka yfir sér í bágindum sínum. Hann fann það, að væri hann trúmaður, þá mundi hann þakka guði fyrir, að hann hefði látið sig finna þennan mann úti á battaríi með gat á hauskúpunni ....

Honum fór að verða vel við þennan mann — eins og hann hefði gert það fyrir ritstjóra Ökuþórs að verða fyrir slysi og deyja þarna.

Slysi? Hvernig datt honum í hug, að það væri slys? Auðvitað var það ekkert slys. Það var manndráp! Það var morð!

Hvað mundu Reykvíkingar segja í fyrramálið, þegar Ökuþór kæmi inn til þeirra, í rúmið eða að kaffiborðinu, og þeir rækju augun í þessar fyrirsagnir á fyrstu blaðsíðunni:

**Manndráp!**

**Maður myrtur í nótt í Reykjavík!**

**Ritstjóri Ökuþórs finnur líkið fyrstur manna!**

Væntanleg óp söludrengjanna á götunum tóku að kveða við fyrir eyrum sálar hans. Langa halarófan, sem hjá þeim mundi koma í sönglinu á eftir orðinu „manndráp“ varð að yndislegum söng í huga hans. Og hann sá fólkið koma úr öllum áttum á harðastökki og flykkjast utan um strákana, til þess að ná í Ökuþór.

Einhverstaðar inst innan úr hugskoti hans gægðist fram ótti um það, að þetta kynni að vera einhver misskilningur — maðurinn hefði dáið af slysi. En löngunin til þess að bæla þann ótta niður var sterk — áköf eins og lífsfýsnin, heit eins og sjálfselskan.

— Nei, nei, nei! Það er ekki slys! Það er morð!

En nú varð hann að fara að ná í einhvern lögreglumann.

Og hann skundaði af stað inn til bæjarins.

---

IV

## Ritstjórinn uppgötvar meira

Hann hitti Gamla Runka á Lækjartorgi. Hann þekti Gamla Runka vel. Allur bærinn þekti Gamla Runka.

Hann langaði til að segja Gamla Runka frá því, er fyrir sig hefði borið. Örðugt að þegja um önnur eins stórtíðindi. En honum fanst það ekki nógu blaðamannslegt að fara að segja honum þetta. Betra að láta Ö k u þ ó r koma með dembuna yfir Gamla Runka eins og aðra. En hann var í því skapi, að hann þurfti við einhvern að tala.

— Fóruð þér ekki með kerlingunni? spurði hann.

Jú, Gamli Runki kvaðst hafa farið með henni.

— Fann hún son sinn?

— Nei .... þér hjálpuðuð henni ekki heldur neitt til þess.

— Eg? .... Þér hafið þó ekki búist við því, að eg legði af stað með kerlingunni?

— Nei, sagði Gamli Runki.

Það var einhver ögrunarkeimur í málrómi Gamla Runka — eins og einhver undarlegur ilmur af einhverju, sem ritstjórinn vissi ekki, hvort var háð eða eitthvað annað. Hann vissi ekki, hvort hann átti að verða reiður eða ekki. Þetta hafði æsingaráhrif á hann. Honum fanst þægilegt að tala við Gamla Runka ofan á geðshræringuna úti á battaríi, líkt og að fá sér staup af áfengum drykk. Samt fann hann, að hann átti nú að flýta sér.

— Hvað gerðuð þér við kerlinguna? spurði hann.

— Eg kom henni heim til sín, skarinu því arna.

— Leituðuð þér ekki til lögreglumannanna? spurði ritstjórinn.

— Hvað? .... Eg? .... Til lögreglumannanna? .... Nei, eg held síður!

Gamli Runki úfnaði allur við þessa fjarstæðu.

— Vitið þér ekki, hvar eg muni geta fundið þá?

— Eg? .... Hvar þér getið fundið lögreglumenn? .... Ónei, karl minn! .... Hvað viljið þér lögreglumönnum?

Nú fann ritstjórinn, að honum var ofraun að þegja. Það gerði ekki heldur neitt til. Það var komin nótt. Gamli Runki gat engum sagt frá þessu fyr en í fyrramálið. Og þá var Ö k u þ ó r kominn út.

— Eg þarf að vísa þeim á nokkuð.

Ritstjórinn var orðinn drýgindalegur í málrómnum.

— Vísa þeim á nokkuð? Lögreglumönnunum? Til hvers er það? Þeir geta dottið um það og meitt sig.

Það var eins og ekkert væri orðið eftir í hugskoti Gamla Runka annað en fyrirlitning.

— Eg ætla að vísa þeim á lík, sagði ritstjórinn.

— Lík? .... Hvað kemur þeim líkið við?

— Þeir ættu nú, svo sem til dæmis að taka, að koma því inn undir húsþak. Það liggur úti á víðavangi.

— Nei, það gera þeir ekki. Þeir eru svo líkhræddir. Þeir eru hræddir við alt nema fátæklinga.

Ritstjórinn hló. Hugur Gamla Runka til lögreglumanna var alkunnur.

— Þeir þurfa nú fleira að gera, sagði hann, en að koma líkinu undir þak. Þeir þurfa að finna morðingjann.

Ritstjórinn gaf Gamla Runka dálítinn tíma til þess að glápa á sig eins og tröll á heiðríkju.

— Það hefir verið myrtur maður hér í kvöld, skal eg segja yður, sagði hann því næst með hægð og miklum áherzlum.

Gamli Runki tókst nærri því á loft af æsingunni.

— Hvað? .... myrtur? .... hann Þorlákur?

Nú var það ritstjórinn, sem varð hissa.

— Hvað? .... Hvaða Þorlákur? sagði hann og stóð á öndinni.

En nú var Gamli Runki búinn að jafna sig nokkuð og farinn að gæta að sér.

— Ha? .... Þorlákur? sagði hann, eins og hann hefði aldrei heyrt það nafn fyr.

— Já .... Þorlákur .... Hvers vegna sögðuð þér Þorlákur?

— Eg? .... Eg sagði ekki Þorlákur. Hvers vegna hefði eg átt að segja Þorlákur? Ekki heitið þér Þorlákur. Er eg ekki að tala við yður? Gat eg verið að tala við nokkurn annan, nokkurn Þorlák, þegar enginn lifandi maður er hér annar en þér? .... Þorlákur! .... Eg hefi áreiðanlega ekki sagt Þorlákur í margar vikur.

Og Gamli Runki hló af glaðlegum sannfæringar-krafti.

— Nú, jæja, .... Það hefir þá verið einhver

misheyrn, sagði ritstjórinn nokkuð efablendnislega.

— Já, það getið þér hengt yður upp á .... Þorlákur! .... Ekki nema það þó, að eg hafi sagt Þorlákur!

Ritstjórinn fór nú að trúa því, að sér hefði misheyrst.

— Bara eg hafi nú ekki mjög mikið fyrir því að finna einhvern lögreglumanninn, sagði hann. .... Annars ætti eg ef til vill að fara og vekja bæjarfógetann?

— Hvað ætlið þér að gera með lögregluna? sagði Gamli Runki.

— Eruð þér vitlaus? Haldið þér ekki, að eg verði að segja lögreglunni frá því, þegar eg hefi rekið mig á myrtan mann?

— Og til hvers er það? sagði Gamli Runki, og var nú hinn ákafasti. Þér haldið þó ekki, að lögreglan komist að því, hver hafi gert það! Vitið þér ekki, hvað það væri öruggur atvinnuvegur hér í bænum að drepa menn? Vitið þér ekki, að það er eina örugga atvinnan hér? Það er eina atvinnan, sem menn eru látnir í friði með. En menn eru svo framtakslausir hér, að þeir sinna ekkert góðum tækifærum.

Ritstjórinn hló.

— Lögreglumennirnir verða þó að minsta

kosti að reyna að hafa upp á manndrápurum, sagði hann. Það er þeirra skylda.

— Og til hvers þá það? sagði Gamli Runki vondur. Ætli dauður maður lifni aftur, þó að benda megi á þann, sem hefir drepið hann? Og hver væri svo sem nokkuru bættari, þó að ....

Lengra komst hann ekki. Einn næturvörðurinn var rétt kominn til þeirra.

Gamli Runki hafði sig á burt hið bráðasta.

Ritstjórinn tók lögreglumanninum með fögnuði, og sagði honum, hvers hann hefði orðið vísari.

— Komið þér með mér, sagði lögreglumaðurinn.

Og þeir lögðu af stað á véttvang.

— Nú .... það er þá Þorlákur Grímsson, sagði lögreglumaðurinn, þegar hann hafði athugað líkið.

Ritstjórinn hrökk saman. Hann mintist Gamla Runka og þess, sem honum fanst hann hafa sagt. Hann inti lögreglumanninn vandlega eftir því, hvort hann væri ekki í neinum vafa um það, að framliðni maðurinn hefði heitið Þorlákur.

Nei, lögreglumaðurinn var ekki í neinum vafa um það. Hann hafði þekt manninn mörg ár.

— Getið þér hugsað yður að þetta sé ekki annað en slys? spurði ritstjórinn. Sýnist yður

ekki bersýnilegt, að einhver annar hafi veitt manninum þennan áverka?

— Jú, mér sýnist það bersýnilegt, svaraði lögreglumaðurinn. Hvernig ætti hann annars að hafa fengið þetta gat svona ofan á höfuðið? Hann hefir að minsta kosti ekki fengið það af neinu, sem hér er sjáanlegt. Hann sýnist ekki hafa dottið á neitt hart.

— Það er nokkuð svaðalegt, að menn skuli vera drepnir svona sama sem á götum bæjarins, sagði ritstjórinn.

Samt gat hann ekki að því gert, að honum þótti vænt um þetta, sem lögreglumaðurinn hafði sagt.

En nú mátti hann ekki vera að þessu lengur. Nú ætlaði hann að skunda til skrifstofunnar og taka til óspiltra málanna. Lögreglumaðurinn ætlaði að athuga líkið betur, áður en hann gerði ráðstafanir til þess að koma því burt. Ritstjórinn kvaddi hann og hélt af stað.

Þegar hann kom inn á Lækjartorg, sá hann, að maður sat flötum beinum upp við söluturninn. Ritstjórinn gekk til hans.

— Er nokkuð að yður? spurði hann.

— Ha? sagði maðurinn.

Hann leit ekki upp. Höfuðið hékk niður á bringu. Flöskustútur stóð upp úr treyju-

vasa hans. Hann var auðsjáanlega útur-drukkinn.

— Hvar eigið þér heima? spurði Eggert.

Maðurinn hikstaði því út úr sér með örðugleikum, að hann ætti heima vestur á Bræðraborgarstíg.

— Getið þér ekki komist heim?

— Eg ætla að vera hérna, sagði maðurinn.

— Hvað heitið þér?

— Bjarni .... Kemur yður það nokkuð við? sagði drukni maðurinn önuglega.

Ritstjórinn mintist kerlingarskarsins, sem hann hafði hitt um kvöldið. Hún hafði verið að spyrja um Bjarna. Líka flögraði það um hug hans, að Gamli Runki hefði stungið því að honum, að hann hefði ekkert hjálpað kerlingunni, og að sjálfur hefði Gamli Runki fylgt henni heim.

— Heitir móðir yðar Álfhildur? spurði ritstjórinn.

— Já. .... Kemur yður það nokkuð við?

Eggert lét ekki þennan þvergirðing á sig fá, að öðru leyti en því, að hann stæltist við hann. Þó að hann ætti nú annríkt, þá hafði hann tekið það í sig að koma stráknum heim til kerlingarinnar.

— Eg ætla að fylgja yður heim .... Verið þér nú ekki með neina þrjózku.

Hann tók í höndina á Bjarna og kipti honum upp.

— Hvað liggur þarna? .... Nú .... það er trefillinn yðar.

Ritstjórinn tók trefilinn upp og fleygði honum um hálsinn á Bjarna. Annar endinn kastaðist aftur á bakið.

Í því andartaki þekti Eggert, að þetta var maðurinn, sem hann hafði séð úti á battaríi. Nú fyrst kom honum sá maður til hugar, eftir að hann hafði séð líkið. Og nú var eins og skilnings-glampa brygði fyrir sál hans.

— Þetta er maðurinn!

Það lá við, að hann sypi hveljur af æsingu. Meðvitundin um það tvent, að hann væri að fara höndum um morðingja, og að Ö k u þ ó r mundi greiða úr öllu málinu frá upphafi til enda, sendi hitastraum út í hvern taugarenda og gerði hann hálfringlaðan nokkur augnablik.

— Á eg að afhenda hann lögreglunni undir eins?

Nei. Það gerði ekkert til, þó að strákurinn svæfi heima í nótt. Engin hætta á því, að hann stryki útúr-fullur blánóttina. Hálf-gaman líka að afhenda hann kerlingunni. Hún mundi verða svo glöð og þakka honum svo innilega. Langbezt líka, að allir gætu séð, að lögreglan vissi ekkert

annað en það, sem Ökuþór fræddi hana um.

Þeir lögðu af stað vestur Hafnarstræti. Bjarni var í meira lagi óstyrkur á fótunum. Eggert varð að leiða hann, og með köflum varð hann að bera hann eða draga. Bjarni var óþjáll, vildi stundum leggjast niður, stundum fara í alt aðra átt. Svo að leiðin sóttist ekki greitt. En að lokum komust þeir út á Bræðraborgarstíg. Og Bjarni var þá ekki svo örvita, að hann þekti ekki húskofa móður sinnar.

Eggert barði þar að dyrum. Álfhildur gamla lauk upp glugga og leit út. Hún heyrði eitthvað umla í syni sínum, rak upp fagnaðaróp, og lauk upp hurðinni einu augnabliki síðar.

— Guð launi yður þetta, sagði hún við Eggert. Eg veit, að eg verð aldrei sá maður að geta það.

Hún tók undir handlegginn á Bjarna.

— Komdu nú inn með mér, elsku drengurinn, sagði hún, og fór hægt og varlega með hann að dyrunum, eins og hann væri einhver brothættur dýrgripur.

Ritstjórinn heyrði hana tauta fyrir munni sér, meðan hún var að komast inn úr dyrunum:

— Leitið, og þér munið finna.

Ritstjórinn hélt ofan í bæinn, til þess að kom-

ast nú loksins í skrifstofuna sína. Það var sannarlega orðið meira en mál til þess komið.

En hann var í eitthvað kynlegu skapi.

Kerlingin svona grátglöð og þakklát .... honum og drotni .... Og á morgun ætlaði hann að koma syni hennar undir manna hendur ....

Hvað gat h a n n við því gert? Svona var lífið. Ekki átti hann að fara að halda neinu leyndu, þegar um manndráp var að tefla .... Og hvað varðaði h a n n um þessa kerlingu, sem hann hafði aldrei á æfi sinni sjeð fyr?

Ö k u þ ó r varð af nýju máttugur í huga hans ....með hamarinn á lofti .... brunandi áfram í þrumum og eldingum valdabaráttunnar. Það var eitthvert ólag, ef sá piltur gat ekki lyft manni upp í valdavagninn. Nokkur augnablik varð „himneskt að lifa“ .... með alt lífið fram undan sér.

En til hvers var að vinna? ....

Sál hans vaggaðist ofurlitla stund á öldum efasemdanna. Eins og hún hafði svo oft vaggast áður. Hann mintist þess, að kunningjar hans höfðu oft hlegið að honum og spáð því fyrir honum, að ekkert yrði úr honum. Hann hefði í raun og veru enga trú á gæðum lífsins. Hann mundi aldrei áræða að njóta þeirra, þó að þau væru í boði. Alt af væri hann úttroðinn af tor-

merkjum og tvísýnu-viðbárum, þegar á ætti að herða. Hugur hans væri efasemdavél. Allar framsóknar-hugsjónir yrðu að einni þvælu hjá honum. Sál hans væri grautarpottur.

— Hver veit, nema þeir hafi rétt að mæla.

Oft hafði hann öfundað þá, sem gátu alt af litið á hlutina frá einni hlið, keptu að einhverju takmarki með óbifanlegri sannfæring og trúarvissu, hvað sem öllum öðrum leið. Hann vissi, að það var leiðin til gengis og gæfu. Hann vissi, að hann átti að stæla hug sinn gegn veikleika sjálfs sín ....

Ö k u þ ó r var táknið .... átti að vera táknið .... brunandi áfram í þrumum og eldingum ....

En óneitanlega var það kynlegt, þetta líf. .... Skinin og grindhoruð kerlingin, þjáð og þrælkuð, með allan kærleikann og allan fögnuðinn og alt þakklætið og alt trúnaðartraustið, þegar úrþvættið sonur hennar kemur heim öskufullur .... eftir að hafa drepið mann! .... Og í fyrramálið á hún að horfa á eftir honum, þegar lögreglumennirnir fara að drasla honum í steininn ....!

Var ekki þetta líf einhver helvízkur tröllladans ....?

Og var hann ekki sjálfur ....?

— Hvað er þetta?

Ritstjórinn hrökk saman og nam staðar. Einu andartaki síðar varð honum kalt frá hvirfli til ilja.

Maður stóð fyrir framan hann, berhöfðaður, náfölur, alvarlegur. Hann laut höfðinu allra-snöggvast ofurlítið áfram .... eins og til þess að sýna gat ofan á því. Þá leit hann framan í ritstjórann, og hristi höfuðið, alvarlegur, þung-búinn.

Svo hvarf hann ....

Ritstjórinn náði sér tafarlaust aftur. Hann varð ekkert hræddur. Hann var svo vanur þess-um kynja-sýnum.

— En hvað vill hann? sagði hann við sjálfan sig. Hvers vegna var hann að hrista höfuðið?

Og hann vatt sér inn í skrifstofu Ökuþórs.

---

V

## Heima hjá ritstjóranum

Sölvi gamli sat út við gluggann og horfði út á götuna. Tveir strákar voru að leika sér að því að stökkva út í poll, og gera tilraunir með það, hvað vatnið gæti skvezt hátt upp eftir þeim.

— Það er geðslegt uppeldi þetta! sagði Sölvi.

Sigríður kona hans sat í stofunni og var að bæta nærföt. Hún svaraði honum engu, vissi það hvorttveggja, að Sölvi var fremur að tala við sjálfan sig en hana, og að hann var nú stundum í því skapi, sem fremur ýfðist en sefaðist við samræður.

— Og það er dáindis vel varið æfinni að nota hana til þess að horfa á krakkana hérna á götunni, eins og eg geri, sagði hann eftir dálitla þögn og geispaði.

Enn þagði Sigríður. Og enn horfði Sölvi út á götuna.

Klukkan í stofunni sló 12.

— Eggert sefur nokkuð lengi í dag, sagði Sölvi gamli þá, heldur óþolinmóðlega.

Hann var venjulega nokkuð óþolinmóðlegur. Hann saknaði jarðarinnar sinnar og alls búsumstangsins. Hann hafði ekkert að gera. Hann vissi ekki til þess, að hann væri neitt bilaður á heilsunni. En hvað átti hann eiginlega að taka sér fyrir hendur? Ekki hafði hann neitt vit á verzlunarstörfum. Til hvers var honum að fara út í húsabrask? Féglæframennirnir mundu rýja hann og éta hann upp á einu ári. Og ekki gat hann farið að gera sig að þræli annara í fiskvinnu eða uppskipun. Hann hafði of lengi átt yfir öðrum að segja til þess. Honum leiddist í þessum stofum, sem ekki voru til neins hafðar .... nema til þess að eyða peningum. Það var vit í því, að hafa heila stofu til einskis annars en þess að láta í sig matinn. Og aðra stofu til þess að láta standa í henni legubekk, sem aldrei var lagst í, og stóla, sem aldrei var sezt á. Með köflum fékk hann megn hræðsluköst út af því, að það hefði verið versta heimska af sér að láta konuna ráða því að selja jörðina og búið, flytjast til Reykjavíkur og leggja peninga í þetta blað, sem líklegast færi alveg á höfuðið einhvern daginn.

Enn sagði Sigríður ekkert.

— Já, þeir eru nokkuð morgunsvæfir orðnir núna, ungu mennirnir, sagði Sölvi eftir dálitla þögn. Þeir sofa einstaklega vært fram yfir hádegi. .... Þegar eg var á hans aldri, var eg venjulega kominn á fætur um miðjan morgun. .... Hvar lendir þetta, Sigríður?

Og Sölvi gamli stundi hátt.

Þá tók Sigríður til máls:

— Eg held við megum þakka fyrir, að blessaður drengurinn getur sofið. Einhvern tíma verður hann að sofa. Hvenær á hann að sofa? Þegar hann er að vinna fram undir miðjan morgun og kemur ekki heim fyr en undir miðjan morgun, þá getur hann ekki farið á fætur um miðjan morgun.

Sölvi gamli tautaði eitthvað fyrir munni sér um það, að hann vissi ekki, hver þarfaverk væru unnin í þessum næturvökum.

— Þú heldur þó ekki, að drengurinn sé á einhverju slarki á nóttunum? sagði kona hans með nokkurri þykkju.

— Nei, eg veit hann drekkur ekki, sagði Sölvi.

Sigríði þótti gott, að hann skyldi þó vita það.

— En hitt er nokkuð undarlegt, að þú skulir ekki þykjast vita það, að hann er að vinna fyrir sér, þegar við sofum.

— Já, það er þetta blað, sagði Sölvi gamli og stundi aftur.

Þau þögðu bæði dálitla stund. Þá tók Sölvi gamli aftur til máls:

— Heyrðu nú, Sigríður .... Eg skil ekki þetta. Eg hefi aldrei skilið það. Eg skil það ekki, þó að eg verði hundrað ára.

— Hvað skilurðu ekki? spurði kona hans.

— Eggert þótti aldrei neitt sérlega greindur drengur. Honum gekk ekkert verulega vel, þegan hann gekk til prestsins. Mér hefði ekki dottið í hug að láta hann fara að læra, ef það hefði ekki verið fyrir nauðið í þér. Þú varst alt af að stagast á því, að hann væri einkabarnið.

— Nú .... er hann ekki einkabarnið? spurði Sigríður með nokkurri ákefð.

Sölvi gamli brosti hálf-vorkunnlátlega, þrátt fyrir alvöruna og gremjuna, sem undir niðri var. Hann var því svo alvanur, að kona hans flytti deilurnar burt frá umræðuefninu og kæmi þeim inn í eitthvert það far, að hún hafði svo ómótmælanlega á réttu að standa, að ekki var nokkurt viðlit að láta sér detta í hug nein andmæli. Hann var fyrir löngu farinn að telja þetta sjálfsagðan kvenlegan veikleika. Svo að hann svaraði þessu engu, en hélt sínum hugsunum áfram.

— Honum gekk ekkert vel í skóla. Loksins

útskrifaðist hann með ekkert góðum vitnisburði. Síðan hefir hann ekkert lært, eins og þú veizt.

— Já, já, sagði Sigríður hægt og háðslega .... hvað er það svo fleira fallegt og ástríkt og elskulegt, sem þig langar til að segja um drenginn þinn?

Sölvi gamli hirti ekki um broddinn, sem var í þessum orðum konu hans.

— Mig langar til að segja það, sagði hann, að eg skil ekki þessa blaðamensku hans. Hann tekur að sér að hafa vit á öllu. Eg efast um, að hann hafi vit á nokkuru. Hann kennir bændunum að búa. Hann hefir aldrei búið sjálfur, og sjaldan nent að gera handarvik. Hann dæmir bækur. Hann hefir aldrei skrifað neina bók sjálfur. Eg gæti bezt trúað því, að hann hafi sárfáar bækur lesið. Hann dæmir um bæjarstjórnina, eins og hann væri útlærður verkfræðingur og þaulæfður fjármálamaður, og eg veit ekki hvað. Samt hefir hann aldrei haft vit á neinu verki; og hann hefir aldrei kunnað að fara með peninga. Stjórnmálin tala eg nú ekki um. Hann gæti ekki talað borginmannlegar um þau, þó að hann hefði verið ráðherra alla sína æfi. Eg skil ekkert í þessu, Sigríður. Mér finst þetta svo líkt vefaranum með tólf konga vitið. Hvaðan er honum komin öll þessi vizka ....

ef hún er annað en endileysa? Ekki hefir hann fengið hana af lærdómi. Fær hann hana í þessum dæmalausu sýnum, sem þér þykir svo mikið varið í? Eða er hann ekkert annað en aulabárður, sem, í ofanálag ofan á þekkingarskortinn og framhleypnina, er að verða eitthvað ringlaður?

Sölvi gamli hafði ekki litið á konu sína, meðan hann lét þessa dælu ganga. Hann hafði staðið upp af stólnum, farið að skálma fram og aftur um gólfið og talað sig upp í harðneskju og ofsa.

Sigríður hafði setið grafkyr og haldið áfram við nærfatagarmana. En nú var hún farin að sjá illa, því að henni hafði vöknað um augu.

— Ef hugsanirnar hafa nokkur áhrif, eins og nú kvað verið farið að kenna, sagði hún með grátstaf í kverkunum, og ef allir hugsa til hans jafn-hlýtt eins og hann faðir hans, þá er ekki ósennilegt, að einhvern tíma andi kalt á hann í lífinu, aumingjann.

Sölvi gamli fann, að hann hafði sært konu sína og linaðist nú allur upp. Hann settist aftur við gluggann og fór að horfa út á götuna, daufur í dálkinn.

Alt í einu lifnaði á strætinu. Drengir komu á harðastökki með blaðabyrðar undir hendinni. Þeir æptu af öllum mætti, hver í kapp við annan:

— Ö k u þ ó r! Ö k u þ ó r! Ö k u þ ó r á þrjá aura!

— Maður myrtur í nótt í Reykjavík!

— Ritstjóri Ö k u þ ó r s finnur líkið fyrstur manna!

— Ö k u þ ó r á þrjá aura!

Menn stöldruðu við á götunni, yrtu hver á annan spyrjandi, og slógu þá hringa utan um drengina. Konur komu hlaupandi út úr húsunum. Ö k u þ ó r rann út. Menn fóru að lesa í mannþrönginni. En fengu ekki frið til þess fyrir troðningnum og höfðu sig á burt með Ö k u þ ó r útbreiddan í höndunum. Drengirnir æptu ákafara og ákafara.

— Hver ósköpin ganga á? sagði Sigríður. Er blaðið ekki komið?

Nei, Sölvi sagði, að það væri ekki komið. En það væri víst eitthvað merkilegt í því. Þeir færu nú víst að koma með það. En Sigríður vildi ekki bíða.

— Þessir þrír aurar setja þig víst ekki á höfuðið, sagði hún.

Svo að Sölvi fór.

Hann kom brátt inn aftur og tók að lesa konu sinni fréttirnar.

Sagan var sögð, að svo miklu leyti sem ritstjórinn kunni hana. Fyrirsagnir voru margar

og með feitu letri. Öllu var haldið í æsingartón. Voðanum þeim vandlega lýst, að unt væri að myrða bæjarbúa sama sem á götunum, og lögreglan hefði enga hugmynd um þetta, nema ef borgarar bæjarins leiddu hana að líkunum. Svo væri nú fyrir þakkandi í þetta sinn, að líka mundi vera hægt að vísa henni á vegandann. Öll frásögnin stefndi að því, að Bjarni hefði sjálfsagt drepið manninn. Þetta kæmist upp eingöngu fyrir tilviljun og eftirtektarsemi eins manns utan lögreglunnar. Þegar lögreglumennirnir voru annaðhvort að leggja sig út af til svefns eða læðupokast einhverstaðar, þar sem þeir hefðu ekkert að gera, þá yrðu aðrir menn að sinna stórglæpum. Að lokum var siðferðileg hugvekja um það, hvað spillingin sé orðin mikil í höfuðstaðnum, og hvað það sé voðalegt að vera að drepa menn.

Þau sátu hljóð dálitla stund á eftir lestrinum.

Sölvi leit á málið frá sama sjónarmiði og sonur hans. Það var langt síðan er hann hafði verið jafn-ánægður með hann og nú.

— Það er klaufaskapur af honum, ef þetta getur ekki fleytt blaðinu hans eitthvað áfram, sagði hann, þegar hann hafði íhugað málið ofurlítið.

Sigríður var á öðrum hugsanaleiðum og sinti því ekkert, sem maður hennar sagði.

— En auminginn hún móðir hans .... hún Álfhildur gamla! mælti hún.

— Þekkirðu hana? spurði Sölvi.

— Já, dálítið.

— Það selst áreiðanlega mikið af Ökuþór í dag, sagði Sölvi.

— Líklegast, sagði Sigríður, heldur fálega.

En konan hans heyrði það. Og hún hrökk við.

— Ef hann heldur nú vel á þessu og verður ekki með neinn kjánaskap, þá venjast menn við að þurfa að lesa Ökuþór, og þá koma auglýsingarnar, sagði Sölvi, fremur við sjálfan sig en við konu sína.

— Svo að þú ætlast til, sagði hún nokkuð hvatskeytlega, að hann færi sér í nyt ógæfu annara til þess að græða á henni. Mér finst þetta vera andstygð.

Sölvi gamli hristi höfuðið. Hann vissi það, að honum var örðugt að tala við hana um alt, sem að fjármálum laut. Það var eins og hún væri ekki alveg með öllum mjalla í þeim efnum. Hann mintist þess, að hún hafði einu sinni orðið stórreið við hann fyrir það, að hann hafði látið bera mann út af jörð, sem hann átti, eftir að maður-

inn hafði setið þar árum saman og aldrei goldið neitt.

— Hann á tólf börn, en við eigum eitt.

Á þessu hafði hún verið að stagast. Af því að þau áttu ekki nema eitt barn, áttu þau að láta eignina vera arðlausa hvern áratuginn eftir annan! Svona leit hún á málið, og allir gátu séð, hvað mikið vit var í því.

— Það hefði áreiðanlega orðið minna til handa honum Eggert þínum, ef þú hefðir æfinlega ráðið, sagði hann í huganum.

Upphátt vildi hann ekki segja það. Hún varð eitthvað svo æst út af öllu í dag.

Í sama bili var hurðinni lokið upp og Eggert kom inn. Hann var nokkuð fölur eftir óvenjulega langa vöku og óvenjulega langan vinnutíma.

— Það hefir gengið mikið á í nótt, sagði faðir hans.

— Já. Þetta var happanótt fyrir Ökuþór, sagði Eggert brosandi.

— Já, sagði faðir hans.

— Ja .... guð varðveiti mig! .... Hvernig þið talið, sagði Sigríður, tók nærfatagarmana í hönd sér og fór út.

---

VI

## Fréttir í Ökuþór

Daginn eftir kom Ökuþór með nýjar fréttir. Fyrsta fréttin var sú — og eðlilega skifti hún ekki hvað minstu máli í augum ritstjórans — að salan á blaðinu hefði margfaldast. Áfergju manna eftir að ná í blaðið var lýst með einkennilegum dæmum. Margir höfðu, eftir frásögn blaðsins, orðið að beita ofbeldi, og aðrir mikilli slægð, til þess að verða aðnjótandi þeirra ómetanlegu hlunninda að fá að lesa Ökuþór. Og auglýsendum var bent á það einkar vandlega, hvílík fásinna það væri, og hve beinn gjaldþrota-vegur það væri, að leggjast undir höfuð að auglýsa í blaðinu, þar sem almenningur manna slokaði í sig efni þess af svo óslökkvandi þorsta.

Önnur fréttin var sú, að eftir bendingu Ökuþórs hefði Bjarni Ólafsson verið tekinn fastur.

Vegna þess áhuga, sem blaðið hafði á þessu stórmáli, kvaðst það sjá sér fært að skýra ítarlega frá atvikum. Bjarni hefði verið steinsofandi eftir ofdrykkjuna, þegar lögreglumennirnir komu. Og mikil mildi var það, og ekki árvekni lögreglunnar að þakka, að hann skyldi ekki vera genginn úr greipum hennar.

Álfhildur gamla, móðir hans, hafði tekið á móti komumönnum.

Henni var lýst allnákvæmlega — að hún væri lítil og fyrirgengileg. En auðséð væri, að einhvern tíma hefði hún verið óvenjulega lagleg, enda segðist þeim svo frá, sem myndu eftir henni ungri. Nú væri ekki annað orðið eftir af fegurðinni en blá, stór, góðmannleg augu, með nokkuð draumkendum blæ, og mikið hár, sem hefði verið kastaníubrúnt, en væri nú mikið farið að grána, einkum yfir enninu. Menn segðu líka, að hún hefði verið óvenjulega bókhneigð og gáfuð ung stúlka, og að marga hefði furðað á því, hvað hún hefði fengið óálitlegt gjaforð. Maður hennar hefði verið geðríkur og drykkfeldur, en atorkumaður samt, og hefði drukknað eftir fárra ára hjónaband. Í alls konar örðugleikum hefði hún lent með þennan son sinn, og frá því mundi síðar verða skýrt nákvæmara. Hún

hefði verið með skotthúfu á höfðinu og hefði bundið á sig þríhyrnu utan yfir dagtreyjuna. Komumenn spurðu eftir syni hennar.

— Hann sefur. Hvað viljið þið honum? hafði hún sagt.

Og hún hafði skipað sér þvert fyrir anddyrið, eins og til þess að verja þeim inngöngu, stungið höndunum inn undir þríhyrnuna og reynt að gera sig sem breiðasta í dyrunum.

— Bæjarfógetinn vill finna hann, sögðu lögreglumennirnir.

— Bæjarfógetinn? .... Hvað vill h a n n honum Bjarna mínum?

Lögreglumennirnir spurðu, hvort hún hefði ekki lesið Ö k u þ ó r.

Nei, hún hafði ekki lesið Ö k u þ ó r. Hún hafði ekki efni á að kaupa blöð.

— Jæja, þér fáið að vita það seinna, hvað bæjarfógetinn vill honum, höfðu lögreglumennirnir sagt .... Lofið þér okkur nú að komast inn til hans.

En hún vildi ekki sleppa þeim inn, fyr en hún hefði fengið að vita eitthvað meira.

— Það fanst dauður maður í gær úti á battaríi, sögðu lögreglumennirnir.

— Nú? .... og hvað þá?

— Hann hefir víst verið drepinn.

— Guð almáttugur varðveiti mig .... hvað eruð þið að segja? .... Nú? .... og hvað þá?

— Það er haldið, að hann Bjarni yðar sé eitthvað mikið við þetta riðinn .... Lofið þér okkur nú að komast inn, svo að við þurfum ekki að beita við yður neinu valdi. Við erum ekki að gera annað en okkar skyldu.

— Þið eruð þó ekki að gefa í skyn, að hann Bjarni minn hafi drepið mann?

Röddin var hás og þrungin af skelfingu.

— Það segjum við ekkert um. Hleypið þér okkur nú inn .... fljótt!

Þá hafði Álfhildur gamla linast öll upp. Hún tók að titra, hneig niður á kassa, sem var þar í anddyrinu, tók höndunum fyrir andlitið, reri fram og aftur og tautaði fyrir munni sér:

— Guð minn, guð minn! Hví hefir þú yfirgefið mig?

Lögreglumennirnir skildu hana þar eftir og fóru inn til Bjarna.

Þeim gekk illa að vekja hann. En þegar honum skildist loksins, í hverjum erindum þeir væru, þá fór hann að gráta. Hann var alt af að gráta, meðan hann var að klæða sig, og eins og viljalaus. Ö k u þ ó r skýrði það svo, að taugar hans, sem veikar voru af ofdrykkju daginn eða dagana áður, hefðu alveg bilað, þegar sú voðastund

rann upp, að hann var tekinn fastur fyrir manndráp — sem hann bjóst við, að engan gæti grunað, að hann væri neitt riðinn við.

En svo breyttist hann skyndilega. Hann harkaði af sér og fyltist þrjózku.

— Hvað vill bæjarfógetinn mér eiginlega? spurði hann hvatskeytlega.

— Það fær þú að vita, þegar þið finnist, sögðu lögreglumennirnir.

— Eg fer ekkert. Hann hefir ekkert við mig að tala. Eg hefi ekkert gert, nema verið fullur. Og það kemur honum ekkert við. Eg fer ekki eitt fet.

Lögreglumennirnir reyndu að gera honum skiljanlegt, að þrjózkan gerði ekki annað en spilla fyrir honum. En hann lét sér ekki segjast. Ef til vill var hann enn hálf-drukkinn. Hann ýtti borði frá glugganum fram á gólfið, skauzt inn fyrir það, og gerði sig líklegan til þess að verjast þaðan.

Áður en hann varði, voru handjárn komin á hann.

— Skilurðu þetta, lagsmaður? sögðu lögreglumennirnir.

Hann horfði fyrst á hendurnar á sér, eins og forviða. Þá gaut hann til þeirra hatursaugum. Þeir leiddu hann út.

Álfhildur gamla sat enn á kassanum, reri fram í gráðið og tautaði eitthvað fyrir munni sér, sem þeir heyrðu ekki. Fyrst varð henni litið á hendurnar á syni sínum í járnum. Það var eins og hún megnaði ekki að gera sér grein þess, sem var að gerast. En um leið og þeir fóru með hann út úr húsinu, rak hún upp hljóð og spratt upp.

— Má eg ekki kveðja hann? hrópaði hún á eftir þeim.

Jú, hún mátti kveðja hann.

— Nú get eg ekki tekið í höndina á þér, mamma, sagði Bjarni. Þú sér, hvernig þessir fantar hafa farið með mig. Samt hefi eg ekkert gert .... ekkert, nema verið vondur við þig, mamma .... ekkert annað .... þér er óhætt að reiða þig á það.

— Þú vondur! .... við mig? .... Hvað ertu að segja, drengur? sagði Álfhildur, eins og þetta væri mesta fjarstæðan, sem að eyrum hennar gæti borist.

Lögreglumennirnir fóru að sýna á sér óþolinmæði. Álfhildur kysti son sinn, og bað guð að fylgja honum og styrkja hann. Þeir lögðu af stað með hann. Álfhildur mændi á eftir þeim, meðan til þeirra sást.

Þriðja fréttin var um réttarhaldið. Hún var

ógreinilegust — nema um framburð ritstjóra Ö k u þ ó r s. Bæjarfógeti hafði verið sagnafár.

Svo mikið vissi Ö k u þ ó r samt, að Bjarni hafði verið örðugur, reiður út af því að hafa verið tekinn fastur saklaus. Hann þverneitaði að gera þess nokkura grein, hvað hann hefði aðhafst kvöldinu áður, eða hvar eða með hverjum hann hefði verið. Fullur hefði hann verið; honum dytti ekki í hug að vera neitt að þræta fyrir það. En það kæmi engum við, því að hann hefði engum gert neitt mein.

Þegar útséð þótti um það, að meira fengist upp úr Bjarna það skiftið, var hann sendur í steininn til varðveizlu.

Lengra þokaði málinu ekki áfram þann daginn.

En Ö k u þ ó r lofaði Reykvíkingum því, að hann skyldi fylgja málinu og fræða þá um það af svo mikilli nákvæmni, sem kostur yrði á.

---

## VII

## Glampinn

Daginn eftir, að þessi tíðindi birtust í Ö k u - þ ó r, sat ritstjóri blaðsins einn inni í skrifstofu sinni eftir hádegisbilið. Ö k u þ ó r var kominn út.

Ritstjórinn fann til þess með nokkurum óhug, að þetta blað var ekki jafn-útgengilegt eins og tvö síðustu blöðin höfðu verið. Hann hafði ekki fengið neina nýja vitneskju, til þess að láta Ö k u þ ó r flytja mönnum. Hann hafði sett saman grein um málið á víð og dreif, til þess að halda því vakandi. Hann gerði ráð fyrir því, að um þetta mál vildu Reykvíkingar helzt lesa. En honum hafði ekki dottið neitt smellið í hug. Hann hafði hjalað um þá spillingu, sem ungmenni bæjarins væru undirorpin, og um algert dáðleysi lögreglunnar. En hann gekk að því vísu, að kunningjar sínir mundu stríða sér á

því, að þessi samsetningur væri nokkuð vatnsborinn.

Þá var barið að dyrum, undurlágt. Það var varla, að ritstjórinn heyrði það. Samt sagði hann gestinum að koma inn.

Það var Álfhildur, sem kom inn. Hún virtist hafa bæði vakað og grátið. Samt sýndist Eggert einhver undarleg rósemi á andliti hennar. Og hann sagði við sjálfan sig:

— En hvað hún hlýtur að hafa verið lagleg!

— Sælir verið þér. Og þakka yður fyrir síðast, sagði Álfhildur einkar góðlátlega, og rétti honum höndina.

Ritstjórinn roðnaði og fékk hjartslátt.

— Ekkert að þakka, sagði hann dálítið vandræðalega. Gerið þér svo vel að fá yður sæti.

Hún settist á stól úti í horni, til hliðar við gluggann, í mesta skugganum, sem til var í herberginu. Ritstjórinn þóttist finna það á sér, að hann mundi ekki losna við hana eins fljótt og hann vildi. Hann reyndi að gera hugann harðan, eins og til þess að verjast einhverri árás.

— Hvað er yður á höndum? spurði hann, fremur fálátur.

Hún svaraði ekki spurningunni, en hélt sinn hugsana-feril.

— Jú, eg hefi mikið að þakka yður fyrir — að þér komuð drengnum mínum heim um kvöldið, sagði hún.

Hann vissi það, að hann hafði ekki komið drengnum hennar heim í neitt góðum hug, og að það var eðlilegt, að hún reyndi fremur að gera honum eitthvað ilt en að þakka honum. Fyrir því reyndi hann enn betur að herða hugann.

— Komuð þér eingöngu til þess að þakka mér fyrir það? sagði hann enn fálátari en áður.

— Nei, sagði Álfhildur.

Og svo þagnaði hún. Eggert var alveg í vandræðum með hana. Honum fanst ekki, að hann gæti beitt verulegri harðneskju við hana, gamla, sorgbitna konu. En það var óþolandi að hafa hana þarna á stólnum. Hún horfði á hann góðlátlega, nærri því ástúðlega, og hún var vafalaust að hugsa um það í sínum mentunarleysis-skilningsskorti, að hann væri fantur. Hann tók að þrá það, að hún færi að troða illsakar við hann.

Eftir ofurlitla stund tók hún til máls:

— Þér hafið nú seinustu dagana sagt mönnum svo mikið um mig og mína, að eg vona, að þér firtist ekki við mig, þó að eg spyrji yður að einni spurningu um sjálfan yður.

Eggert varð nokkuð hvumsa við. Honum fanst eins og einhver rannsókn ætti að fara fram gegn sjálfum honum. Álfhildur sá, að honum brá.

— Þér þurfið ekki að vera neitt hræddur, sagði hún með daufu brosi. Ekki fer e g með það í blöðin.

Um hvað viljið þér spyrja?

— Hvað eruð þér gamall?

— Gamall? át Eggert eftir henni steinhissa. Mér er auðvitað engin launung á því. Eg er tuttugu og tveggja ára.

— Guði sé lof, sagði Álfhildur.

— Nú .... hún er að verða eitthvað geggjuð! sagði Eggert við sjálfan sig. Eða er hún að henda gaman að mér?

Þá sagði hann upphátt:

— Fyrir hvað? Fyrir það, að eg er tuttugu og tveggja ára?

Og hann hló. Samt var hann einhvern veginn alt annað en glaður.

— Já, sagði Álfhildur. Þér eruð ekki nema árinu eldri en hann Bjarni minn. Þá getið þér ekki verið vondur maður.

Ritstjórinn hló aftur.

— Það er óneitanlega ályktun, sem er fyrirtak fyrir mig, sagði hann. En hvers vegna get

eg ekki verið vondur, þó eg sé árinu eldri en sonur yðar?

Hann reyndi að segja þetta með góðlátlegu mikillæti, eins og menn tala við börn .... eins og hún væri óþroskuð sál, og í raun og veru lítillæti af honum að vera að rabba þetta við hana.

— Æskan er stundum hugsunarlaus, ónærgætin, sagði Álfhildur. En heimurinn þarf langan tíma til þess að gera mennina vonda .... Hvernig gátuð þér hugsað yður, að hann Bjarni minn væri vondur maður?

Hvernig átti hann að losna við hana? Hann hafði ekki kjark til þess að reka hana út. Hann gat ekki annað en svarað henni einhverju. En alt, sem hann sagði, hlaut að verða henni tilefni til þess að halda samræðunni áfram. Hvernig átti hann að hafa tíma til að skeggræða við allar kerlingar bæjarins út af hverri grein í Ö k u þ ó r, sem þeim geðjaðist ekki vel að? Hann hálf-kendi í brjósti um hana. Og hann var henni líka hálf-reiður.

— Eg hefi ekki neitt um það sagt, mælti hann. Eg hefi ekki sagt annað en það, sem er satt og áreiðanlegt .... En þó að yður kunni að þykja hart að heyra það, þá er það samt satt, að sonur yðar hefir ekki sem bezt orð á sér.

Hann er drykkfeldur í meira lagi. Og hann er óvenjulega vondur við brennivín.

— Já .... já .... sagði Álfhildur seint og hugsandi .... Þér drekkið ekki. Þér eruð ekki í áflogum .... Þér gangið eftir snúrunni, sem mannfélagið er að reyna að setja ástríðum mannanna og yfirsjónum.

— Finst yður það vera ókostur á mér?

— Eg veit ekki .... Nei, líklegast ekki .... En eg veit það ekki. Eg er svo fáfróð. Eg veit ekki, hvað er kostur eða ókostur .... í guðs augum .... Vitið þ é r það?

Ritstjórinn svaraði dálítið drýgindalega:

— Eg get að minsta kosti ekki hugsað mér, svona til dæmis að taka, að það sé kostur í hans augum, fremur en annara, að fylla sig á áfengi og gera sig að svíni.

— En að fylla sig á eigingirni? sagði Álfhildur hægt.

Ritstjórinn stóð upp og ypti öxlum óþolinmóðlega.

— Nei, það er fráleitt gott, sagði hann.

— En það er einmitt þetta, sem þið teljið aðalkostinn á mönnunum, sagði Álfhildur, og var nú tekin að lifna.

— Hvers vegna talið þér svona? sagði ritstjórinn hálf-reiður.

— Af því að það er satt: Þið eruð alt af að drekka ykkur drukna. Eg gæti bezt trúað því, að guði sýnist þið vera að drekka ykkur vitlausa. Sumir drekka líkama sinn fullan í áfengi, eins og hann Bjarni minn. Aðrir drekka sál sína fulla í gróðalöngun og valdafýsn og alls konar heimsku. Og þeir eru taldir sæmdarmenn. Því bólgnari, sem sál ykkar verður af drykk eigingirninnar, því betur sem þið standið á verði fyrir hagsmunum sjálfra ykkar, því ótrauðari sem þið eruð að stjaka öðrum mönnum frá lífsins gæðum, því leiknari sem þið eruð í því að leika á aðra, án þess að á verði haft, því fimlegar sem ykkur tekst að nota aðra, til þess að klifra upp eftir þeim upp í það hásæti, sem sál ykkar er farin að þrá, því meira þykir til ykkar koma. Það er von, að þið séuð svona. Þetta hefir ykkur verið kent, öllum, undantekningarlaust. Allar aðrar kenningar eru hjal venjunnar, sem enginn ætlast til að þið takið neitt mark á. Þið drekkið þessa kenningu um lífið með móðurmjólkinni. Þið andið henni að ykkur úr loftinu utan um ykkur. Hún seitlast inn í ykkur úr hugum allra, sem þið eruð samvistum við. Sál ykkar sýgur hana í sig úr nærri því hverri einustu línu um lífið, sem þið lesið í blöðum og bókum. Og þið, sem hafið ekki

vilst út frá snúrunni, þið teljið ykkur örugga. Þið hlaðið utan um sál ykkar skjaldborg drambseminnar. Þið kastið þaðan grjóti á þá fáráðlingana, sem álpast hafa afleiðis .... eins og hann Bjarni minn .... Já, hvað er kostur? Hvað er ókostur? .... Guð veit það. Eg veit það ekki.

Hún sagði þetta ekki af neinum ofsa, en af auðheyrðri sannfæring, eins og hún væri að halda þessu að honum með stillilegum fortölum. Ritstjórinn var tekinn að hlusta fast. Þetta kom við strengi í sál hans, sem höfðu kveðið við eitthvað líkt þessu alt af öðru hvoru, þó að hann hefði lítið gert sér þess grein. Samúð hans með Álfhildi óx með hverju andartaki.

— Þér haldið þá, að við séum nokkuð vondir? sagði hann, og alt mikillæti var horfið úr rómnum.

— Að minsta kosti ekki þér, mælti hún brosandi.

Þá varð hún aftur alvarlegri.

— Nei, mennirnir eru ekki vondir. Eg hefi aldrei þekt neinn vondan mann. En heimurinn hleður utan á þá allavega litri ranginda-skel, af því að þeir gæta sín ekki fyrir eigingirninni.

Hún þagnaði aftur ofurlitla stund.

Hann horfði á hana og athugaði, að dökt sjalið var farið að verða snjáð, að nefið var

beint og að of mikið bar á því í mögru andlitinu. Hann fór að hugsa um, hve vel það hlyti að hafa farið, meðan andlitið var ungt og blómlegt. Honum fanst óendanlegur góðleikur renna saman við rauna-rúnirnar í svipnum. Sál hans sveigðist að henni, líkt og hún væri móðir hans.

Hún tók aftur til máls:

— Vitið þér nokkuð um hann Bjarna minn, annað en það, að hann er drykkfeldur og vondur við vín, og að þér sáuð hann þarna um nóttina?

— Nei.

— En ef þér vissuð alt, sem eg veit! Ef þér vissuð, hvernig gæðin, sem eru hans insti maður, geta brotist fram, eins og stíflaður árstraumur, þegar hann nær að njóta sín! Eg hefi þekt hann alla hans æfi. Eg hefi setið við dyr sálar hans og hlustað, stundum fagnandi, stundum harmþrungin. Eg hefi mænt inn á hugarlönd hans, dag og nótt, ár eftir ár, stundum með tárin í augunum, stundum glöð, eins og þegar eg sá hann fyrsta skiftið í rúminu hjá mér. Eg ætti að þekkja hann. Finst yður ekki?

— Jú.

Hann var hættur að horfa á hana. En sál hans drakk orð hennar eins og ljúffengt vín. Hann

hafði aftur fengið hjartslátt. Það var eins og magn móðurástarinnar vermdi hann allan frá hvirfli til ilja.

Hún hélt áfram:

— Þér haldið, að hann sé vondur. Hann var einn vetur á Norðurlandi fyrir fáum árum. Barn datt ofan í vök, og það bar út undir ísinn. Hann steypti sér á eftir því. Hann náðist nær dauða en lífi. Og barnið var lifandi í höndunum á honum .... Og þér haldið, að hann sé manndrápari!

Hann var í vandræðum. Hún hafði sannfært hann. Eða einhvern veginn var hann allur orðinn á hennar bandi. En hann varð að verja sig. Hann skammaðist sín fyrir það, sem hann hafði gert. Hann skammaðist sín líka fyrir að láta svona undan.

Þá kom honum nýtt til hugar. Hann varð að koma með það. En hann kveinkaði sér við því.

— Eg trúi yður alveg, mælti hann. Eg skil það, að þér þekkið son yðar bezt. Eg trúi því, að þér segið mér alt satt. En þér verðið að gæta að því, að Bjarni var drukkinn. Hann getur hafa gert það í ölæði. Hann *hefir* gert það í ölæði, ef hann hefir gert það. Eða þá alveg óvart. Það er eins og hvert annað slys.

Ekki þyrfti hann að vera neitt vondur maður, þó að hann hendi slys.

— Eg hefi hugsað um þetta, sagði Álfhildur með hægð. Og eg veit, að þetta er ekki rétt til getið.

Eggert spurði hana, hvernig hún gæti vitað það.

— Mér er örðugt að segja það, svaraði hún. Eg veit ekki, hvort nokkur skilur það. Allra-sízt jafn-ungur maður eins og þér eruð .... Eg hefi talað mikið við drottin. Sjaldnast hefi eg haft neinn annan við að tala. Eg hefi talað við hann í sólskininu. Þá finn eg, að eg og aðrir smælingjar hans erum að lauga okkur í óendanlegri blessun frá honum. Eg hefi talað við hann í rigningunum. Eg veit þá, að sorg hans er sorg alheimsins, og að hún er þyngri og dýpri en öll veraldarinnar höf. Eg hefi talað við hann í storminum. Eg veit þá, að hann hefir mátt alheimsins til þess að vernda þá, sem biðja hann. Eg hefi talað við hann á nóttunum .... einkum á nóttunum. Og friður hans hefir vafist utan um sál mína, eins og mýkstu tónar, eins og himinbláminn vefst utan um fjöllin fyrir augum okkar, eins og sólarlagsgeislarnir vefja sig utan um skýin á vesturloftinu með alls konar undarlegum, dularfullum ljóma.

Var það málrómur hennar, sem var svo mjúkur, að hann fengi smogið inn í sál hans, eins og hitinn í andvaranum smýgur inn í húsin? Eða var það sál hans, sem alt af hafði setið í dimmu og verið að bíða eftir einhverri skínandi reynslu-sól annarar sálar?

Hann vissi það ekki. Hann vissi ekkert. En hann hlustaði, gagnrýnilaust, hugfanginn.

Og hún hélt áfram:

— Eg hefi alt af talað við drottinn um Bjarna minn .... Þér megið ekki halda, að það sé eg ein, sem hefi talað. Drottinn hefir talað við m i g.

— Hvernig? spurði Eggert ákafur.

— Eg veit ekki, hvernig hann hefir talað við mig. En hann hefir fylt sál mína trúnaðartrausti, eins og hann fyllir loftið hita á sumrin. Ofurlitla stund fanst mér dimt og kalt, þegar þeir tóku drenginn minn. Það var mikil fásinna af mér. Þér hefðuð ekki átt að segja frá því í blaðinu. Eg er ein af umkomulausustu einstæðingum og smælingjum í þessum bæ. Vinir mínir hafa yfirgefið mig og gleymt mér. Drengurinn minn gleymir mér, þegar sollurinn tekur hann frá mér. En drottinn gleymir mér aldrei og yfirgefur mig aldrei. Hann frelsar mig frá illu. Og

hann lætur ekki drenginn minn vinna voðaverk .... viljandi né óviljandi. Eg veit það.

— Guð almáttugur! Hvað er að gerast?

Ritstjórinn vissi ekki, hvort hún hélt áfram að tala, eða hvort hún þagnaði. Hann heyrði ekkert lengur. Sjónin bar öll önnur skilningarvit hans ofurliði.

Skotið, sem Álfhildur gamla hafði setið í, var orðið fult af undarlegum, himneskum ljóma. Þar sem setið hafði einu augnabliki áður útslitin, gömul kona, raunamædd, hrjáð og hrakin af veröldinni, var komin dýrleg vera, meira en ung, ímynd æskunnar sjálfrar, guðdómlega fögur, brosandi eins og barn, með vitsmuni alheimsins glampandi í augunum. Á grátt hárið var kominn gullsliturinn, sem morgunsólin leggur á fjallabrúnirnar. Dökt og snjáð sjalið var orðið að skínandi törfaskikkju, líkastri tærasta bergvatnsfossi, tindrandi í sólarljósinu.

Var þetta lengi?

Hann vissi það ekki. Hann vissi ekki, hvort það var eitt augnablik eða eilífðir. Tíminn var ekki annað en hlægileg blekking. Jarðneskir hlutir voru hillingar hégómans.

Hann hafði séð eitthvað af þessari konu, eins og hún var í raun og veru. Hann hafði séð glampa af dýrð mannssálarinnar.

Líkami hans sat kyr á stólnum, hræringarlaus, eins og stirðnaður. En án þess að hann vissi af því sjálfur, varpaði sál hans sér með lotningar-fögnuði fram fyrir hásæti alheimsandans.

---

## VIII
## Sigyn

Álfhildur sat á stólnum eins og áður, föl, roskinleg og þreytuleg.

— Hvað er þetta? sagði hún. Eg hefi þó ekki sofnað? .... Fyrirgefið þér. Eg hefi vakað svo mikið undanfarnar nætur. Verið þér nú sælir.

Hún stóð upp og kvaddi hann með handabandi.

— Þér eruð ekkert reiður við mig? sagði hún.

— Nei.

Meira gat hann ekki sagt.

Og hún fór út úr dyrunum.

Hann vissi varla af sér. Þá varð honum litið á Ökuþór á borðinu.

Hann mintist þess þá, að þessa konu, sem nú var nýfarin út frá honum, hafði hann ofsótt. Hann hafði ekki tekið hana fremur til greina,

en ef hún hefði verið dauður hlutur. Hann hafði leitað sér ávinnings með því að leggja sem vandlegast fram fyrir forvitinn, samúðarlausan almenning alt, sem henni var viðkvæmast. Hann hafði unnið að því af kappi að fá það sannað, að sonur hennar væri glæpamaður. Hann hafði ó s k a ð þess, að hann væri það ....

Hann hefði þrætt fyrir þá ósk, ef einhver hefði borið hana á hann. En hann fann, að hann gat ekki þrætt við sjálfan sig. Inst inni í sál sinni hafði hann óskað þess ....

Alt til þess að hafa af því ávinning!

Sál hans fyltist hryllingi og andstygð.

Hann fleygði blaðinu út í horn í einhverri vonzku. Hann hafði enga löngun til þess að fara að semja grein fyrir næsta blað. Vissi ekki heldur, um hvað hann ætti að skrifa. Út vildi hann ekki. Hann vissi ekki, nema hann kynni að rekast á einhvern, sem færi að tala við hann. Hann vildi við engan tala. Hann stökk að dyrunum og tvílæsti.

— Eg opna ekki, hvernig sem þeir hamast. Eg vil hafa frið, sagði hann við sjálfan sig.

Sál hans var eins og úfinn fjörður. Hann varð að lægja öldurnar. Reyna að lesa kyrð á hugann. Hann gekk að bókaskápnum, og tók út úr honum fyrstu bókina, sem fyrir honum varð.

Það var Snorra-Edda.

— Ekki getur hún verið neitt æsandi.

Honum datt í hug að flytja sig inn í herbergi inn úr skrifstofunni, til þess að vera sem lengst frá ganginum og öllum hávaða. Þessu herbergi var eiginlega ofaukið. Hann hafði ekki getað fengið húsnæðið handa blaðinu, nema hann tæki þetta herbergi með. En hann þurfti ekkert á því að halda. Samt hafði hann sett þarna inn legubekk, sem hann átti, og ekki hafði komist fyrir í skrifstofunni. Og fyrir hafði það komið, að hann hallaði sér þar út af með bók í hendinni.

— Nei, það er bezt, að eg verði hér, sagði hann við sjálfan sig. Hér er hlýrra.

Hann fletti bókinn upp af handahófi, settist með hana við skrifborðið, og tók að lesa um afdrif Loka í Gylfaginning.

Þá var barið.

Ritstjóranum datt ekki í hug að ljúka upp, þó að þeir berðu allan daginn. Síðustu dagana hafði hann fagnað út af því, hvað margir komu, talið alt rápið mikla sæmd fyrir Ökuþór.

— Einhvern tíma verð eg að hafa frið! sagði hann nú í huganum.

— Það er bara eg. Ertu ekki inni, Eggert .... Jú, eg sé þig gegnum skráargatið, var sagt hlæjandi fyrir utan.

Hann stökk upp af stólnum og opnaði.

Það var Svanlaug.

— Sæll og blessaður, sagði hún og lagði hendurnar um hálsinn á honum.

Andlitið, sem annars var fölt, var nú dálítið rjótt af útivist og hlaupum upp stigann. Blá augun dönsuðu af kátínu. Það hafði aldrei brugðist, að hann yrði kátur, þegar hann hitti hana. Hann hafði aldrei hugsað sér, að hann gæti orðið í öðru skapi í návist hennar. Nú skammaðist hann sín fyrir það, að hann varð ekkert kátur.

Hún settist á stólinn, sem Álfhildur hafði setið á, og rétti litla, háhælaða fætur fram á gólfið undan stuttu, þröngu kjólpilsinu. Æska og fjör voru í hverri hreyfingu.

— En hvað veðrið er gott! sagði hún. Hvað það er gaman, að það skuli vera komið frost. Hvaða kerling var að fara út frá þér áðan?

Hún bar svo ört á, að hún gerði ekki andartaks hlé, þó að hún skifti algerlega um efni.

Hann gat ekki hugsað til þess að fara að skýra henni frá Álfhildi. Hann fann mikið til þess, hvað hún var yndisleg þarna á stólnum. En hann var þess ekki fullvís, að honum fyndist hún jafn-yndisleg, ef hann færi að segja henni eitthvað, sem hún teldi vitleysu.

— Það er gömul kona, sem eg þekki dálítið, sagði hann.

— Hvers vegna tvílæstirðu áðan? spurði hún.

— Mig langaði til að vera einn.

— Nú, einmitt það! Var eg ekki búin að segja þér, að eg ætlaði að koma um þetta leyti? Þú vildir ekki hafa mig! Á eg að fara?

Hún gerði sig líklega til að standa upp.

Í æsingunni hafði hann steingleymt því, að hún hafði ráðgert að koma.

— Nei, nei, nei! sagði hann. En sú vitleysa! Þú veizt, góða, að þig vil eg æfinlega.

— Jæja, komdu þá og kystu mig.

Hann gerði það. Hún tók í annan eyrnasnepilinn á honum og hló.

— Er nokkuð skemtilegt í Ökuþórí í dag? spurði hún.

— Nei.

— Hvers vegna ekki? Hvers vegna hefirðu hann ekki alt af skemtilegan? Það var svo anzi gaman að honum tvo síðustu dagana.

— Jæja .... fanst þér það? sagði hann dræmt. Og hann fann eins og sviða einhverstaðar inni í fylgsnum sálar sinnar.

— Hvaða bók ertu að lesa þarna? spurði hún. Skemtilegan róman? Þú ættir að lána mér hann.

Hann sagði henni, hver bókin væri.

— Guð sé oss næstur! Lokarðu þig inni til þess að geta lesið Eddu? Hvernig ferðu að geta lesið þetta gamla drasl?

— Hefirðu aldrei lesið Gylfaginning?

— Nei. Og eg hefi ekki hugsað mér að gera það, sagði hún hlæjandi.

— Þetta, sem eg var að lesa, er eitt af því mikilfenglegasta, sem mannsandinn hefir látið letra. Sjálfsagt eftir óendanlega reynslu af sálargöfgi um þúsundir eða miljónir ára.

Hún virtist ekki hlusta vandlega á hann.

— Heyrðu, sagði hún, ætlarðu að koma með mér á skauta í kvöld? Svellið á tjörninni verður áreiðanlega orðið ágætt.

— Eg veit ekki .... Jú, jú, ef eg get.

En það, sem hann hafði farið að tala um, var svo ríkt í huga hans, að hann undi því ekki, að hún kæfði það. Svo að hann hélt áfram:

— Loki er verstur allra, þessa heims og annars. Hann gerir hvert níðingsverkið á fætur öðru. Að lokum fær hann þau gjöld illverka sinna, að hann er lokaður inni í helli, bundinn þar járnböndum, og eiturormur festur uppi yfir honum. Eitrið drýpur úr orminum í andlit honum.

— Finst þér þessi vitleysa skemtileg? Eða

finst þér hún falleg? sagði Svanlaug dálítið óþolinmóð.

— Bíddu nú við! Hann á konu, sem heitir Sigyn. Hún er Ásynja. Hún er guðdómleg vera. Hún er fædd til endalausrar gæfu og eilífs fagnaðar. En hún lokar sig þarna inni í hellinum hjá honum, sem er verstur í heimi, til þess að mýkja þjáningar hans. Hún heldur mundlaug undir eiturdropana. Hún víkur aldrei frá honum, nema meðan hún er að hella úr mundlauginni. Þarna stendur hún í hellinum, gyðjan sjálf, dag og nótt, ár eftir ár, öld eftir öld .... Er það ekki guðdómlegt?

Hún þagði.

Hann varð hugrakkari. Hann hélt, að hann hefði snortið samúðarstrengi í sál hennar. Og hann var eins og drukkinn af hugsuninni um Ásynjuna.

— Þú kannast sjálfsagt við þetta, sagði hann. Það er sagt, að allar góðar konur kannist við þetta, sem hér er bak við.

Hún leit framan í hann hlæjandi.

— Já, eg kannast við það. Og það er sjálfsagt guðdómlegt. Það er að segja guðdómlega karlmannlegt. Karlmenn eru alt af að setja saman dæmalaust átakanlegar sögur um það, hvað konur vilja líða mikið fyrir þá. Og hvað þær

e i g i að líða mikið fyrir þá. Hefir þér aldrei komið til hugar, að það sé nein hlægileg hlið á öllum þeim samsetningi?

Nú stóð hún upp og rétti honum höndina.

— Vertu nú sæll, sagði hún. Þú verður ekkert skemtilegur, þó að eg sé að tefja hér lengur. Þú bætir það vonandi upp í kvöld á tjörninni. Ef þú gleymir því þá ekki, að eg hafi ætlað þangað með mér!

Hann starði, sneyptur og lamaður, á hurðina, sem lokaðist á eftir henni.

---

## IX

## Gamli Runki heimsækir ritstjórann

Hann vissi, að hann varð einhvern veginn að sjá fyrir efni í blaðið næsta dag.

Honum var það meira en ógeðfelt. Hann hafði fengið óbeit á allri þeirri rekistefnu út af einskisverðum hlutum, sem áður höfðu verið meginefnið. Hann hafði fengið bölvun á stjórnmálaþrasinu, fullu af illkvitni, ósannindum og valdafíknarrembingi. Það fór hryllingur um hann, þegar hann hugsaði til manndrápsmálsins í blaði sínu. Og kaldur þokuslæðingur fór um hugskot hans út af Svanlaugu.

— Eg vildi, að eg væri kominn til Ástralíu .... eða eitthvað enn lengra burt, sagði hann við sjálfan sig.

Hann hristi þetta af sér, að svo miklu leyti, sem hann gat. Hann samdi ritstjórnargrein um alt og ekkert. Hann mælti með samskotum til

máls, sem hann hafði enga hugmynd um. Og hann samdi dálitla, harðorða grein um 5 aura, sem maður hefði orðið að greiða fyrir að fá utanhafnarföt sín geymd nokkurar klukkustundir, meðan hann stóð við í einu landssjóðshúsinu, og hótaði miklum afleiðingum af því, ef slíkri féfletting yrði haldið áfram.

Hann gerði þetta alt nauðugur, utan við sig. Hann vissi, að það var alt óboðlegt, verra en einskisvirði. En þá var hann líka þurausinn. Aðstoðarmönnum sínum, sem höfðust við í næsta herbergi, fól hann að gera blaðið úr garði að öðru leyti.

— En þið megið ekki minnast á manndrápsmálið, sagði hann.

Þeir gláptu á hann eins og naut á nývirki.

— En ef við fréttum eitthvað? spurðu þeir.

— Ekki nokkurt orð um það í prentsmiðjuna .... hvað sem þið fréttið. Eg kem aftur, áður en farið verður að prenta.

Og hann rauk út.

— Og bölvaður! .... eg var einmitt að byrja á smellinni grein um Bjarna. Nú veit eg ekkert, um hvað eg á að skrifa, sagði annar aðstoðarritstjórinn.

— Já, nú hefir hann fengið eitt vitleysiskastið, sagði hinn.

— Það er áreiðanlegt, að Svanlaugu þykir ekki Ökuþór skemtilegur á morgun .... og öðrum ekki heldur, sagði ritstjórinn við sjálfan sig, um leið og hann kom út á götuna.

En nú varpaði hann þeirri áhyggju af sér. Nóg var samt.

Inni í öllu rótinu í sál hans hafði Álfhildi alt af skotið upp, síðan er hún fór út frá honum, hvað sem hann var annars að hugsa um — stundum dapurri og þreytulegri, stundum í glampandi dýrð ummyndunarinnar. Hann varð að bæta fyrir það, sem hann hafði á hennar hluta gert. Fyr gat hann engan frið fengið.

Það var auðvitað bezt, ef Bjarni var saklaus .... þó að það væri voðalegt, ef hann hafði þeytt öllu þessu upp um saklausan mann. En það gerði ekkert til. Álfhildur varð að fá hann .... þó að hann ætti sjálfur að fara í steininn, þá fann hann, að hann vildi vinna það til .... hvort sem Bjarni var saklaus eða sekur. Það gerði ekkert til. Það kom honum ekkert við.

Hann gróf og rótaði í minninu eftir leiðbeiningum. Og hann fann Gamla Runka.

Gamli Runki hafði áreiðanlega sagt „Þorlákur“. Hann mundi það alt af því betur, sem hann hugsaði meira um það. Það voru ekkert annað en undanbrögð af karlinum að þræta fyrir

það .... hvernig sem á þeim undanbrögðum stóð.

Og nú var hann á leiðinni til Gamla Runka.

Gamli Runki stóð við búðina sína. Enginn var þar neitt að kaupa. Þeir fáu, sem áttu leið fram hjá, litu ekki við búðinni.

— Sælir verið þér, Runólfur, sagði Eggert, og reyndi að láta vera svo létt yfir sér, sem honum var unt.

Gamli Runki tók óglögt undir. Var sýnilega í daufu skapi.

— Eg þarf endilega að tala nokkuð við yður, sagði Eggert.

— Jæja, hér er eg, sagði Gamli Runki.

— En eg get ekki talað við yður hérna. Getið þér ekki komið með mér stundarkorn?

— Komið með yður?

Gamli Runki var alt annað en árennilegur.

— Já. Inn í skrifstofu mína, svo að við getum verið í næði.

— Eruð þér vitlaus? Haldið þér, að eg fari frá búðinni?

— Nei, eg skil það, að yður sé það örðugt. En gætuð þér ekki fundið mig í kvöld, þegar þér verðið hættir verzluninni?

— Á eg þá ekkert að sofa? Haldið þér, að eg þurfi ekkert að sofa? Haldið þér, að eg geti

sofið fram yfir miðjan dag, eins og þið höfðingjarnir?

Eggert hugsaði sig um ofurlitla stund.

— Hafið þér mikið af vörum að selja? spurði hann svo.

— Mikið? Já, eg hefi mikið. Ætlið þér að kaupa nokkuð? Eg geri ráð fyrir, að þér kaupið nokkuð lítið af m é r. Hér eru kaldir drykkir .... Þér haldið þó ekki, að þeir séu áfengir! Ónei, karl minn — lögreglan skal fá eitthvað annað að skemta sér við en mig. Hér er súkkulaði. Viljið þér það? Og brjóstsykur? Og vindlar. Og smurt brauð. Ætli þér kaupið ekki nokkuð lítið af m é r.

— Hvað viljið þér hafa fyrir það?

— Hafa fyrir hvað?

— Fyrir alt draslið?

— Draslið? Hvaða drasl?

— Fyrir vörurnar?

— Fyrir hvað af þeim?

— Fyrir þær allar?

Gamli Runki glápti stundarkorn á hann þegjandi.

— Hvern fjandann ætlið þér að gera við þær? .... Allar vörurnar? Á þetta að vera einhver háðung við mig og mínar vörur?

— Nei, nei, sagði Eggert og hló sem glað-

legast. Eg get margt við vörurnar gert. Eg get meðal annars beðið yður að selja þær fyrir mig á morgun.

— Eg er kaupmaður, en enginn umboðssali.

Auðheyrt var, að Gamla Runka þótti málaleitanin mjög ískyggileg.

En þegar Eggert hafði tekist að gera honum það skiljanlegt, að ekkert byggi undir, annað en að fá að tala við hann tafarlaust, fór honum að þykja tilboðið svo lokkandi, að hann tók því. Þeir komu búðinni fyrir í vöruskála eins kaupmannsins í grendinni. Þá lögðu þeir af stað til ritstjóra-skrifstofu Ökuþórs, og fengu sér þar sæti.

Ritstjórinn sagði, að sig hefði langað til að tala við hann um hann Þorlák.

Það var eins og Gamli Runki byggist þegar til varnar.

— Þorlák? sagði hann önuglega. Hvaða Þorlák?

— Manninn, sem fanst á battaríinu.

— Hvað kemur mér hann við? Haldið þér, að eg hafi drepið hann?

— Nei, nei, nei .... mér kemur það ekki til hugar.

— Heyrið þér nú .... hvers vegna eruð þér eiginlega með alla þessa rekistefnu út af hon-

um Þorláki heitnum .... Er það til þess að græða á henni?

Gamli Runki rak upp kuldalegan hlátur og hélt áfram:

— Finst yður ekki hálf-lúaleg atvinna að græða á manndrápum?

Ritstjóranum fanst eins og sál sín hrökkva undan höggi. En hann lét sem hann væri einkar rólegur.

— Við skulum ekki fara að rífast um það, sagði hann. En þér vitið, að maður hefir verið tekinn fastur.

— Já, eg held nú það. Eg veit það svo sem, að þér hafið komið greyinu honum Bjarna í steininn. Eitthvað þurfið þið að gera ykkur til frægðar, blaðamennirnir.

— Haldið þér, að hann sé sekur?

— Held eg? Hvað kemur það málinu við, hvað e g held? Eg er ekki lögreglumaður. Eg er ekki dómari. Eg er ekki einu sinni blaðamaður. Eg hefi æfinlega stundað heiðarlega atvinnu.

— En ef hann er nú saklaus! .... sagði ritstjórinn.

— Saklaus?

Nú setti roknahlátur að Gamla Runka.

— Svo að þér eruð farinn að halda, að hann

sé saklaus? Eftir að þér eruð búinn að koma honum í steininn!

— Það hefir margur maðurinn verið tekinn fastur saklaus. Bjarni hefir enn ekkert játað. Og hann er enn ódæmdur. Ef hann er saklaus, þá er það skylda hvers ærlegs manns að hjálpa honum.

— Já, þess sem hefir komið honum í steininn. Gamli Runki hló aftur — illmannlega fanst Eggert.

En hann mátti ekki gefast upp — hvað sem hann átti nú til bragðs að taka. Karlinn var eins og óvinnandi kastali.

Þá var eins og því væri hvíslað að honum, að einhvern veginn mætti komast að öllum mönnum, ef ekki brysti lægni og þolinmæði. Allur bærinn vissi það, að Gamla Runka þótti gott í staupinu. Við glaðværð glasanna verður þyrkingurinn þýðlegri og þá losnar um leyndarmálin. Eggert hafði líka heyrt það með rökum, að hitt og annað dularfult hefði áreiðanlega fyrir Gamla Runka borið. Slíkir menn eru oft tregir til þess að tala um þau efni. En sé unt að komast að þeim með þau á annað borð, þykir þeim þau skemtilegasta umtalsefnið.

Eggert fór lítið með áfengi. Honum þótti það ekkert gott, og hann hafði enga ánægju af

því. En nú stóð svo á fyrir honum, að hann átti inni í skáp dálítið af whisky og sódavatni — leifar eftir gest, sem hafði gert blaðinu greiða, og ritstjóranum hafði fundist þörf á að víkja honum einhverju. Og nóg hafði hann umtalsefnið, ef hann vildi fara út í þau mál, sem honum höfðu komið til hugar.

Hann gekk að skápnum, lauk honum upp og sótti drykkjarföngin.

— Það má bjóða yður bragð af þessu? sagði hann.

Svo bauð hann honum vindil.

Gamli Runki þakkaði fyrir gott boð. Hann var forviða. Enginn heldri maður hafði nokkuru sinni haft svo mikið við hann. Hann gat ekki vel áttað sig á þessu. Ætlaði ritstjórinn að veiða hann eitthvað? En einstaklega var hann góðlátlegur og sakleysislegur, fanst Gamla Runka.

Drykkurinn hlýjaði honum öllum innan, líkamlega og andlega. Reykurinn liðaðist fyrir framan andlitið á honum í mjúkum bugðum og tók á sig hinar og aðrar kynjamyndir. Gamla Runka þótti gott að sitja þarna í ruggustólnum, með stóran bókaskáp beint fyrir framan sig, og fallegan vaxdúk á gólfinu. Óneitanlega var þetta alt annað en að hella í sig úr flösku

úti undir berum himni með einhverjum ruddalegum slörkurum. Einhver virðuleg værð færðist yfir hann.

Þeir töluðu fyrst um fiskiveiðarnar og veðrið. Þá sagði Eggert alveg inngangslaust:

— Eg sá hann kvöldið sem hann dó.

Gamli Runki rak upp stór augu.

— Hvern sáuð þér?

— Þorlák heitinn.

Gamli Runki fór að hlæja af nýju — jafnillilega og áður, fanst ritstjóranum.

— Já, eg held nú það, sagði hann. Ætli maður fari ekki nærri um það! Þér útlistuðuð það svo greinilega í Ö k u þ ó r, hvað þér hefðuð séð á battaríinu, að maður ætti ekki að vera búinn að gleyma því.

— Eg á ekki við það. Eg sá hann úti á Vesturgötu góðri stundu eftir, að eg sá hann örendan úti á battarí.

— Nú .... hvers vegna voru þeir að fara með hann út á Vesturgötu? Hann átti ekki þar heima. Og spítalinn er ekki heldur þar. Og ekki heldur neitt líkhús.

— Þeir voru ekki að fara með hann. Eg var þar einn á gangi um nóttina. Þá stóð hann alt í einu fyrir framan mig.

Gamli Runki varð nú allur að athygli.

— Heyrið þér .... hvernig var hann? ..... hvernig sáuð þér hann? spurði hann með nokkurum áfergjukeim í rómnum.

Ritstjórinn sagði honum það.

Gamli Runki fór enn að hlæja — þessum kalda hlátri sínum, sem Eggert kunni svo illa við.

— Ekki skal mig kynja, þó að hann hristi höfuðið.

— Nú? .... sagði ritstjórinn.

— Hann hefir náttúrlega vitað, hvaða dómadags-vitleysu þér voruð að álpast út í.

Nú var það ritstjórinn, sem fór að verða ákafur.

— Já, já, já! sagði hann. Hann hefir náttúrlega vitað það. En segið þér mér .... hvað vitið þér um það? .... Heyrið þér, bætið þér í glasið yðar. Það er ekkert eftir í því.

Gamli Runki þá boðið. En hann hélt vörunum fast saman, eins og hann væri að minna sjálfan sig á það, að segja nú ekki of mikið.

Hann lét eins og hann hefði ekki heyrt spurninguna á undan tilboðinu um að bæta á sig.

— Hafið þér nokkurn tíma séð nokkuð svipað áður? sagði hann.

Já, ritstjórinn kvaðst oft hafa séð hitt og ann-

að. Út úr því spunnust langar frásagnir um dulsýnir Eggerts. Hann hjalaði við Gamla Runka eins og gamlan vin sinn. Gamli Runki gleymdi um stund allri tortrygni, hlustaði hugfanginn og drakk whiskýið.

— Nú verðið þér að segja mér eitthvað, sagði Eggert, þegar hann hafði sagt Gamla Runka margar sögur.

Gamla Runka fanst með sjálfum sér, að þetta væri sanngjarnt; en varð seinn til svars.

— Eg veit, að þér hafið séð margt undarlegt, þó að þér hafið farið dult með það, sagði ritstjórinn.

Eftir svo mikla hreinskilni og skemtun og veitingar gat Gamli Runki ekki fengið af sér að þræta.

— Ójá, sagði hann. Sannast að segja hefi eg nú séð sitt af hverju.

— Hafið þér séð Þorlák?

— Nei. En sama kvöldið, sem hann beið bana, vissi eg, að hann var feigur.

Og hann sagði Eggert, hvað fyrir sig hefði borið niðri við bryggjuna, þegar Þorlákur kom neðan frá sjónum.

— Var hann einn? spurði ritstjórinn einstaklega sakleysislega.

Gamli Runki leit út undan sér á ritstjórann.

— Nú byrjar hann! sagði hann við sjálfan sig.

— Þegar hann kom á land? sagði hann upphátt.

— Já.

— Já, hann var einn.

— En þegar hann fór frá yður?

— Heyrið þér, ritstjóri .... er eg hér í yfirheyrslu, sagði Gamli Runki þá, lauk í skyndi úr glasinu og stóð upp.

— Nei, hvaða dæmalaus vitleysa! Er eg nokkurt yfirvald? Hvernig getur yður komið þetta til hugar? Sitjið þér rólegur, maður.

En nú var Gamli Runki orðinn einbeittur.

— Eg veit ekki, hvort þér eruð yfirvald eða ekki, sagði hann með nokkurum þjósti. Það má fjandinn vita. Þið hangið, hvort sem er, saman, allir fínu mennirnir. Og allir viljið þið helzt koma okkur í bölvun. En hitt veit eg, að þér hafið ekki keypt allar vörurnar mínar, og ekki fengið mig hingað, til þess að fá þá ánægju að segja mér sögur. Eg veit, að þér ætlið að veiða upp úr mér, hver hefir drepið Þorlák. En það tekst yður ekki. Eg veit ekkert um það. Og eg segi ekkert. Verið þér nú sælir. Og þakk' yður fyrir góðgjörðirnar.

Og áður en Eggert varði, var Gamli Runki rokinn út.

Svo að þetta umstang hafði þá alt orðið til ónýtis.

Eggert sat eftir og hugsaði málið. Honum kom til hugar, að hann gæti skýrt lögreglunni frá því, sem Gamli Runki hefði látið uppi. Ef til vill var það skylda hans. Lögreglan hafði gefið út fyrirspurnir um það, hvort nokkur hefði orðið var við Þorlák, eftir að hann kom á land. Enginn hafði sagt til sín. Lögreglan vissi alls ekkert um Þorlák, eftir að hann hafði farið frá skipinu, nema það, að báturinn fanst eftir hann við bryggjuna. Nú kom það upp úr kafinu, að Gamli Runki hafði hitt hann og þagað um það. Og að öllum líkindum vissi hann meira en hann hafði fengist til að segja.

Átti hann nú að segja lögreglunni frá þessu? Var það ekki skylda hans við sannleikann? Og sérstaklega skylda hans við Álfhildi.

Þegar hann fór að hugsa um þetta, fann hann, að hann gat það ekki — að minsta kosti ekki fyrst um sinn, ekki fyr en öll önnur sund voru lokuð. Það var eins og að svíkjast að Gamla Runka. Hann hafði sagt frá fundi þeirra Þorláks í ógáti, þau augnablikin, sem hann var ekki nógu vel á verði. Gamli Runki mundi áreiðanlega þræta fyrir það, að hann hefði fundið Þorlák, þegar til réttarhalda kæmi, og ef til vildi

komast út í meinsæri .... Hann mundi líta á þann mann sem versta ódreng, sem hefði teygt hann inn í málið. Að því ógleymdu, að munnurinn á honum mundi verða svo vandlega innsiglaður, að óhugsandi var að fá nokkura vitneskju hjá honum framar.

---

## X

## Í tunglsljósi

Það var glampandi fögnuður á tjörninni um kvöldið.

Svellið á Skautafélags-svæðinu, og reyndar á mestallri tjörninni, var skínandi hált. Enginn andvari. Frostið alveg mátulega mikið til þess að halda öllu þuru og gljáandi, en láta engum verða kalt. Himininn alstirndur og með norðurljósum. Tunglið gerði jörðina að töfraheimi. Og skautafólkið var í ágætu skapi — Eggert eins og aðrir.

Hann hafði ekki gleymt skautaferðinni, þrátt fyrir áhyggjurnar út af morðmálinu. Hann hafði sótt Svanlaugu heim til hennar. Hún hafði tekið honum mildilega fyrst, og bráðlega orðið kát og skemtileg.

Þau rendu sér fyrst á skautafélags-svæðinu, hvort í sínu lagi, innan um mannfjöldann.

Þá tók hann undir höndina á henni, og þau rendu sér suður í tjarnarenda. Það var óendanlega gaman að sveigja hana fram hjá þeim ísblettunum, sem voru hrufóttir. Stundum hló hún einstaklega góðlátlega, þegar bugðurnar urðu svo skarpar, að henni lá við að detta. Hann var svo öruggur skautamaður, að hún var ekkert hrædd, þó að hún væri ekki nærri því eins leikin eins og hann.

Úr tjarnarendanum þutu þau eins og örskot norður eftir tjörninni austanverðri. Svanlaug vildi setja sig niður úti í hólmanum og hvíla sig ofurlítið.

— Það er svo gaman að sitja þar með þér einum, sagði hún.

Hann fann alt af fagnaðaröldu rísa í sálu sinni, þegar hún sagði eitthvað hlýlegt við hann.

— Svo hugsum við okkur, að við séum alein á einhverri ofurlítilli eyðiey, og að enginn maður sé nær okkur en í nokkurra þúsunda mílna fjarlægð, sagði hann lágt og innilega.

— Eg veit ekki, hvort það væri svo sérlega gaman, sagði hún. Þú ert alt af svo undarlega fullur af öfgum.

En hún sagði það þýðlega og hlæjandi, og sveigði sig um leið að öxlinni á honum.

Þau settust niður, hálf-drukkin af samvist-

inni og hreyfingunni og yndisleik umhverfisins.

Svellið lá eins og hlæjandi í demantaljóma fyrir fótum þeirra. Brekkurnar beggja megin tjarnarinnar stóðu eins og í einhverjum himneskum draumi í fölleitri ljóslauginni, fanst Eggert. Skuggarnir frá húsunum létu friðinn og fegurðina seitlast enn dýpra niður í sálina.

— Annar heimur má standa sig, ef hann á að vera yndislegri en þetta, sagði hann hugfanginn.

— Góði, farðu nú ekki að tala um annan heim, sagði hún hálfhlæjandi og með hálfgerðum leiða.

— Jæja, sagði hann, dálítið fálega.

— Reyndu að láta einn heim vera þér nógan í einu. Eg held, þú sért alt af hálfur í öðrum heimi. Manstu, hvað þú hefir oft verið að tala um ofsjónir og ofheyrnir og svipi og hina og aðra þess konar vitleysu heima? Mamma hefir tekið eftir því. Hún er farin að segja, að þú sért eitthvað undarlegur. Blessaður, þú mátt ekki með nokkuru móti segja mömmu, að þú sért að fá sýnir. Þetta er líka alt saman vitleysa. Er það ekki, góði?

— Jú-ú .... líklegast, sagði hann dræmt.

Hann fann, að hann talaði þvert um hug sér. Honum sárnaði það. Honum kom til hugar sýnin, sem hann hafði séð þennan sama dag, meðan

Álfhildur var inni hjá honum. Og margar aðrar. Honum fanst hann vera að svíkja eitthvað.

Friðarblærinn, sem hafði verið á sál hans fáeinum augnablikum áður, var horfinn. Í hans stað var komin óþreyja.

— Eigum við ekki að koma yfir um til fólksins? spurði hann.

— Leiðist þér hérna hjá mér? sagði hún.

— Leiðist? .... mér? .... En sú fjarstæða! Heldurðu, mér leiðist nokkurn tíma hjá þér? .... Eg hélt, að þér þætti skemtilegra, að við flyttum okkur.

— Mér? .... Hvers vegna segirðu þetta? .... Heyrðu, Eggert .... hvers vegna ertu að skrökva að mér?

— Elskan mín! ....

Hann kysti hana á kinnina. Hún hló. En einhvern veginn fanst honum andlega loftið viðsjált.

— Hvað hefirðu skrifað í Ö k u þ ó r í dag? spurði Svanlaug. Verður nokkuð skemtilegt í honum á morgun?

Hann lét lítið yfir því. Virtist ófús til þess að fara nokkuð um það að tala. En hún vildi fá að vita þetta, var nokkuð áfjáð. Hann neyddist þá til að segja henni efnið í því, sem hann hafði ritað. En hann sagði það dauflega, sann-

færingarlaust, eins og honum kæmi það ekkert við.

— Blaðið verður þá ódæma leiðinlegt á morgun, sagði hún.

— Já, líklegast.

— Heyrðu .... hvers vegna hefirðu það leiðinlegt?

Hann svaraði engu. Hann kunni þessu samtali hið versta. Verst fyrir þá sök, að hann hafði enga löngun til þess að verja sig. Hann vildi ekkert vera um þetta að hugsa.

En hún hélt áfram, þó að hann svaraði ekki.

— Heyrðu .... hvað ætlarðu þér eiginlega með Ökuþór?

Honum hugkvæmdist að gera úr þessu gaman.

— Menn ræða ekki jafn-óskáldlegt málefni í tunglsljósi og norðurljósadýrð, með unnustuna við hlið sér, sagði hann hlæjandi.

Hún lét hann ekki slá sig af laginu.

— Pabbi segir, að það sé forsmán að ráða yfir blaði, og ætla sér ekki að minsta kosti að verða ráðherra — hvað sem úr því kann að verða. Hann sagði það auðvitað hlæjandi. Hann var svona hálft í hvoru að gera að gamni sínu. En hann sagði: „að minsta kosti ráðherra". Eg fann, að í raun og veru þótti honum það smáræði, og að eitthvað enn

meira vakti fyrir honum. En honum fanst, að lægra yrði ekki stefnt af manni, sem hugsaði sér nokkuð hátt.

— Finst þ é r það líka?

Hún svaraði ekki spurningunni beint.

— Eg var að lesa sögu í dag. Hún er um mann, sem ætlar sér áfram — hvað sem það kostar — og hagar sér eftir því.

— Og varð ráðherra? spurði Eggert ofurlítið kýmilegur.

— Hann varð keisari.

— Og varð hann nokkuð sælli fyrir það?

Hún hikaði sig dálítið. . . .

— Eg veit ekki, sagði hún. Sagan segir ekki frá því. Hún skilur við manninn, þegar hann tekur við völdunum.

— Mér finst hún hljóti þá að vera nokkuð endaslepp, sagði Eggert.

— Heyrðu, góði .... Eg hefi ekkert vit á þessu. En eg heyrði pabba tala nýlega um svipað efni og þetta. Og pabbi e r vitur maður. Kannastu ekki við það?

— Jú, jú.

— Hann sagði, að fyrir frjálsbornar sálir sé engin sæla jafn-staðgóð eins og sú að ráða yfir öðrum. Mennirnir verði leiðir á öllu öðru. En þeir sækist alt af eftir meiri og meiri völdum.

Þegar þeir sýnist verða þreyttir á þeim, þá séu þeir í raun og veru þreyttir á öðru — annaðhvort því, að þeir sjá fram á það, að þeir geta ekki haldið völdunum, eða þá því, að þeir geta ekki aukið þau. Þrælasálir komi þar ekki til greina. Þær séu svo óþroskaðar. En engin tilhneiging sé jafn-djúpsett í manneðlinu eins og tilhneigingin til valdanna. Og svona muni þetta vera í allri tilverunni. Guð sækist eftir völdum. Djöfullinn sækist eftir völdum. Allir, sem nokkuð sé í spunnið, sækist eftir völdum.

— Finst þér þá eg vera þrælssál, ef eg sækist ekki eftir völdum? sagði hann með ofurlitlum keim af gremju í röddinni.

— En sú vitleysa! .... En heyrðu .... Nú er mér farið að kólna.

Og hún stóð upp.

— Þér hlýnar, ef við rennum okkur dálitla stund á skautum.

Hann var því feginn, að þetta ætlaði að enda ýfingalaust. Honum hafði fundist einhver svalur gustur í sál hennar, síðan er þau komu í hólmann. En það átti fyrir honum að liggja að verða enn fegnari.

Hún vildi ekki renna sér meira.

— Heyrðu, sagði hún lágt, þó að enginn maður væri í nánd. Við förum heim til mín. Pabbi og

mamma eru í boði. Þau koma ekki heim fyr en einhvern tíma í nótt. Við getum verið tvö ein. Hvernig lízt þér á það? Þau vilja reyndar ekki, að þú komir, þegar eg er ein heima. En þau þurfa ekkert að vita um það. Eg ræð yfir stúlkunum, þó að eg eigi enn ekki nein mannaforráð. Og þeim kemur það ekki heldur neitt við. Eg er ekkert barn lengur. Við fáum okkur eitthvað að hressa okkur á. Og við getum setið saman í tunglsljósinu, ef við viljum ekki kveikja. Leystu af mér skautana.

Hún settist aftur. Og hann kraup á kné fyrir fótum hennar, til þess að leysa skautana.

— Hvað þú ert óendanlega yndisleg og góð! sagði hann.

— Já, víst er eg það, sagði hún.

Auðvitað hafði hann oft komið á heimili foreldra hennar. En aldrei hafði honum fundist jafn-mikið til um það og nú, þegar hann kom með henni inn í beztu stofuna. Gluggarnir voru beint á móti tunglinu. Skuggar og ljósglampar fyltu stofuna einhverri furðulegri, draumkendri fegurð í augum hans. Aldrei hafði honum fundist þar inni jafn-ríkmannlegt og vistlegt eins og nú. Salurinn aldrei jafn-stór og hár undir loft. Gólfábreiðan aldrei jafn-þykk og mjúk.

Húsgögnin aldrei jafn-vegleg. Veggirnir aldrei svo alþaktir dýrum myndum.

Hún vísaði honum til sætis í legubekk í stóru horni út frá öðrum glugga stofunnar.

Hann sat þar eins og í laufskála. Stórar plöntur með breiðum blöðum stóðu við báða enda legubekksins. Og bak við hann var líka blaðakóróna og breiddist fram yfir hann uppi í loftinu frá mikilli plöntu, sem stóð í sjálfu horninu.

— Hér er eins og úti í skógi, sagði hann.

— Ónei; hér er miklu betra. Hér er enginn næðingur. Og hér eru þolanleg sæti að setja sig niður á.

Hún fór að hagræða ýmsum munum í stofunni, sem henni þótti ekki vera á réttum stað. Hann horfði á hana hugfanginn. Hreyfingar hennar urðu enn yndislegri í augum hans en nokkuru sinni áður, í þessari hvikulu töfrabirtu.

— Hún er létt eins og fiðrildi, sagði hann við sjálfan sig.

En þá kom honum til hugar, að það væri vitleysa að líkja henni við fiðrildi. Hún tók fastara en svo á hlutunum, sem hún var að fara með. En hún var jafn-yndisleg fyrir því.

— Á eg að kveikja? spurði hún.

— Nei, nei. Komdu hingað og seztu hjá mér.

— Fyrst sæki eg okkur kaffi.

Hún fór út úr stofunni.

Honum fanst hann hafa séð á eftir einhverri draumsjón .... Og að hann sæi hana aldrei framar ....

Eftir ofurlitla stund kom hún inn aftur með kaffi og kökur. Hún settist hjá honum, einstaklega ljúf og ástúðleg. Hún varðist ekki blíðuatlotum hans. En hún gætti þess, að ekki lenti alt í þeim. Hún talaði alvarlega, og bar alt af fyrir sig föður sinn, því að hún hefði ekki vit á þessu. Gaf honum varlega í skyn, að faðir sinn teldi hann nokkuð stefnulítinn; faðir hennar gæti ekki séð, hvert hann ætlaði sér. Nú breyttist þetta vonandi, og hún þyrfti ekki lengur að sitja fyrir svörum hjá föður sínum út af honum.

Eggert sá nú, að hún hafði gert það í ákveðnum tilgangi að fá hann heim með sér, öðrum en þeim að sýna honum blíðu. Vonbrigði voru það. En hún talaði svo góðlátlega.

— Það er með öðrum orðum, að þú ert að reyna að gera mann úr mér, sagði hann hálfhlæjandi, og samt með undurlitlum keim af gremju.

— Ekki voru það mín orð, góði. Og ekki mín hugsun heldur .... En það er nú svona

.... að eg er einbirni. Og pabba getur ekki staðið á sama.

Hún tók að útlista það fyrir honum, að faðir hennar yrði ánægður, ef hann sæi þess ótvíræðan vott, að unnusti hennar ætlaði að keppa að einhverjum verulegum frama. Og ef hann yrði ánægður, þá þyrfti Eggert fráleitt að kvíða því, að honum yrði féfátt, til þess að ryðja sér braut.

— Pabbi gerir alt fyrir mig, sagði hún. Hann er líka svo efnum búinn, að hann munar ekki mikið um að gera það, sem mig langar til. Og ekki langar mig til annars en að þú verðir sem mestur og voldugastur maður.

Eggert gekst hugur við þessum fortölum, þessu ástríki, þessari umönnun. Hún hafði átt það til að vera nokkuð köld við hann, nokkuð óþolinmóð og mikillát. Nú var hún hlýleg, vorkunnlát, hyggin og sannfærandi.

Hún sagði, að faðir sinn segði — sjálf hefði hún ekki vit á því — að ungum karlmönnum veitti oft örðugt að taka stefnuna. En þeir gætu orðið jafn-miklir menn fyrir því. Hún skýrði honum frá því með mælsku, hvað faðir sinn hefði sagt um auð og völd — og að það væri svo skringilegt, að hvorttveggja gæti að sumu leyti notið sín betur á Íslandi en víða annar-

staðar, af því að menningin væri svo skamt komin hér. Og yndislegt væri það, að hugsa sér sambúð við hann sem auðugasta og voldugasta manninn á landinu ....

— Eins og þú ert fallegasti maðurinn á landinu í mínum augum, sagði hún lágt og hlæjandi í eyrað á honum.

Hann tók svo fast utan um hana, að hún sleit sig af honum, kveikti, hvað sem hann sagði, og dró fyrir gluggana.

Tunglsljósið var farið úr stofunni.

En í hug hans var tunglsljós enn, hvikul óljós, töfrandi birta, sem tungl ímyndunarinnar varpaði á glæsilegan æfiferil, auð og allsnægtir, metorð og völd, mikillæti og mannaforráð. Hann fann sig styrkan, kappgjarnan, óbilgjarnan, ef því var að skifta, staðráðinn í því, að Svanlaug og faðir hennar skyldu verða ánægð.

Nú varð hann að fara. Viðstaðan var orðin löng. Og hann þurfti að líta yfir Ökuþór, áður en blaðið færi í prentvélina.

— Þú átt alt af svo annríkt, sagði Svanlaug.

— Já, venjulega.

— Það gerir ekkert til um annríkið, segir pabbi, ef það er ekki hégómi, sem verið er að vinna að.

— — —

Hann háttaði eftir miðnættið öruggur, sigurreifur. Hann hafði aldrei fundið til þess verulega, fyr en nú, að unnusta hans var líkleg til þess að verða auðugasta konan í Reykjavík. Nú fylti sú hugsun sál hans, eins og heitur, ljúffengur drykkur.

En hann gat ekki sofnað fram eftir nóttunni. Honum kom Álfhildur til hugar. Ekki ummynduð í engil, heldur föl og mögur, með snjáð sjalið, verjandi drenginn sinn.

„Því bólgnari sem sál ykkar verður af drykk eigingirninnar.“ Henni höfðu farist orð eitthvað á þá leið.

Þá snerist hugurinn í aðra átt.

Hann mundi eftir sér sem litlum dreng. Hann sat á rúminu sínu og var að hlusta á húslestur. Þá heyrði hann í fyrsta skifti, svo að hann myndi eftir, þessi orð:

„Mannsins sonur er ekki kominn til þess að láta sér þjóna, heldur til þess að þjóna öðrum.“

Þá trúði hann öllu því, sem mamma hans trúði. Og hann hafði orð á því við hana, að það væri undarlegt, að guð færi að verða þjónn mannanna. Hugsunin hafði oft vaknað síðar — stundum sem undarlegur vísdómur, stundum sem fjarstæða.

En ef þetta var satt .... ef til vildi insti og

dýpsti sannleikur tilverunnar .... hvað varð þá úr öllu því, sem Svanlaug hafði verið að segja í kvöld?

„Guð sækist eftir völdum. Djöfullinn sækist eftir völdum. Allir, sem nokkuð er í spunnið, sækjast eftir völdum“, hafði faðir hennar sagt. Var það ekki satt? Jú, vitanlega. Var ekki alt í sínu insta eðli barátta um völd í tilverunni? ....

Eitt var áreiðanlegt: Hann fann klofning í sál sinni, svipaðan klofning eins og svo oft áður. En ákveðnari, sárari nú. Hann fann, að hann var að láta teygjast í tvær áttir.

Enginn vafi var á því, að öll hans rekistefna út af Álfhildi og Bjarna, og allar hans sýnir, og mestöll hans heilabrot var hlægileg vitleysa í augum Svanhildar og foreldra hennar. Jafnáreiðanlegt, að Álfhildi mundi hafa fundist Svanlaug vera að „drekka sál sína fulla í gróðalöngun og valdafýsn og alls konar heimsku“ — eins og hún hafði komist að orði — ef hún hefði hlustað á samtal þeirra í kvöld.

Hvoru megin var hann sjálfur? Hann hafði verið beggja megin. Hann gat ekki haldið því áfram alla æfi.

Hvoru megin átti hann að vera?

Eða var alt jafn-réttmætt? Líf Napóleons

mikla jafn-réttmætt og líf heilagra manna? Var til þess eins ætlast af þeim máttarvöldum, sem höfðu gefið mönnunum lífið, að þeir beittu sem mestum kröftum .... einhvern veginn? ....

Efasemdirnar gerðu aðsúg að honum, eins og mýflugnatorfa.

Hvers vegna var hann ekki eins og aðrir menn? Hvers vegna gat hann ekki annaðhvort tekið sína stefnu, eins og sumir gerðu, eða látið reka á reiðanum áhyggjulaust, eins og aðrir? Hann gat ekki hugsað sér, að nokkur kunningja sinna gæti látið slíka höfuðóra standa sér fyrir svefni. Þeir mundu telja þá heimsku, og ekkert annað. Og Svanlaug .... og foreldrar hennar .... og faðir hans .... og líklegast allir.

Var hann vitlausari en allir aðrir? Eða geðveikur?

Honum varð litið kringum sig.

Tunglið skein inn á fátækleg húsgögnin í svefnherberginu. En birtan var horfin úr sál hans.

Hann varð reiður út af því, hvað þar væri durgslegt inni. Það var honum óbærileg skapraun að hugsa til þess, að Svanlaug liti þangað inn.

Hann varð reiður út af stofunni, sem hann hafði setið í með Svanlaugu, og þótt svo yndis-

leg — eins og hún væri einhver móðgun við hann, félítinn bóndasoninn.

Næst fór hann að hugsa um að hafa þá stofu enn veglegri, sem hann leiddi Svanlaugu inn í brúðkaupsdaginn þeirra.

— Mér mun vera hollast að hafa hana ekki fátæklega! sagði hann við sjálfan sig.

Hann byltist á ýmsar hliðar í rúminu fram undir morgun, sem lifandi sönnun fyrir orðum skáldsins:

„Fátt verður þeim til bjarga,
sem nóttin níðist á.“

. . .

. . .

---

## XI
## Eins og dýr . . . .

Eggert sat einn inni í skrifstofu Ö k u þ ó r s daginn eftir, nokkuru eftir hádegi, og gat ekki haft hugann við að gera neitt.

Hann var daufur í dálkinn eftir andvökunóttina. Og blærinn á huganum var gjörbreyttur. Hann fyrirvarð sig fyrir heilabrotin um nóttina. Það var eins og bjartur dagurinn hefði látið vindgolu veruleikans leika um þau og þurka þau upp, líkt og einhvern poll.

— Nú er eg eins og aðrir menn, sagði hann við sjálfan sig. Hvers vegna er eg það ekki æfinlega?

Hann var sárgramur við sjálfan sig. Kom nú eiginlega ekki auga á það, út af hverju hann hefði komið sér í ilt skap í gærkveldi, eða við hvaða vindmylnur hann hefði verið að berjast í huganum. Var nokkur ástæða til að gera sér andvökunótt út af öðru eins og því, að unnustuna

hans langaði til þess, að hann yrði mikill og auðugur maður — og vildi hjálpa honum til þess?

Þá var barið að dyrum og maður kom inn í skrifstofuna. Hann virtist vera á fimtugsaldri, og var með þykkan, svartan, ógreiddan hárlubba; stórleitur, loðbrýnn og brúnaþungur var hann; kinnbeinin há; þykt, dökt, ofurlítið hæruskotið yfirskegg; fram yfir það beygðist hátt og þykt arnarnef. Maðurinn hafði ekki rakað sig nokkura daga, svo að ígráir broddar stóðu út úr andlitinu. Hann var í stórgerðum, nýlegum verkamannafötum, en virtist hafa fest boðunginn á treyjunni á nagla, og hafði rifið þar upp dálítinn flipa. Nokkura áfengislykt lagði af honum; hann var sýnilega ölvaður, en ekki stór-drukkinn. Hann var karlmannlegur ásýndum, en alt annað en snyrtimannlegur.

Eggert mintist þess ekki að hafa nokkurn tíma séð þennan mann áður. Hann vissi ekki, hvernig á því stóð, að jafnskjótt sem hann sá manninn koma inn úr dyrunum, fanst honum eins og hvíslað væri í huga sínum orðinu: „hauskúpa“.

Hann hafði ekki tíma til þess að gera sér neina grein þessarar lokleysu. Ekki heldur þess, að einhver óljós geigur greip hann í sama bili, sem hann leit manninn augum, eins og eitthvað skuggalegt væri í nánd.

— Sælir verið þér, sagði komumaður. Gæti eg fengið keypt hjá yður nokkur síðustu blöðin af Ö k u þ ó r?

Ritstjórinn sagði, að þau gæti hann fengið í afgreiðslunni, hinu megin við ganginn. Hann hélt, að maðurinn mundi fara nú; enda vildi hann helzt losna við hann sem fyrst.

En hann fór ekki.

— Hvað gengur með þetta mál? spurði hann heldur styttingslega og hirðuleysislega.

— Eigið þér við manndrápsmálið?

— Já, auðvitað. Við hvað ætti eg að eiga annað?

Það var einhver óþolinmóðlegur, hálf-mikillátur, hálf-hryssingslegur keimur í röddinni.

— Eg veit ekkert um það, sagði ritstjórinn .... ekkert annað en þér getið séð í blaðinu.

— Það var ekkert um það í blaðinu í morgun.

— Nei.

— Hvers vegna var það ekki?

— Nú .... auðvitað af því að ekkert var um það að segja.

— Jæja .... hefir þá ekkert vitnast frekara?

— Ekki svo eg viti.

— En haldið þér ekki, að þér vissuð það, ef nokkuð hefði komist upp?

Ritstjóranum þótti þetta í meira lagi kynleg yfirheyrsla af bráðókunnugum manni.

— Hvers vegna eruð þér að spyrja svona mikið um þetta? sagði hann. Eruð þér nokkuð riðinn við þetta mál?

— Eg! sagði komumaður bálvondur. Þér ætlið þó ekki að fara að bendla mig við þetta manndráp?

— Hvers vegna lætur maðurinn svona? Er hann druknari en mér sýnist? sagði Eggert við sjálfan sig.

— Eg hélt, þér kynnuð að vera eitthvað skyldur honum Bjarna, sagði hann upphátt.

— Nei.

— Eða Þorláki heitnum.

— Nei.

Hann neitaði önuglega, eins og fullur af einhverri þrjózku.

— Jæja .... eg get ekki frætt yður neitt, sagði ritstjórinn fremur fálega.

— Heyrið þér, sagði komumaður.

Þá þagnaði hann, eins og hann væri í einhverjum vandræðum.

— Hvað haldið þér að verði gert við Bjarna? sagði hann svo eftir nokkur andartök.

— Eg veit ekki, sagði ritstjórinn.

Hann furðaði sig alt af meira og meira á gestinum.

— Ekki fara þeir að dæma hann. Fjandakornið þeir fara að dæma hann. Hvernig ættu þeir að dæma hann? Þeir geta aldrei sannað neitt upp á hann.

— Hvernig vitið þér það? spurði ritstjóri. Eruð þér nokkuð kunnugur málinu?

Nú kom annað vonzkukastið að komumanni.

— Eg! sagði hann með hávaða og hryssingslega. Hvernig ætti eg að vera það? Hvers vegna eruð þér alt af að drótta einhverju að mér? Má eg ekki koma hingað inn .... meinlaus .... án þess að verða fyrir aðdróttunum?

Eggert fór að verða órótt. Ekki af því að hann væri minstu vitund hræddur við manninn, þó að hann léti ófriðlega, og væri ef til vildi vitskertur. Hann gerði ráð fyrir, að hann mundi ráða niðurlögum mannsins, ef til handalögmáls kæmi, sem ekki var líklegt. En það var eins og það magnaðist, þetta skuggalega, sem hann hafði orðið var við, jafnskjótt sem maðurinn kom inn. Hann sá ekkert. En honum fanst hann vita af því, að það vildi segja eitthvað. Og þó að hann yrði þess ekki var, að þetta vildi sér neitt ilt, þá settist sú tilfinning að í honum, að það væri eitthvað geigvænlegt.

— Hvað heitið þér, maður? spurði Eggert.

Komumaður leit á hann, út undan sér, bersýnilegum tortrygni-augum.

— Hvað eg heiti! sagði hann önuglega. Hvað kemur það málinu við?

— Þér hafið nú talað svo lengi við mig hér inni í mínum húsum, að mér finst ekki óeðlilegt, að eg spyrji yður, hvað þér heitið. Og þér sjáið það sjálfur, að ef mig á annað borð langar mikið til þess að fá að vita, hvað þér heitið, þá er það vandalaust fyrir mig. Eg þarf ekki annað en að veita yður eftirför, þegar þér farið út héðan, og spyrja um það á götunni. Eg geri ráð fyrir, að fyrsti lögreglumaðurinn, sem eg hitti, geti sagt mér það.

— Lögreglumaðurinn? Svo að þér ætlið að afhenda mig einhverjum lögreglumanni? sagði komumaður, eins og honum þætti mikils um vert.

— Afhenda .... Fyrir hvað ætti eg að afhenda yður? .... Nei, eg ætla ekkert að afhenda yður.

— Jæja þá .... Eg heiti Þorsteinn Brandsson .... Eruð þér þá nokkuru nær?

— Nei.

— Járnsmiður. Eruð þér nokkuru nær?

— Nei. Eg hefi aldrei séð yður, svo að eg viti.

Þá breytti Þorsteinn inngangslaust um umræðuefni.

— Eigið þér í staupinu? spurði hann.

— Nei, sagði ritstjórinn forviða.

— Það veit eg nú, að er lygi, sagði Þorsteinn með öruggri sannfæringu.

— Hvernig vitið þér það?

— Þið Gamli Runki lukuð ekki úr flöskunni í gær.

— Nú .... þér eruð þá vinur Gamla Runka? sagði ritstjórinn, og varð allur að forvitni.

— Vinur? .... Nei .... Eg á engan vin.

Alt í einu var eins og Þorsteinn linaðist allur upp, varð óendanlega þreytulegur.

— Má eg fá mér sæti? sagði hann.

— Gerið þér svo vel.

Eggert fann til aðkenningar af samvizkubiti út af því, að hann skyldi ekki hafa boðið manninum sæti allan þennan tíma, sem hann hafði staðið við .... þó að hann hefði komið í erindisleysu, og þó að hann væri fullur og skuggalegur.

— Er yður ilt? spurði hann. Viljið þér ekki vatn?

— Nei. Mér er ekkert ilt. Og eg vil ekki vatn. Eg drekk aldrei vatn.

— Þér ættuð ekki að drekka eins mikið áfengi eins og þér gerið víst.

— Jú. Eg drekk. Eg vil drekka .... Drekka þangað til farginu léttir af. Drekka þangað til skuggar lífsins verða að myrkri .... svartamyrkri .... náttmyrkri grafarinnar.

Það var svo algerð örvænting í svip og málrómi mannsins, að Eggert gekst hugur við.

Og svo var þetta undarlega, ósýnilega, geigvænlega. Það var eins og það væri að færast nær honum .... eins og það kæmi að öxlinni á honum .... eins og það vildi segja eitthvað. Eggert fyltist hryllingi. En líka meðaumkun og miskunnsemi.

— Ekki batnar neitt við það að drekka svona, sagði hann þýðlega. Alt böl versnar við það.

Þorsteinn hafði setið álútur og horft í gaupnir sér. Nú rétti hann sig upp, og varð tryllingslegur í framan.

— Vitið þér, hvað það er að sofa ekki á nóttunum, en ráfa um á daginn og leita að brennivíni .... eins og dýr ráfar um brunasanda og leitar að vatni?

Þá var eins og drægi úr honum máttinn, og hann hallaðist aftur áfram og studdi olnbogunum á lærin.

— Eins og dýr, tautaði hann .... eins og

dýr .... eins og dauðþyrst dýr .... eins og dýr, sem hugsar annað augnablikið um þorstann, hitt augnablikið um veiðimanninn .... hugsar um ekkert annað .... og örmagnast.

Nú gat Eggert ekki horft á þetta lengur aðgerðalaus. Hann lauk upp skápnum, tók þaðan út whiskyflöskuna, helti vænum gúlsopa í glas og rétti Þorsteini.

— Drekkið þér þetta, sagði hann.

Þorsteinn hvolfdi áfergjulega í sig úr glasinu. Hann hrestist nokkuð við það og stóð upp.

— Nú er bezt eg fari, sagði hann. Verið þér nú sælir. Þakk' yður fyrir snapsinn.

— Verið þér sælir, sagði ritstjórinn. Þér munið, að þér fáið blöðin hérna hinu megin við ganginn.

— Hvað haldið þér um Bjarna? sagði Þorsteinn í dyrunum.

— Eg veit ekkert um hann, sagði ritstjórinn.

— Þeir geta aldrei dæmt hann .... andskotann ætli þeir geti dæmt hann, sagði Þorsteinn, og lagði af stað.

Eggert horfði á eftir honum fram ganginn. Þorsteinn fór ekki inn í afgreiðsluna, hélt beint út á götu.

— Hann hefir þá ekki átt erindið, sem hann þóttist eiga, sagði Eggert við sjálfan sig.

Hann settist niður og fór að hugsa um, hvað þessi komumaður hefði verið æstur og hryssingslegur, og hvað hann hlyti að eiga óendanlega bágt. En hann hafði ekki frið til þess.

Þetta skuggalega, geigvænlega hafði ekki farið með Þorsteini, þó að það kæmi með honum. Það þvældist fram og aftur um herbergið, fanst honum. Stundum var það í einu horninu, stundum í öðru, stundum við eyrað á honum, stundum fyrir aftan hann. Og alt af var eins og það vildi segja eitthvað.

Hann reyndi að gera sig rólegan með því að velta þessu fyrir sér skynsamlega og telja um fyrir sjálfum sér.

— Þetta getur verið einhver þáttur af sjálfum mér, sem veit eitthvað meira en hinn þátturinn, og vill koma þessari vitneskju fram. Ekki er það neitt geigvænlegt.

Hann hafði lesið um það, að athafnirnar gætu geymst einhverstaðar, eftir að þær væru alveg undir lok liðnar í sýnilegum heimi, og gert vart við sig löngu eftir, að þær hefðu verið framdar. Jafnvel hugsanir, sem aldrei hefðu orðið að athöfnum, gætu orðið að einhverjum undarlegum hlutum og farið að ónáða þá menn, sem væru næmir á þess konar.

— Það er einstaklega hugnæmt og merkilegt. En það er sannarlega ekkert hræðilegt.

Aðsóknin — eða hvað það nú var — rénaði við það, að hann beitti huganum fastara en áður. Hann var ráðinn í því að hugsa um þennan einkennilega komumann, en ekki um neina vitleysu.

Þorsteinn hafði gert sér upp erindi, sem hann átti alls ekki. Hann hafði ekki ætlað sér að kaupa nein blöð. Hvaða erindi átti hann þá? Eitthvert erindi hlaut hann að eiga til alókunnugs manns. Sníkja sér í staupinu?

Það var hugsanlegt. En líklegt var það ekki. Hann hefði tæplega verið með hrottaskap og vonzku, áður en hann hefði komist að því erindi.

Hann hafði bersýnilega ekkert erindi átt, annað en að tala um morðmálið. En hvers vegna vildi hann vera að tala um það? Hann var ekkert skyldur Bjarna. Og ekkert skyldur Þorláki. Hvers vegna bar hann þá þetta mál svona fyrir brjósti? Hann var hvað eftir annað að stagast á því, að Bjarni yrði aldrei dæmdur. Hvað kom honum það við? Hvaða samband var á milli hans og Gamla Runka — sem áreiðanlega vissi eitthvað meira um málið en aðrir? Hvers vegna hafði Gamli Runki farið að segja þessum manni

frá komu sinni í skrifstofu Ö k u þ ó r s? Hvers vegna var þessi Þorsteinn svona örvæntingarfullur, auðsjáanlega sárþjáður? Hann talaði um sjálfan sig eins og dýr. Og eitthvað mintist hann á veiðimann, eins og hann væri að flýja einhvern.

— En ef það er nú þessi maður, sem ....! Hugsunin kom eins og leiftur. Eggert hitnaði öllum.

En hann hafði hlaupið á sig áður. Hann ætlaði ekki að gera það annað skiftið.

Eitt var sjálfsagt: að tala nú við Gamla Runka — þó að lítil von væri um að toga nokkuð út úr honum.

Og það gerði hann.

Gamli Runki var einn við búðina sína.

— Góðan daginn, sagði ritstjórinn. Gerið þér svo vel að láta mig fá vindil.

Gamli Runki lét hann af hendi.

— Þér þekkið mann, sem heitir Þorsteinn Brandsson, sagði ritstjórinn, þegar kviknað var í vindlinum.

Gamli Runki var auðsjáanlega tafarlaust á verði. Hann leit á Eggert rannsóknaraugum og sagði:

— Nei.

— Hvers vegna skrökvið þér svona, Runólfur? sagði Eggert. Þorsteinn hefir sagt mér það sjálfur.

Gamli Runki glápti á hann eins og tröll á heiðríkju.

— Hefir Þorsteinn Brandsson fundið yður? spurði hann, sýnilega steinhissa.

— Já. Hann er nýfarinn út úr skrifstofunni minni.

— Og bölvaður asninn! sagði Gamli Runki.

Eggert gat ekki varist hlátri. Fyrirlitning Gamla Runka á Þorsteini var svo skringileg.

— Finst yður það svo asnalegt að koma inn til mín? spurði hann glaðlega.

Nú var Gamli Runki orðinn einstaklega sakleysislegur.

— Nei, nei, sagði hann. En sú vitleysa! Nei, nei.

— Hann kom til þess að tala um morðmálið, sagði ritstjórinn.

— Hann Þorsteinn? .... um morðmálið? .... við yður?

Undrun Gamla Runka var alveg takmarkalaus.

— Hann talaði líka um yður, Runólfur. Hann sagði mér miklu fleira en yður grunar. Svo að það er sjálfsagt bezt fyrir yður að vera hreinskilinn við mig.

Gamli Runki gaut augunum út undan sér á Eggert. Því næst varð hann einfeldnislegur á á svipinn, eins og sauðkind.

— Fleira en mig grunar, og ét eg eftir, sagði hann. Við hvað eigið þér, maður? Mig grunar ekkert. Hvað ætti mig að gruna? .... En fyrst Þorsteinn Brandsson er svona kunnugur þessu máli, og fyrst honum þykir svona gaman að tala um það við yður, þá er sjálfsagt fyrir yður að tala við h a n n.

Og til þess að ritstjóranum skyldi skiljast það sem bezt, að viðtalinu væri lokið, þá kallaði gamli Runki á mann, sem í þeim svifum gekk yfir gatnamótin á Hafnarstræti og Pósthússtræti, og gaf sig á tal við hann.

Eggert gekk niður að sjó, og reykti vindilinn sinn. Þá sneri hann við aftur og ætlaði inn í skrifstofu sína. Þegar hann var kominn upp í Hafnarstræti, skildi Gamli Runki við manninn, sem hann hafði verið að tala við, vék sér að Eggert og sagði:

— Eg ætla að taka það fram við yður, og þarf þess þá ekki oftar, að eg veit ekkert. Og þó að eg vissi eitthvað, þá segði eg ekkert. Þó að eg væri drepinn, þá segði eg ekkert.

— Ekki þó að það væri til þess að hjálpa saklausum manni? spurði ritstjórinn.

— Nei. Þeir, sem hafa komið honum í bölvun, verða að koma honum úr henni aftur. Eg ber enga ábyrgð á því. Eg skifti mér ekkert af því. Eg kem engum manni í bölvun. Eg afhendi ekki sporhundum lögreglunnar nokkurn mann. Verið þér nú sælir.

Með það skildu þeir. Gamli Runki fór að bauka við búðina sína. Ritstjórinn fór inn í skrifstofu Ö k u þ ó r s.

Hann var ekki allsendis óánægður með samtalið við Gamla Runka, þó að lítil hefði nýja vitneskjan orðið. Hann var sannfærðari nú en nokkuru sinni áður um það, að eitthvað vissi karlinn, og hann teldi Bjarna saklausan. Hann var líka sannfærður um það, að hann teldi Þorstein eitthvað óþægilega við málið riðinn. Hann hafði vandlega tekið eftir því, að hrotið höfðu fram úr honum orðin „bölvaður asninn“, þegar hann heyrði, að Þorsteinn hefði komið inn í skrifstofu Ö k u þ ó r s. Hann hafði líka sett á sig undrun hans út af því, að Þorsteinn skyldi hafa komið til þess að tala við hann um morðmálið. Og í fyrstu hafði hann neitað því, að hann þekti Þorstein, og bersýnilega hafði það verið ósannindi. Að þessu athuguðu, fanst honum, að hann hafa þumlungast ofurlítið áfram. Að hinu leytinu var Gamli Runki auðsjáanlega

staðráðinn í því, að ekkert skyldi verða á sér að græða. Og Eggert hafði enga hugmynd um, hvernig hann ætti nú að snúa sér.

Óróleikinn byrjaði aftur, þegar hann hafði hugsað um þetta ofurlitla stund.

Eitthvað var þarna inni. Eitthvað vildi segja eitthvað. Og eitthvað var það skuggalegt — annaðhvort það, sem þarna var, eða það, sem það ætlaði að segja.

Það sagði aldrei neitt. En það sýndi sig.

Eggert fann draga úr sér máttinn, þar sem hann sat í ruggustólnum sínum. En jafnframt var eins og augum hans væri lokið upp.

Hann sá mannshöfuð. Það var eins og það liði í loftinu, fáeina þumlunga frá gólfinu, rétt fyrir framan fæturna á honum. Hárið var þykt og dökt. Blettur ofan á höfðinu var blautur af blóði. Í miðjum blóðblettinum var gat á hauskúpunni.

Sýnin hvarf jafnskjótt sem hann hafði fengið tíma til þess að athuga þetta.

Hann varð ekkert hræddur. En hræðslan fór af honum, geigurinn, sem hann hafði áður fundið til. Ekki eingöngu vegna þess, að hann var vanur hinum og öðrum kynjasýnum. Hann fann sér létta fyrir brjósti, eins og loftið yrði alt í einu hreinna en áður. Aðsóknin var

um garð gengin. Alt skuggalegt, geigvænlegt var farið.

Og samtímis sýninni kom vissa. Hann vissi nú — hann vissi ekki, hvernig hann vissi það, en hann vissi það — hvers vegna hvíslað hafði verið inn í hug hans orðinu „hauskúpa", þegar Þorsteinn kom inn til hans. Hann vissi, að í dag hafði hann staðið augliti til auglitis við manndrápara.

Honum varð hrollkalt af vissunni fáein augnablik.

Hann mintist þess, að áhrifin höfðu verið alt önnur, þegar hann hafði fundið Bjarna á Lækjartorgi, og haldið, að hann hefði drepið manninn. Þá hafði meginþáttur tilfinningarinnar verið gleði. Nú var meginþátturinn óljós aðkenning af sorg.

En vissan lét ekki reka sig á dyr.

Hann áttaði sig mjög bráðlega á því, að hann hafði engar sannanir. Enginn dómari mundi taka vissu hans til greina. En hann vissi þetta alveg jafn-vel fyrir því.

Hann vissi ekki, hvernig hann ætlaði að nota vissuna, né hvernig hann ætti að nota hana, né hvernig hann gæti notað hana. En hann vissi, að hann ætlaði að nota hana. Hvað sem það kostaði, skyldi Bjarni nú út úr steininum, Álf-

hildur fá fulla huggun, og hann sjálfur geta friðþægt fyrir afglöp sín.

Álfhildur varð að fá að vita um þessa vissu. Hann mátti ekki fara út úr skrifstofunni um stund vegna blaðsins. Svo að hann skrifaði Álfhildi nokkurar línur. Sagði henni, að hún gæti verið alveg róleg. Hann hefði nú fengið fulla vissu um, að Bjarni væri saklaus. Þessari vitneskju ætti hún að koma til hans í fangelsið, ef hún gæti. Ekki skyldi hún samt láta sín við getið við nokkurn mann. Það kynni að spilla fyrir málinu, gera sér örðugra fyrir. Hann gæti ekki nú sagt henni, hvernig hann hefði fengið þessa vitneskju. En hann mundi nota hana af öllum mætti til þess að hún gæti fengið son sinn aftur með þeim hætti, að öllum yrði ljóst, að hann væri saklaus.

Hann sendi dreng úr afgreiðslunni gagngert með þetta bréf.

Þegar þessu umstangi hans var lokið, gat hann ekki annað en farið að hugsa um Þorstein.

„Eins og dýr .... eins og dýr,“ hafði hann sagt, með óbifanlegu fargi þunglyndis og þjáningar.

Og hugur hans varð þrunginn af meðaumkun og miskunnsemi.

---

## XII

## Bræðurnir

---

Í þessum svifum var lagt inn til ritstjórans annað dagblað höfuðstaðarins, alveg nýútkomið, Hnikar.

Það blað hafði til þessa tiltölulega lítið skift sér af morðmálinu. Það hafði orðið aftur úr í byrjuninni með vitneskju um málið. Og ritstjóri Ökuþórs hafði verið svo mikið við það riðinn, að Hnikar hirti ekki um að gera mjög mikið úr því, fyr en hann sæi sér þá einhvern leik á borði.

Nú kom blaðið með grein um málið á fyrstu blaðsíðu. Lögreglumönnunum var þar mjög hallmælt fyrir það, að ekkert gerðist í málinu. Það væri gamla sagan, að þeir vissu aldrei neitt. En nú gæti Hnikar frætt þá um nokkuð, sem þeir hefðu átt að afla sér vitneskju um þegar í byrjun. Bjarni hefði, daginn fyrir morðkvöldið, farið út í botnvörpuskipið, sem Þorlákur heitinn

hefði verið á. Þar hefði Bjarni orðið fullur. Og þar hefði hann lent í skömmum við Þorlák. Deilan hefði harðnað svo, að Bjarni hefði ætlað að berja hann. Því hefði verið afstýrt. En þá hefði Bjarni heitið því, að Þorlákur skyldi sjálfan sig fyrir hitta síðar. Skipið hefði farið út á fiskiveiðar manndrápsnóttina, þó að það vantaði Þorlák. Af sérstökum ástæðum hefði svo um samist, að Þorlákur yrði heima, meðan skipið færi þessa ferð. En í morgun hefði það komið inn aftur. Og deila þeirra Bjarna og Þorláks væri sannanleg, ef lögreglan vildi hafa fyrir því að spyrja skipsmennina. Öll frásögnin stefndi í þá átt, að lítill vafi gæti á því leikið, að Bjarni hefði náð í manninn um kvöldið, til þess að hefna sín, og unnið á honum, viljandi eða óviljandi.

Eggert varð órótt við þessa grein. Hann sá, að hún mundi skaða málstað Bjarna og auka á hugarkvöl Álfhildar, þó að hún breytti ekkert sannfæring sjálfs hans. Hann fylti sig gremju út af fljótfærninni og grunnhygninni, gleymdi því alveg, hvernig honum hafði sjálfum verið farið fám dögum áður. Hann gat ekki bundist þess að svara þessu. Svo að hann settist við að setja saman dálitla grein handa næsta Ö k u - þ ó r.

Hann byrjaði á því að taka málstað lögreglumannanna. Þeir hefðu gert alt, sem unt hefði verið, í málinu, og vonandi kæmust þeir að sannleikanum, hver sem hann nú væri. Það væri nokkuð mikil fjarstæða að ámæla lögreglunni, eins og gert væri í blaði hér í bænum, fyrir það, að hún hefði ekki haft tal af mönnum, sem hefðu verið langt úti á sjó, síðan er glæpurinn var framinn. Hefði hún átt að gera út skip, til þess að leita að mönnum út um allan sjóinn? Líka væri það mikil fljótfærni og flysjungsháttur að draga miklar og alvarlegar ályktanir af því, að mönnum hafi orðið sundurorða. Ekki sé það dæmalaust, að reiður maður hafi hótað öðrum að berja hann einhvern tíma, án þess að úr því hafi orðið manndráp. Að lyktum varaði blaðið menn við því alvarlega að fella nokkura dóma og draga nokkurar ályktanir af ósönnuðu máli. Annars gæti það komið niður á saklausum mönnum.

— Eg kann það fyrir fram utan að, sem H n i k a r segir hinn daginn, sagði ritstjórinn við sjálfan sig .... Hann bregður mér um vindhanaskap, eins og svo oft áður. Hann bendir auðvitað á það, að eg hafi áður ámælt lögreglunni fyrir framtaksleysi. Hann fer háðulegum orðum um það, að nú sé eg tekinn að gerast

riddari hennar. Hann segir, að áður hafi eg sjálfur dróttað sökinni að Bjarna. Nú sé eg farinn að iðrast þess og snúa við blaðinu. Samt geti eg ekki sýnt, að neitt hafi breyzt síðan .... Það gerir ekkert til. Nú segi eg ekki annað en það, sem er sannfæring mín. Og það ætla eg að segja.

Hann hélt áfram góða stund við vinnu sína. Þá var barið að dyrum og Þorsteinn Brandsson kom inn.

Hann virtist hafa sofið. Var nú að minsta kosti ekki til muna drukkinn.

— Hafið þér tíma til að tala ofurlítið við mig? spurði Þorsteinn.

— Já, sagði ritstjóri, og var léttur í máli. Gerið þér svo vel að fá yður sæti.

Þorsteinn settist. Eggert þótti stórvænt um, að hann skyldi hafa komið. Þorsteinn leit á borðið hjá ritstjóranum.

— Nú .... þér hafið Hnikar þarna, sagði hann, eins og honum hefði fyrst komið blaðið til hugar við það að sjá það þarna. Eg heyri sagt, að þar sé verið að tala um .... um .... þetta mál .... Og verið að veitast að Bjarna greyinu .... Hafið þér lesið blaðið?

— Já, sagði Eggert.

— Haldið þér, að Bjarni verði dæmdur? spurði Þorsteinn.

— Nei.

— Nei .... þeir dæma hann aldrei .... Þeir geta aldrei dæmt hann. Fjandann ætli þeir geti dæmt hann!

Hann hækkaði róminn með hverri setningu, eins og hann væri að telja í sig öruggari og öflugri sannfæring með því að tala sem hæst.

— Þetta, sem stendur í Hnikari gerir honum náttúrlega ekkert til, bætti Þorsteinn við eftir augnabliks þögn .... Eða hvað haldið þér?

— Jú, það gerir honum mikið til.

— Þér haldið þó ekki, að þeir dæmi hann?

— Eg skal ekkert um það segja, hvort dómstólarnir telja það sannanir gegn honum, sem fram hefir komið. Hitt er víst, að almenningur gerir sannanir úr því. Ef ekkert kemur fram, annað en það, sem fram hefir komið, þá eru það beztu málalokin, sem Bjarna geta hent, að honum verði slept úr fangelsinu eftir einhvern langan tíma, og að allur þorri manna verði sannfærður um, að hann sá manndrápari. Hugsið þér yður saklausan mann eiga að lifa við það alla sína æfi. Það er líka hugsanlegt, að hann láti bugast af langvinnri fangelsisvist og fari að meðganga saklaus. Til þess eru ekki svo fá dæmi. Væri það ekki voðalegt, hvort af þessu

sem fyrir kynni að koma .... líka fyrir manninn, sem í raun og veru hefir unnið verkið .... sjálfsagt að meira eða minna leyti óviljandi?

— Jú, það væri bölvað, sagði Þorsteinn.

— Hann er að reyna að gera sig hressilegan, sagði Eggert í huganum, en gengur það illa.

— Vitið þér hvernig á því stendur, að eg veit, að Bjarni verður ekki dæmdur? spurði hann upphátt.

— Nei .... það er líklegast af því, að þér búist ekki við því, að þeir geti sannað neitt upp á hann.

— Það er af því, að eg veit, hver drap Þorlák, sagði Eggert og horfði fast framan í Þorstein.

Þorsteinn fölnaði sýnilega. En það var eins og hann yrði ekkert forviða. Hann leit ekki upp. En hann tók um hjartastaðinn.

— Hvernig vitið þér það? spurði hann með hægð.

— Það segi eg manninum, þegar hann verður búinn að játa alt fyrir mér.

— Hvers vegna .... hvers vegna .... kærið þér ekki manninn fyrir lögreglunni? spurði Þorsteinn dauflega.

— Það er af því, að eg vil ekki gera það.

— Þér ætlið .... ætlið .... honum að gera það sjálfum?

Þorsteini var orðið eins og þungt fyrir brjóstinu.

— Já, sagði Eggert.

— En ef hann .... ef hann .... gerir .... það ekki?

Það var eins og Þorsteini svelgdist á nærri því hverju orði.

— Hann gerir það, sagði Eggert. Eg þekki hann lítið. En eg get ekki hugsað mér hann sem ódreng, fúlmenni. Það má sjálfsagt margt að honum finna. Honum hættir víst við að gæta sín ekki; og að lokum hefir ógætnin leitt hann svo langt, að hann hefir orðið manni að bana. En það stendur ekki í neinu sambandi við ódrengskap. Eg hugsa mér, að hann eigi svo mikið af metnaði, að hann geti ekki lagt slys sín á herðar saklausum manni. Hann mun vera svo gerður, að þá fengi hann aldrei frið, nótt né dag. Hann mundi verða eins og dýr, eins og dauðþyrst dýr á brunasöndum. .... Orðuðuð þér það ekki eitthvað líkt því?

— Jú .... jú, sagði Þorsteinn eins og í draumi.

Nú varð dálítil þögn. Eggert vildi gefa orð-

um sínum tíma til þess að setjast að í hugskoti Þorsteins.

Næst sagði Þorsteinn — ritstjóranum til mikillar undrunar:

— Þér eruð trúlofaður?

— Já, sagði Eggert.

— Og unnustan yðar er góð stúlka? .... Er ekki svo?

— Jú.

Þá þagnaði Þorsteinn aftur. Og eftir dálitla umhugsun sagði hann:

— Nei.

— Hverju eruð þér að neita, maður?

— Þér setjist í mikinn auð, þegar þið verðið gefin saman?

— Nei. Ekki hugsa eg það. Eg er enginn auðmaður.

— Er hún ekki dóttir hans þarna Melans, konsúlsins?

— Jú.

— Og er hún ekki einbirni?

— Jú.

— Þá fer eg nú nærri um það, hvað skorturinn verður mikill hjá ykkur! .... Nei .... nei .... Þér skiljið það ekki. Eg veit þér skiljið það ekki.

— Hvað skil eg ekki?

— Það skal eg segja yður. Þér skiljið ekki, hvað það er að vera bláfátækur ræfill og eiga tíu börn — yngsta barnið tólf ára. Þér skiljið ekki, hvað það er að eiga konu, sem einu sinni var eins falleg eins og stúlkan yðar, og alt af er eins góð, eins og þér segið stúlkuna yðar vera .... og hafa reynst henni illa. Þér skiljið ekki, hvað það er að ganga með sál sína alla rifna og tætta undan klónum á þeim djöfli, sem í manni sjálfum býr. Þér skiljið ekki, hvað það er að skilja allan hópinn eftir allslausan, og spíkspora sjálfur inn í hegningarhúsið. Þér skiljið ekki, hvað það er að gera konuna sína, eftir allar aðrar yfirsjónir, að manndráparakonu. Þér skiljið ekki, hvað það er að hugsa til þess, að börnin hérna á götunum bendi á börnin manns og segi: Þarna eru manndráparakrakkarnir. Þér liggið í sólskini lífsins og teygið úr yður. Þér skiljið ekki hyldýpi ólánsins. Hvernig ættuð þér að skilja það? Hver skilur það?

Hann sagði þetta ofsalaust, eins og að hálfu leyti utan við sig. En þungi örvæntingarinnar fanst ritstjóranum eins og niður mikilla straumvatna. Hann fann foss ógæfunnar steypast fram af háum klettastalli yfir sál sjálfs sín.

— Eigið þér tíu börn? spurði hann.

Þorsteinn svaraði engu orði. En hann kinkaði kolli.

— Og konan og börnin eru allslaus, ef yðar missir við?

Þorsteinn kinkaði aftur kolli.

Þessar höfuðhreyfingar höfðu sterkari áhrif á Eggert en nokkur orð hefðu getað haft. Honum fundust þær svo óvenjulega raunalegar.

— Ætlið þér að kæra .... manninn? spurði Þorsteinn.

— Hvernig getið þér komið með aðra eins vitleysu? sagði Eggert.

Honum var alvara. Á því augnabliki fann hann, að það var fjarstæða, níðingsverk.

En við næsta andartak skaut Álfhildi upp úr hugskoti hans, með dökt, snjáð sjalið, beina nefið og góðmenskuna og raunarúnirnar á andlitinu. Hún átti Bjarna í steininum ....

Þeir sátu báðir þegjandi dálitla stund.

— Eg veit ekki, hvað eg er að gera hér, sagði Þorsteinn þá. Mér væri víst nær að fara.

Hann lyfti sér þunglamalega upp á stólnum, í því skyni að standa upp.

— Nei, bíðið þér við, sagði ritstjórinn. Eg er að hugsa um, hvað við eigum að gera.

— Við?! sagði Þorsteinn, og var nú alt í

einu orðinn önugur. Hvað höfum v i ð saman að sælda?

— Við reynum að hugsa okkur, að við séum bræður.

— Bræður! sagði Þorsteinn, og það var eins og enginn hljómur í röddinni.

Hann hélt áfram að stagast á því góða stund, eins og hann vissi ekki, hvað hann var að segja:

— Bræður .... bræður .... Það eru nú skárri bræðurnir!

En ritstjórinn hugsaði sitt mál.

---

## XIII

## Játningin

— Þetta getur ekki gengið svona lengur, sagði ritstjórinn eftir dálitla stund.

— Hvað getur ekki gengið lengur, sagði Þorsteinn.

Svipurinn á honum varð eins og hann skildi ekkert í því, hvert Eggert gæti verið að fara.

— Þér getið ekki borið þetta lengur svona.

— Hvað get eg ekki borið lengur svona? sagði Þorsteinn harkalega.

— Að hafa drepið manninn. Og að saklaus maður sé í steininum yðar vegna.

Það var eins og Þorsteinn vaknaði nú fyrst af einhverjum draumi og áttaði sig á því, að honum gæti staðið einhver hætta af ritstjóranum. Hann espaðist allur við þessi voðalegu orð, stóð upp, barði í borðið og sagði:

— Svo að þér ætlið að fara að bera þetta á

mig .... svona umsvifalaust og blátt áfram! Eruð þér viss um, að eg taki því með þökkum? Þér getið ekkert sannað á mig. Og við erum hér tveir einir. Það gæti legið svo á mér, að mér dytti í hug að sýna yður í tvo heimana.

Hann krepti hnefana og gerði sig hinn vígamannlegasta.

Ritstjórinn hló góðlátlega.

— Verið þér nú dálítið skynsamur, mælti hann. Eg er að líkindum eins sterkur eins og þér. Og eg er miklu yngri og liðugri. Ef okkur lenti saman, hugsa eg, að þér munduð liggja flatur hér á gólfinu, áður en þér vissuð af .... Hlustið þér nú á mig. Ef þér haldið svona áfram, þá verðið þér áreiðanlega brjálaður .... Hafið þér gert nokkurt handarvik síðustu dagana?

— Nei.

— Þarna sjáið þér! Eg er að hugsa um að reyna að hjálpa yður. Fyrir það ætlið þér að ráðast á mig, eins og grimt dýr. Er nokkurt vit í þessu?

— Enginn getur hjálpað mér. Eg er bara á leiðinni til helvítis, skal eg segja yður .... bara á leiðinni til helvítis.

— Þér voruð að hugsa um konuna yðar og börnin áður. Gleymið þér þeim nú ekki aftur ....

— Bara á leiðinni til helvítis, skaut Þorsteinn inn í.

Það var eins og honum væri einhver fróun að því að lýsa óhamingju sinni með svo kjarnmiklum orðum.

— Eruð þér það ómenni, að þér getið ekki talað um örðugleika yðar eins og karlmanni sómir? sagði Eggert.

— Eg skal reyna það, sagði Þorsteinn og settist niður.

— Þér vinnið ekki fyrir konu og börnum, meðan þér eruð svona. Þér sjáið það sjálfur. Þér verðið að breyta eitthvað til. Annaðhvort verðið þér að létta öllu af yður, að því leyti, sem því verður af létt með því móti .... og fara í hegningarhúsið ....

— Já, ætli það verði ekki endirinn? Ætli þér kærið mig ekki, eins og eg átti von á?

— Eða þér verðið að komast burt.

— Burt? .... Hvernig ætti eg að komast burt .... allslaus .... bundinn á báðum endum?

— Eigið þér enga vini?

— Eg? Eg vini? .... Nei, það er nú eitthvað annað!

— Haldið þér, að konan yðar kæmi til yðar, ef þér kæmust burt, og þér yrðuð fær um að taka á móti henni?

— Konan mín? .... Já .... Hún kæmi til mín, þó að eg væri kominn út á heimsenda.

— Þér sögðuð áðan, að þér hefðuð reynst henni illa.

— Já .... já .... því miður .... En hún kæmi samt. Þér vitið ekki, hvernig hún er.

— Hlustið þér nú á mig .... Eg vil reyna að hjálpa yður til þess að komast burt. Eg vil líka reyna að létta undir með konunni yðar, þegar þér verðið farinn. Eg get lítið sjálfur. En eg reyni við alla, sem eg get leitað til. Það kann að verða af skornum skamti. En eg get meira fyrir hana gert en þér getið, eins og nú er ástatt um yður. En þetta er bundið einu skilyrði: Þér skiljið eftir hjá mér ótvíræða játningu, skriflega, og greinilega frásögn um það, hvernig andlát Þorláks hefir atvikast .... Ætlið þér að ganga að þessu?

Þorsteinn hugsaði sig um nokkura stund. Eggert beið eftir honum, rólegur ásýndum. En hugur hans var allur á glóðum.

— Já, eg ætla að ganga að því, sagði Þorsteinn.

— Viljið þér þá segja mér, hvernig þetta atvikaðist?

— Hvers viljið þér spyrja? sagði Þorsteinn, auðheyrt með nokkurri nauðung.

— Voruð þér drukkinn, þegar .... þegar þetta gerðist?

— Já.

— Þér munið samt, hvernig á því stóð, að þér gerðuð þetta?

— Hvort eg m a n það? .... Haldið þér, að maður gleymi margra ára helvíti?

— Þér hafið verið reiður við hann?

— Já.

— Höfðuð þér verið honum reiður lengi? Eða reiddust þér honum í þetta skifti?

Þorsteinn þagði dálitla stund. Eggert vissi ekki, hvort hann hafði tekið eftir spurningunni, en beið samt þolinmóður eftir svarinu. Þá spratt Þorsteinn alt í einu upp af stólnum og ofsasvipurinn kom á andlitið.

— Eg hataði hann, sagði hann áfergjulega. Eg hataði hann alt af, dag og nótt, í vöku og í svefni. Vitið þér, hvað það er að hata? Hafið þér reynt það?

— Nei.

— Nei .... Þér vitið ekki, hvað það er að vera ýmist með sjóðandi ólgu eða gaddfreðinn kökk í sál sinni. Þér vitið ekki, hvað það er að vera alt af um þetta að hugsa og mega aldrei létta neitt á sér, aldrei segja nokkurt orð um það, ganga með múlbundinn kjaftinn dag eftir

dag og ár eftir ár. Nei, þér hafið ekki reynt það. Ef til vill hefir enginn reynt það nema eg .... En segið þér mér .... hvers vegna eru þessar kvalir lagðar á m i g? Hvað hefi eg til unnið? Var eg þeim mun verri en allir aðrir? Og hvers vegna er eg látinn standa hér frammi fyrir yður sem manndrápari? Eg ætlaði ekki að drepa hann. Margur hefir nú gefið öðrum á hann, og enginn drepist af því. Hvers vegna þurfti þá Þorlákur endilega að drepast? Hvernig stendur á þessu öllu? Getið þér sagt mér það?

— Nei. Eg veit það ekki. Ef til vill hefir yður verið ætlað að læra að fyrirgefa. Og yður hefir auðsjáanlega mistekist að læra það.

— Fyrirgefa! sagði Þorsteinn með feikilegri fyrirlitningu. Þeir tala mest um að fyrirgefa, sem ekkert hafa að fyrirgefa, þeir, sem enginn gerir neitt mein. Vitið þér ekki, að það eru til hlutir, sem enginn karlmaður fyrirgefur, nema allra-verstu manntuskurnar? Sumir eru svo mikil úrþvætti, að þeir geta ekki hatað .... og halda, að þeir séu góðir!

— Hvers vegna var yður svona illa við hann?

— Það segi eg ekki. Það get eg ekki sagt neinum.

— Þér þurfið ekki að gera það. Eg veit það.

— Vitið þér það? spurði Þorsteinn nokkuð hvumsa. Hvað vitið þér um það?

— Eg veit, að það var út af konunni yðar.

— Hvernig vitið þér það. Hafið þér heyrt nokkurt slúður um það úti í bæ?

Þorsteinn var nú tekinn að ókyrrast af nýju.

— Það væri auðvitað hættulegt fyrir yður nú, ef það hefði heyrst. En þér getið verið rólegur. Eg hefi ekkert heyrt .... annað en það, sem þér hafið sagt mér sjálfur. Menn hata ekki svona nema út af kvenfólki. Og allra-sízt þegja menn um það árum saman, nema það sé út af kvenfólki. Fyrst eg veit nú svona mikið, þá er lang-bezt fyrir yður að segja mér alt.

— Ætlið þér að kæra mig, ef eg geri það ekki?

— Nei. Hefi eg ekki sagt yður, að eg lít á yður sem bróður minn? Hver kærir bróður sinn? Yður verður léttara við það sjálfum. Setjist þér nú niður.

Hann leiddi Þorstein til sætis. Góðfýsin rann inn í sál Þorsteins eins og sólargeisli. Og hann lét undan.

— Mér finst þetta verða svo langt mál, sagði hann, langt eins og margra ára andvökunætur, langt eins og þjáningarnar. Það er bezt að eg byrji þá á því, að fyrir 13—14 árum bað eg

stúlku. Hún var komin af ágætu bændafólki og hafði ráðið sig sem vinnukonu hjá foreldrum mínum. Eg hafði herbergi út af fyrir mig í húsinu hjá þeim. Mér leizt svo vel á hana, að mér fanst eg ekki geta lifað án hennar. Hún neitaði mér. Þorlákur var líka að sækjast eftir henni, og hann hafði náð valdi á henni. En þegar hann var búinn að ná valdi á henni, vildi hann hvorki heyra hana né sjá. Þér getið naumast gizkað á það, hvað hún var harmþrungin. Á daginn gekk hún um húsið eins og vofa, döpur og þegjandaleg. Mér var sagt, að á nóttunni vekti hún og gréti, enda leyndi það sér ekki, að svo var. Mér var óbærilegt að horfa á þetta.

— Höfðuð þér þá ekki reiðst henni? spurði ritstjórinn.

— Út af því, að hún vildi mig ekki? Nei. Aldrei nokkurt augnablik. Hvaða vit hefði verið í því? En Þorláki hafði eg alt af verið reiður.

— Hvað gerðuð þér þá?

— Eg spurði hana einu sinni, þegar við hittumst í stiganum, hvort hún vildi koma inn í herbergið mitt og tala við mig. Hún sýndist vera treg til þess. En hún gerði það samt. Þá spurði eg hana, hvort það stæði við sama og áður, að hún gæti ekki hugsað til þess að verða konan mín.

— Hverju svaraði hún þá?

— Eg hefi aldrei séð neina manneskju verða jafn-forviða. Hún leit fyrst á mig stórum augum .... Er þér alvara? Veiztu hvernig komið er fyrir mér, Þorsteinn? sagði hún. Og svo fór hún að gráta. .... Já, eg veit það, sagði eg. En eg sagði henni, að það breytti engu. Mér þykir alveg eins vænt um þig fyrir því, sagði eg .... Hún sýndist ekki geta áttað sig á þessu. Hvað heldurðu, að foreldrarnir þínir segi? sagði hún .... Eg sagðist ekki spyrja neinn að því, hvaða stúlka yrði konan mín. Eg ætla mér að bera einn ábyrgð á því, sagði eg .... Loksins bað hún um tíma til þess að hugsa sig um. Eg skal tala við þig aftur á morgun, sagði hún.

— Hvað sagði hún þá daginn eftir?

— Hún sagðist ætla að verða konan mín .... Hún sagði, að eg væri góður eins og guð .... Hún vissi minst um það, hvaða vitleysu hún sagði þá, auminginn.

— Og þér stóðuð við það?

— Já. Við vorum gefin saman .... áður en barnið kom.

— Tókust þá ekki með ykkur góðar ástir?

— Hún hefir æfinlega verið góð við mig. Það getur víst enginn skilið, hvernig á því stendur, að hún skuli hafa verið góð við mig. En satt

er það samt. Líklegast finst henni, að hún þurfi alla æfi að greiða þakklætisskuld fyrir það, að eg tók hana að mér, þegar hún átti bágast.

— En þér sjálfur? Þér segið, að yður hafi þótt mjög vænt um hana .... að þér hafið ekki getað lifað án hennar.

— Alt hefði getað orðið gott, ef Þorlákur hefði ekki verið.

— Gerði hann yður þá mein?

— Mein?! .... Hann Þorlákur! .... Hann eitraði alt lífið fyrir mér.

Nú kom svo mikill harðneskju-svipur á andlitið á Þorsteini, að Eggert sagði við sjálfan sig:

— Svona hefir hann verið, þegar hann drap manninn.

— Viljið þér segja mér, hvað ykkur bar á milli? sagði hann við Þorstein.

— Eg veit ekki. Eg veit ekki, hvort þér verðið nokkuru nær.

— Hann hefir þó ekki reynt að komast aftur í kynni við konuna yðar?

— Eg veit ekki.

— Þér vitið það ekki?

— Nei. Eg hefi ekki alt af verið heima. Þá hefir margt getað gerst. Og vís var hann til alls ills.

Eggert þóttist sjá niður í hyldýpi af tortrygg-

ingum og kveljandi efasemdum. Þorsteinn hélt áfram:

— Hvað haldið þér, að hann hafi sagt við mig, þegar hann hitti mig fyrsta skiftið eftir brúðkaupið mitt? .... Eg óska til lukku með leifarnar, sagði hann .... Hvaða leifar? sagði eg, og skildi ekkert .... Sumir drekka bara rjómann, sagði hann þá. Og hann er fljótsoppinn. Undanrenningin getur líka verið nokkuð góð .... Alt í einu skyldi eg, hvað hann var að fara. Eg rak högg framan á andlitið á honum. Hann varð alblóðugur, og var nokkuð skemdur eftir. Eg var sektaður fyrir það. Eg gat ekki sagt fyrir rétti, hvað hann hefði til unnið. Eftir það réttarhald drakk eg mig drukkinn fyrsta sinni á æfinni .... En hvað átti eg að gera, annað en að berja hann? Átti eg að ræða þetta mál við hann einstaklega kurteislega? Eða átti eg að labba mig burt eins og sneyptur hundur? .... Og hvað haldið þér, að hann hafi sagt, eftir að barnið kom, barnið hans? .... Eg óska þér til lukku með dótturina. Er hún lík þér? sagði hann .... Og þér hefðuð átt að sjá og heyra, hvernig hann sagði það. Eg barði hann aftur. Eg var sektaður hærra en áður. Mér var sagt, að ef eg héldi þessari barsmíð áfram, þá yrði eg dæmdur í fangelsi. Það var hann,

sem hefði átt að dæmast í fangelsi. Finst yður það ekki?

— Jú, sagði Eggert af sannfæring.

— Þetta og þessu líkt hefir hann látið ganga öll þessi ár. Hann hefir margsinnis gefið mér í skyn, að eg eigi ekki hin börnin — að hann eigi þau líka.

— En þér hafið vitað, að það var lygi?

— Já .... já .... Eg hefi vitað það .... og vitað það ekki. Stundum hefi eg vitað það. Stundum hefi eg verið jafn-sannfærður um, að það væri lygi, eins og að eg sé til. En svo hafa efasemda-kvalirnar komið annað veifið, með andvökum og drykkjuskap og örvænting. Og svo hatrið .... hatrið .... í þeim köstunum. Vitið þér, hvað það er að vilja vinna það til að láta rífa sig sundur kvikan, ef hatrinu verður svalað? .... Þér segið sjálfsagt, að þetta hafi verið lítilmenska .... að láta mann vaða svona inn í líf sitt og eitra það .... Haldið þér ekki, að eg hafi nokkurum sinnum sagt mér það sjálfur? En eg gat ekki ráðið við það. Og í friðleysinu gat eg ekki annað en drukkið. Og þá hefir mér fundist það vera djöfullinn en ekki guð, sem réði tilverunni .... Og segið þér mér í hreinskilni — hver haldið þér, að það sé, sem lætur þetta alt fara svona?

— Eg veit það ekki. Eg veit nú eitthvað minna en það, sagði Eggert .... En segið þér mér — hvað gekk manninum til? Hvers vegna ofsótti hann yður svona?

— Eg held, að þegar við vorum gift, hafi hann farið að sjá eftir því, að konan mín skyldi hafa lent hjá öðrum en honum, þó að hann yrði henni fráhverfur um stund. Fyrstu storkunarorðunum hefir hann víst dembt á mig fyrir það, Eftir því sem lengra hefir liðið á viðureign okkar, hefir hatur hans til mín aukist, eins og hatur mitt til hans.

— Reynduð þér ekki að forðast hann, svo að hann fengi ekki færi á að svívirða konuna yðar og reita yður til reiði?

— Jú, að öllum jafnaði. En þegar eg hefi verið fullur, þá hefi eg viljað skammast. Þá hefi eg verið áfjáður eftir að skamma hann.

— Og láta hann tala illa um konuna yðar?

— Eg hefi vanist því frá honum. Það hefir eins og harðnað á mér húðin .... En vitið þér, hvað það er að þegja — þegja ár eftir ár um það eina, sem maður í raun og veru hugsar um? Þegja um það, sem er að rífa mann sundur og gera mann að ófreskju? Við hvern átti eg að tala? Eg átti engan vin, sem eg gæti sagt frá slíkum áhyggjum. Flestir mundu hafa hent gam-

an að mér. Aðrir mundu hafa fengið andstygð á mér fyrir hatrið. Þér haldið kannske, að eg hafi farið að tala um þetta við konuna mína. Nei. Þó að eg hafi verið fullur, og þó að eg hafi verið vondur, þá hefi eg aldrei gert mig að þeim mannhundi, að eg hafi farið að segja henni frá því, hvernig faðir elzta barnsins hennar hefir talað um hana, og hvernig hann hefir notað hana til þess að gera mig að ólánsmanni. Eg veit, að hún hefir haft nóg að bera samt. En stundum varð það, sem inni fyrir bjó, að fá einhverja útrás. Og þegar eg var fullur og í verstu skapinu, sat eg um að ná í hann og skamma hann .... og berja hann, ef svo vildi verkast.

Þeir sátu báðir þegjandi dálitla stund. Þunglyndið grúfði bersýnilega yfir Þorsteini, eins og einhver dularfull óvættur. Eggert þóttist sjá, að nú væri komið að síðasta þætti frásagnarinnar. Hann gat ekki annað en farið að hugsa um það, hve örðugt það hlyti að vera dulum og viðkvæmum manni að segja frá því, sem Þorsteinn hafði látið uppi.

— Samt á hann það eftir, sem örðugast er, sagði hann við sjálfan sig.

Hann fékk alt í einu ákafa löngun til að segja við manninn: Farið þér nú tafarlaust. Segið þér nú ekki nokkurt orð meira. Eg veit ekkert. Eg

vil ekkert vita. En þá mintist hann Álfhildar. Hann v a r ð að fá að vita sannleikann. Fyrir því sagði hann við Þorstein:

— Og nú ætlið þér að segja mér leikslokin?

Þorsteinn þagði enn ofurlitla stund.

— Já .... já .... Eg býst við því, sagði hann svo.

En örðugt veitti honum auðsjáanlega að taka til máls. Samt gerði hann það að lokum.

— Eg var drukkinn um kvöldið.

— Kvöldið, sem ....

— Já, já .... Eg átti gamla svipu. Kengurinn í henni hafði bilað. Eg hafði lengi ætlað mér að gera við hann. Eg gerði það þann daginn, og tók svipuna með mér úr smiðjunni. Á leiðinni heim lenti eg í fyllirii, en svipunni týndi eg samt ekki. Seint um kvöldið kom eg við hjá Gamla Runka við bryggjuna. Þar var Þorlákur staddur. Hann stiklaði á sínum gömlu brigslum um konuna mína. Eg varð reiður og elti hann, þegar hann fór frá Gamla Runka, til þess að skammast við hann. Hann helti á mig logandi storkunaryrðum um konuna mína, eins og hann var vanur .... Já, eg hefði átt að vera farinn að venjast því. Eg v a r farinn að venjast því. Samt varð eg nú óvenjulega hamslaus. Eg sagði alt það ljótasta, sem mér datt í hug. Hann sagði

ekki annað en svíðandi napuryrði. Mér fanst líkast því, sem hann væri að brennimerkja mig hér og þar. Eg varð svo æstur, að eg vissi naumast, hvað eg sagði. Hann var meira en rólegur. Hann var kátur, hló, eins og honum þætti þetta óvenjulega skemtileg stund. Hann var hvað eftir annað að þakka mér fyrir, að eg skyldi hafa gert sér þá ánægju að lofa sér að tala við mig. Við áttum báðir heima inni í Skuggahverfi, og við gengum inn hjá battaríinu. Þegar við komum þangað, sagði Þorlákur, að nú skyldum við setja okkur niður uppi í skálinni. Eg væri svo skemtilegur, að honum væri mikil þökk á því, ef eg vildi gefa sér í staupinu. Hann vissi, að eg var með flösku í vasanum. Hann tók í handlegginn á mér og leiddi mig upp brekkuna og ofan í skálina. Áfergjan var svo mikil í mér eftir því að geta skammað hann sem mest, að eg hugsaði ekki um neitt annað og lét leiðast þetta eins og óafvitandi. Við supum báðir á flöskunni þarna í battaríisskálinni. Þá fór hann að brjóta upp á því, að við ættum að hætta þessum fjandskap og verða vinir. Þó að eg væri vitlaus af áfengi og reiði, þá vissi eg samt það, að hann bjó yfir þeim mun gegndarlausari svívirðingum, sem hann var blíðmálli, svo að eg hnýtti enn fastara að illyrðunum .... Eg veit, að þú ert bláfátæk-

ur ræfill, sagði hann, og þetta er enginn smáræðishópur, sem þú hefir í eftirdragi. En ef eg hjálpaði þér nú dálítið eftirleiðis? sagði hann .... Eg sagði, að sá mundi nú hjálpa mér, svo sem eg kvað á .... Jú, eg veit, það er ekki nema sanngjarnt, sagði hann. Þú hefir of þungum hala að veifa. Og ef eg skyldi nú eiga flestalla krakkana .... Lengra lét eg hann ekki komast. Eg fann strax nóttina eftir, að þetta var lygi, sem hann var að segja, svívirðilegasti uppspuni. En á því augnabliki fanst mér hann segja satt. Eg lamdi svipuskaftinu í höfuðið á honum. og hann hneig niður.

— Og þetta högg hefir orðið honum að bana? spurði Eggert.

— Eg geri ráð fyrir því. Eg veit ekkert annað en það, að hann hneig niður. Og í sama bili sá eg mann vera kominn upp á garðlagið að sunnanverðu við skálina, sem við vorum í. Eg varð alt í einu skelfdur. Mér flaug í hug, að eg væri orðinn morðingi, og að þarna væri maður, sem stæði mig að verkinu. Eg stökk af stað, eins hart og eg gat hlaupið.

Enn sátu þeir þegjandi um stund. Þorsteinn fann til þess grátskylda léttis, sem venjulega er því samfara að játa yfirsjónir sínar, fá einhvern annan mannshug til þess að bera eitthvert ofur-

lítið brot af þeim. Og Eggert var hálf-lamaður eftir alt, sem honum hafði nú verið sagt.

— Hvers vegna komuð þér til mín? sagði Eggert, þegar honum fór að finnast þögnin verða óþægilega löng.

— Eg var alveg friðlaus .... út af því, sem eg hafði gert .... og út af konunni minni og börnunum .... og út af því, að saklaus maður hafði verið tekinn fastur. Eg hefi mjög lítið sofið, en oftast verið drukkinn síðan. Mér fanst eg v e r ð a að tala .... tala um þetta .... tala .... tala. Og mér fanst eg verða að fá að vita eitthvað um Bjarna Það hefir náttúrlega verið hann, ræfillinn, sem hefir álpast í fyllirii þarna upp á battaríið. Þér höfðuð skift yður svo mikið af málinu. Eg hélt, að þér kynnuð að vita meira en aðrir, að undanteknum lögreglumönnunum. Til þeirra gat eg ekki farið. Eg fékk hjartslátt, ef eg sá lögreglumann, þó að hann væri langt frá mér. Þess vegna kom eg til yðar.

---

## XIV

## Fregnmiðinn

Nú var barið að dyrum.

Það var rétt komið fram á varirnar á ritstjóranum að segja komumanni að koma inn. En hann hætti við það. Hann gekk fram að hurðinni, lauk henni lítið upp og stóð í gættinni.

Erindi komumanns var ekki annað en það að afhenda honum fregnmiða frá Hnikari.

Ritstjóranum brá, þegar hann leit á fregnmiðann. Fyrirsögnin var:

**Ný vitneskja í morðmálinu.**

Efnið var þetta:

Maður, sem héti Snjólfur Steinsson, hefði gengið fram hjá búð Gamla Runka við bryggjuna skömmu fyrir miðnætti kvöldið áður en morðið var framið. Þá hefðu þeir verið þar: Gamli Runki, Þorlákur heitinn og járnsmiður,

sem héti Þorsteinn Brandsson. Þessi Þorsteinn hefði verið með rosta við Þorlák, hefði eitthvað minst á það, að hann skyldi drekka hland, og jafnvel reitt upp svipu vígamannlega. Þorsteinn hefði kallað til Snjólfs um leið og hann gekk fram hjá, svo að Snjólfur hefði ekki getað verið í neinum vafa um manninn, en hann hefði verið að flýta sér, og ekkert viljað sinna honum, enda séð, að hann var drukkinn. Lögreglan hefði, að því er virtist, sýnt furðulegt tómlæti í þessu máli, og vitanlega hefði henni aldrei dottið neitt í hug, annað en það, sem aðrir hefðu bent henni á. En þar sem þetta hefði gerst, sem nú hefði verið sagt frá, örstuttu áður en Þorlákur hefði fundist dauður, þá væri óneitanlega reynandi fyrir lögregluna að tala við þessa menn, Snjólf, Þorstein og Gamla Runka. Snjólfur hefði farið úr bænum árla morguns eftir morðið, en væri nú kominn heim, og hefði sagt frá þessu. Ýmislegt væri annars kynlegt í þessu máli. Ef til vill samt einna kynlegast það, að ritstjóri Ökuþórs, sem í fyrstu hefði gert sér svo títt um málið, væri nú alveg hættur að minnast á það, öðruvísi en í því skyni að styðja lögregluna í öllu hennar tómlæti og ónytjungsskap. Um það atriði mundi meira koma í blaðinu einhvern næstu dagana.

— Hvað eruð þér að lesa? spurði Þorsteinn.

Eggert varð það fyrst fyrir að ganga að dyrunum og tvílæsa þeim. Þá rétti hann blaðið að Þorsteini. Þorsteinn rendi augunum yfir það.

— Þeir taka mig, þegar eg kem út á götuna, sagði hann.

— Já.

Þorsteinn hugsaði sig um drykklanga stund.

— Verið þér þá sælir, sagði hann þá, og rétti Eggert höndina.

— Nei. Þér megið ekki fara.

— Ekki fara? sagði Þorsteinn, vita-skilningslaus.

— Nei. Þér verðið að vera hér fyrst um sinn.

— Hér?! Hvað lengi.

— Það veit eg ekki. Þangað til við sjáum einhverja leið .... Heyrið þér .... það er einhver að koma upp stigann. Flýtið þér yður þarna inn. Og látið þér ekki sjá yður við gluggann.

Hann þreif í Þorstein í ofboði, hálf-dró hann og hálf-ýtti honum inn í herbergið, tvílæsti og stakk á sig lyklinum.

Í sama bili var barið að dyrum skrifstofunnar. Ritstjórinn lauk upp. Lögreglumaður kom inn. Hann var málkunnugur ritstjóranum og orðlagður skraffinnur.

— Sælir verið þér, sagði lögreglumaðurinn.

Er ekki maður staddur hér hjá yður, sem heitir Þorsteinn Brandsson?

— Nei, sagði ritstjórinn.

Hann hafði aldrei vanið sig á að segja ósatt. Nú var hann svo æstur, að honum fanst helzt einhver fróun í því.

— Það var kynlegt, sagði lögreglumaðurinn.

— Jæja .... Áttuð þér von á honum hér?

— Já. Einn lögreglumaðurinn hefir lengi verið hjer niðri á götunni. Hann sá Þorstein fara hingað inn í húsið. Og hann heldur, að hann hefði tekið eftir honum, ef hann hefði farið út. Hefir hann ekki komið hingað?

— Jú.

— Hvaða erindi átti hann?

Hann var eitthvað að rekast í gömlum Ö k u- þ ó r s-blöðum. Hann er ef til vill í afgreiðslunni hérna hinumegin við ganginn.

— Nei. Við höfum leitað hans þar.

— En í búðinni hérna niðri?

— Nei. Þangað hefir hann ekki komið.

— Jæja. Þá verðið þér að leita að honum einhverstaðar annarstaðar. Félaga yðar þarna niðri á götunni hefir sjálfsagt skjátlast. Það er líka naumast við því að búast, að hann hafi aldrei litið augunum af dyrunum á þessu húsi. Var honum sagt að gæta þeirra?

— Nei, auðvitað ekki. Það er ekki nema rúmur hálftími, síðan þessi fregnmiði frá Hnikari kom í hendur okkar. Enginn maður grunaði Þorstein. Eg man það reyndar, að hann lenti einu sinni eða tvisvar í einhverjum áflogum við Þorlák heitinn. En það eru mörg ár síðan.

— Hafið þið fundið hina mennina, sem nefndir eru í fregnmiðanum.

— Við brugðum undir eins við. Einn fór að finna Snjólf. Eg efast ekki um, að hann hafi fundist. Eg gekk um hjá Gamla Runka. En enginn var hjá búðinni hans. Eg veit ekki, hvern fjandann karlinn hefir hlaupið. Hann er aldrei vanur að fara þvers fótar frá þessum skáp sínum. Bezt gæti eg trúað því, að hann hafi náð í fregnmiða-snepilinn á undan okkur, og flýtt sér að fela sig einhverstaðar, af því að nú gat hann ef til vill gert eitthvert gagn með því að vera kyr. Sá ætti nú fyrir því að vera geymdur einn eða tvo daga í steininum.

— Gerið þér svo vel að fá yður vindil, sagði ritstjórinn, og rétti opinn vindlakassa að lögreglumanninum.

Lögreglumaðurinn þakkaði fyrir og kveikti í vindlinum.

— Gerið þér svo vel að fá yður sæti.

— Nei. Eg má ekki vera að því, sagði lögreglumaðurinn.

En hann tylti sér samt niður.

— Það er ískyggilegt þetta með Þorstein ...., finst yður ekki? sagði ritstjórinn.

— Ó .... já .... jú víst .... nokkuð svo.

— Haldið þér ekki, að Bjarna verði nú slept, fyrst böndin hafa borist svona fast að öðrum manni?

— Slept? Eruð þér frá yður? .... Ja, bæjarfógetinn ræður því náttúrlega. En ekki get eg hugsað mér það. Böndin hafa ekki síður borist að Bjarna. Það hefir sannast, hvað hann sagði við Þorlák úti á skipinu sama daginn, og það var ekki frýnilegt. Og þér funduð hann sjálfur úti á battaríinu, svo að segja hjá líkinu.

— Svo að þér haldið, að það hafi verið Bjarni?

— Mér dettur ekki annað í hug .... En auðvitað verður að ná í Þorstein og yfirheyra hann.

— En .... heyrið þér, sagði ritstjórinn. Með hverju haldið þér, að hann hafi brotið hauskúpuna á Þorláki? Hann var ekki með neitt barefli.

Lögreglumaðurinn leit á hann hálfgerðum meðaumkunar-augum.

— Nú .... þér eruð þá ekki skarpskygnari en þetta! Náttúrlega með flöskunni. Þér hafið sjálfur sagt í blaðinu yðar, að hann hafi verið með þriggja pela flösku í vasanum. Haldið þér ekki, að það megi gefa með henni högg, sem um munar, ef það kemur laglega á? Við erum gamlir í hettunni og skiljum þetta alt betur en þér .... En nú má eg ekki vera að þessu lengur. Verið þér nú sælir. Og þakk' yður fyrir vindilinn .... Heyrið þér .... haldið þér að Þorsteinn komi aftur til yðar?

— Það get eg ekki gert mér neina hugmynd um.

— Ef hann kynni að koma, þá gerið þér svo vel að kalla til bæjarfógetans í síma, og reyna að halda honum hjá yður, þangað til við komum .... Þakk' yður fyrir .... En það er ekki fyrir það, enginn þarf að segja mér, að Þorsteinn hafi gert þetta. Eg þekki hann, og veit, að hann er ekkert illmenni.

Og lögregluмaðurinn skildi við ritstjórann með kærleikum.

Eggert var ekki hlátur í hug. Samt gat hann ekki bundist þess að brosa, meðan hann var að láta aftur hurðina á eftir komumanni. Honum fór eins og mörgum öðrum, að honum þótti nokkurt gaman að því að hlusta á spekingslegar

fortölur, sem hann vissi sjálfur manna bezt, að ekki voru annað en heilaspuni.

Hann lauk upp hurðinni að innra herberginu og fór inn til Þorsteins.

— Heyrðuð þér til okkar? spurði hann.

Þorsteinn var æstur.

— Já, eg þoli þetta ekki, sagði hann. Þó að eg sé mannhundur, þá þoli eg það ekki.

— Hvað þolið þér ekki?

— Þeir eru sannfærðir um, að Bjarni hafi gert þetta. Eg þoli það ekki. Eg vil heldur fara til bæjarfógetans og segja honum, hvernig í öllu liggur .... Og þeir taka mig líka, hvort sem er .... Verið þér nú sælir. Og þakk' yður fyrir, að þér hafið sýnt mér góðvild, ókunnugum manni.

Hann ætlaði að fara.

Eggert fann, að hann mundi aldrei fyrirgefa sjálfum sér það, ef hann léti Þorstein fara nú.

— Þér munið, hvað eg sagði yður, mælti hann — að eg ætlaði að reyna að hjálpa yður burt, og aðstoða konuna yðar eftir mætti; en svo ættuð þér aftur á móti að skilja eftir hjá mér skriflega, ótvíræða játningu.

— Já .... en maður guðs og lifandi! .... sjáið þér ekki, hvernig alt hefir breyzt? Þá grunaði mig enginn. Þá gat eg verið heima,

þangað til eg kæmist burt. Hvar ætti eg nú að vera?

— Hérna.

— En .... nú varðar hegningu að hýsa mig.

— Viljið þér vera hér kyr og láta mig sjá fyrir öllu .... að svo miklu leyti, sem eg get? Þorsteinn lét fallast í legubekkinn eins og magnþrota.

— Eg skil þetta ekki .... eg skil þetta ekki, sagði hann .... En mikið góðmenni hljótið þér að vera.

Síðar um daginn skýrði Eggert móður sinni nákvæmlega frá því, hvernig ástatt væri um sig og Þorstein. Hann vissi það af æfilangri reynslu, að henni var honum óhætt að segja alt, og hann bað hana um mat handa Þorsteini, sem hann ætlaði sjálfur að færa honum, og um eitthvað ofan á hann, þegar hann sæi sér fært að koma því.

Hún hlustaði á þetta alt saman agndofa.

— Hvers vegna gerirðu þetta, drengur? sagði hún.

— Þú skilur líklegast ekki, mamma, hvað mikið eg kenni í brjósti um hann.

— Heldurðu, að aðrir skilji þig betur? .... Og þetta er maður, sem þú þekkir ekkert! Hann

hefir þó ekki nein tök á þér, þessi .... þessi .... manndrápari? sagði hún hrædd.

Henni datt í hug, hvað það væri voðalegt, ef sonur hennar hefði lent í klónum á stórglæpamanni, sem gæti látið hann gera hvað sem honum sýndist.

— Jú! sagði sonur hennar.

— Eggert!

Hún veinaði af angist.

— Hann hefir þau tökin á mér, sem ógæfan hefir víst venjulega á hugum mannanna. Hún beygir þá saman.

Henni létti aftur fyrir brjósti.

— Engin önnur? spurði hún.

— Nei, engin önnur. Þér er óhætt að reiða þig á það, mamma. En mér finst hann vera eins og bróðir minn, af því að hann er svo mikill ógæfumaður .... Og eg finn, að það er mjög líklegt, að eg hefði getað gert alt það sama og hann, ef eins hefði staðið á um mig.

— Guð almáttugur varðveiti þig, drengur! Finst þér, að þú hefðir getað orðið manndrápari?

— Við erum líklegast öll eins, mamma .... inst inni: Við erum öll guðir í álögum. Eg hefi séð dýrð guðs á lítilmótlegri, gamalli konu.

Honum varð heitt af ákefð, þegar hann mintist á þetta.

— Já, já. Eg veit, að þú hefir séð hitt og annað .... hvað sem það nú er að marka, sagði hún óþolinmóðlega.

Hún var vön að hlusta góðlátlega á frásagnir hans um sýnir sínar og ræða þær við hann. Nú var auðheyrt, að henni þótti svo mikils vert um það, sem þá var að bera syni hennar að höndum, að hún hafði ekki lund til þess að tala um dulræn efni.

Honum féll eitt augnablik allur ketill í eld. Einstæðings-hugsunin greip hann.

— Svo að jafnvel h e n n i má eg ekki segja frá því, sem mér þykir merkilegast og mest áhrif hefir haft á mig! sagði hann við sjálfan sig.

En hann lét það ekki á sig fá og hélt hugsuninni áfram:

— Álögin eru mismunandi. Þú manst, að á sumar kongsdætur var lagt, að þær skyldu verða að tröllskessum, aðrar voru gerðar að dýrum, enn aðrar vitskertar. Eg geri ráð fyrir, að ef álögin væru þau sömu á okkur öllum, þá mundum við haga okkur nokkuð líkt öll.

— En þetta hlýtur að komast upp, sagði móðir hans. Þú ætlar að leggja fram skriflega

játningu frá honum. Þá hlýtur þetta að komast upp.

— Já, eg veit það.

— Hvað heldurðu, að hann faðir þinn segi?

— Eg veit ekki, mamma.

— Þú veizt, að hann er ekki æfinlega ánægður með þig, góði minn. Og allur þinn peningastyrkur er hjá honum, ef eitthvað kynni að verða örðugt.

— Já.

— Og yfirvöldin. Þetta er ólöglegt. Liggur ekki refsing við því að fela mann, sem þú veizt að lögreglan er að leita að?

— Jú. Eg fæ einhverja sekt.

— Og almenningur. Hvað heldurðu, að hann segi? Heldurðu, að hann eigi betra með að skilja þetta en eg á. Mér þykir þó vænt um þig, góði minn. Mig langar til að leggja alt út á bezta veg fyrir þér. Og mér finst þetta uppátæki lítt skiljanlegt. Aðrir leggja það út á versta veg. Hvað heldurðu til dæmis að taka, að Hnikar segi? Hann, sem vill auðsjáanlega gera þér alt til skammar.

— Mér er alveg sama, hvað almenningur og Hnikar segja.

— Og konsúllinn? Og Svanlaug? Ertu ekki í neinum efa um, að Svanlaugu líki þetta?

Jú. Hann *var* í efa um það. En hann svaraði þessu engu.

Móðir hans herti á fortölunum. Hún brýndi fyrir honum, hve viðsjárvert það væri að stofna mannorði sínu í hættu .... að fara að brjóta lögin fyrir glæpamenn .... að egna ef til vildi þá á móti sér, sem honum riði mest á, að væru honum góðviljaðir.

— Eg veit, að þetta er alt satt, sem þú segir, mamma, mælti Eggert stillilega. En fyrst er nú þess að gæta, að eg hefi lofað manninum að hjálpa honum. Finst þér eg geta svikið það og ofurselt hann í hendur lögreglunnar?

Móðir hans kannaðist við, að það væri örðugt, eins og nú væri komið.

— En þú hefðir aldrei átt að leggja út í þessa vitleysu, bætti hún við, gröm og vandræðaleg.

— Jú, það held eg, mamma. Eg held, að eg hafi átt að fara eftir því, sem samvizkan bauð mér. Fyrir einhverja undarlega tilhögun forlaganna hefir þessum manni verið varpað inn í líf mitt. Eg held ekki, að eg hefði átt að sparka honum burt. Eg veit ekki, hver hefir vakið óviðráðanlega samúðaröldu í sál minni. En eg get ekki hugsað mér, að eg hafi átt að berjast við að lægja hana. Mér finst líka, að eg mundi ekki geta gert það fyrir neinn.

— Ekki fyrir Svanlaugu? spurði móðir hans.

— Nei, ekki fyrir neinn. Og eg get ekki heldur hugsað mér, hver ætti að vera betur farinn fyrir það, að þessi maður lenti í hegningarhúsinu. Hann er sjúk sál. Hún læknast ekki með refsingum.

Móðir hans hugsaði sig um nokkura stund. Því næst mælti hún:

— Jæja, elsku drengurinn minn. Eg veit ekki, hvort eg skil þig alveg. Eg veit ekki heldur, hvort það er rétt eða rangt, sem þú ert að gera. En eg þykist skilja það, að þú mundir ekki gera þetta, ef þú værir ekki góður maður .... Heyrðu .... mér finst þú tala einhvern veginn öðruvísi nú en fyrir nokkurum dögum.

— Já, mamma. Það er líklegast. Mér finst eins og sál mín hafa vaknað af svefni.

Nokkurri stundu síðar lagði hann af stað með tösku fulla af matvælum.

Daginn eftir var Hnikar hinn grimmasti við lögregluna. Fregnmiði blaðsins hefði lagt alt upp í hendurnar á henni, og svo hefði hún látið vitneskjuna renna út um greipar sér eins og vatn. Snjólf hefði hún fundið — af því að hann hefði verið svo þolinmóður að bíða eftir henni, þangað til hennar tími hefði verið kom-

inn. Hann hefði staðfest það, sem Hnikar hefði eftir honum haft, en ekki getað frætt lögregluna um neitt frekara. Gamli Runki og Þorsteinn Brandsson hefðu ekki haft jafn-mikla biðlund. Þeir hefðu horfið. Báðir hefðu þeir sést um það leyti, sem fregnmiðinn var að koma út, Gamli Runki við búðina sína, Þorsteinn rétt hjá afgreiðslu Ökuþórs. Auðvitað yrði lögreglan að ná af sér þeirri sneypu, sem hún hefði haft af þessu öllu. Bæjarbúar kröfðust þess, að hún fyndi mennina.

Ökuþór lagðist alveg undir höfuð að minnast nokkuð á málið — lesendunum til mikillar furðu og gremju.

---

## XV

## Til alls vís

---

Nú átti Eggert annríkt nokkura daga.

Auðvitað varð hann að sjá um Ö k u þ ó r. Það var beinlínis kvalræði. Hugurinn var við alt annað. Alt, sem blaðið hafði verið að tala um, fanst honum svo einskisvert, að hann hafði ógeð á því. Og svo mikil óstöðvun var á hug hans, að hann gat ekki brotið upp á nýjum umtalsefnum. Lesendurnir höfðu orð á því, að óvenjulega mikið væri kastað höndunum til blaðsins, og að lengi gæti ilt versnað. Salan á blaðinu var lítil. Og Sölvi gamli var í versta skapi.

Svanlaug mintist á það við hann, að ósköp væri blaðið orðið leiðinlegt.

Hann spurði hana, hvort faðir hennar hefði haft orð á því. Eggert fanst hann vera eini maðurinn, sem hann hefði beyg af. Honum stóð nokkuð á sama, hvað aðrir segðu.

Hún sagði, að einu sinni hefði hann verið að lesa Ö k u þ ó r, og þá hefði hann sagt eins og við sjálfan sig, að hann vissi ekki, hvar þetta ætlaði að lenda. Hún hafði spurt hann, við hvað hann ætti. Hann hafði ekki sagt henni það.

— En hann átti við þig og blaðið, góði minn. Eg sá það á honum, að hann vildi ekki særa mig. Hann er alt af svo ótrúlega góður.

Eggert hlustaði á þetta, en sagði ekkert um það, og beindi talinu í aðra átt. Sannleikurinn var sá, að hann gat ekki hugsað um það, „hvar þetta ætlaði að lenda“. Það var eins og öll umhugsun um að ryðja sér braut í þá átt, sem upphaflega hafði fyrir honum vakað, vekti upp einhverjar skuggalegar vofur illinda og ójafnaðar. og hann vissi ekki, hverja braut hann átti að hugsa sér aðra.

Álfhildur var aðalumhugsunarefnið. Hann kom til hennar á hverjum degi, til þess að hughreysta hana. Hann sagði henni í trúnaði, að hann vissi, hver hefði drepið Þorlák, og að hann skyldi sanna sakleysi Bjarna. En hann sagði, að það gæti leikið á nokkurum dögum, hvenær hann gæti það. Samvizka hans út af því að hafa fyrst komið syni hennar í fangelsi, saklausum, og verða þar á eftir að láta halda honum í fangelsinu, þó að hann hefði fengið sannanir þess, að

hann væri saklaus, var eins og opið sár. Hann reyndi að láta alla þá ástúð koma fram við hana, sem hann fann í sál sinni. Og hún trúði honum. Hún gerði meira en að fyrirgefa honum; henni fanst hann vera einhver engill, sem faðir hennar á himnum hefði sent henni.

Loks var undirbúningurinn undir að koma Þorsteini af stað. Þar varð hann að fara sem varlegast. Málaleitun í þá átt gat komið öllu upp.

En nokkurum nóttum eftir að Þorsteinn hafði sezt að í herberginu út úr skrifstofu Ö k u þ ó r s, var hann ferðbúinn.

Eggert hafði samið við skipstjóra á botnvörpungi um að flytja hann — og þegja um það. Skipið átti að leggja af stað stað þá um nóttina beina leið til Vesturheims. Bátur frá skipinu átti að koma upp að bryggju í Skuggahverfinu kl. 4 og sækja hann.

Þorsteinn stóð fyrir framan spegil í skrifstofu Ö k u þ ó r s og athugaði sjálfan sig. Hann hafði rakað af sér skeggið, var kominn í pils af móður Eggerts, hafði vafið litlu sjali um höfuð sér, og var með stórt sjal á herðunum. Eggert virti hann fyrir sér.

— Þetta er ágætt, sagði hann. Enginn þekkir yður, þó að einhver kynni að mæta okkur .... Nú skulum við leggja af stað.

Þorsteinn þreif dálitinn fataböggul, sem lá þar á stól, og stakk honum undir hönd sér. Eggert slökti ljósið. Þeir héldu fram eftir ganginum og ofan stigann. Þegar þeir komu að útidyrahurðinni, sagði Eggert, að Þorsteinn skyldi hinkra við fyrir innan hurðina augnablik. Sjálfur ætlaði hann að skygnast eftir, hvort nokkur hætta væri á ferðum.

Nóttin var dimm af myrkri og lognkafaldi. Snjókápan lagðist hljóðlega yfir jörðina og slétti úr misfellunum. Eggert létti fyrir brjósti eftir innisetuna. Inni hafði honum verið þungt um nóttina, og honum hafði verið órótt. Nú varð hann glaður og öruggur. Hann sá engan og heyrði ekkert, nema snjókornin, sem féllu á fönnina. Hann benti Þorsteini að koma, og þeir héldu af stað.

Þeir stefndu upp á Arnarhólstúnið og komust heilu og höldnu inn á Lindargötu. Þeir stikuðu stórum, en hlupu ekki, til þess að vekja ekki eftirtekt á sér, ef einhver kynni að sjá þá. Fáeinar mínútur voru líka eftir, þar til er bátsins var von.

En þegar inn á Lindargötu var komið, sáu þeir eitthvað koma á móti sér, líkast mikilli snjókerlingu. Það reyndist vera einn næturvörðurinn.

— Sæl verið þið, sagði lögreglumaðurinn. Þið eruð seint, eða þá snemma, á ferð.

— Sælir, sagði Eggert, og nam ekki staðar. Lögreglumaðurinn sneri sér við.

— Nú .... það er þá ritstjórinn, sagði hann.

— Já, sagði ritstjórinn og hélt áfram. Lögreglumaðurinn hélt á eftir þeim.

— Heyrið þér .... lofið þér mér að tala við yður, sagði hann. Það er bezt að eg verði yður samferða. Þér haldið víst bráðlega heim á leið aftur. Það er dálítið dauflegt að vera einn á ferð núna.

— Haldið þér áfram, kona góð, sagði Eggert við Þorstein. Eg næ yður undir eins.

„Konan" gerði það. Og Eggert sneri sér að lögreglumanninum.

— Þakk' yður fyrir, sagði hann vingjarnlega. Það er ágætt. Má eg ekki bjóða yður vindil?

Lögreglumaðurinn þakkaði fyrir gott boð.

Ritstjórinn var lengi að finna vindilinn. Loksins dró hann vindil upp úr vasa, sem hann hafði margleitað í áður.

— Eg hefi sjálfur eld, sagði lögreglumaðurinn, og var fljótur að kveikja í vindlinum.

— Heyrið þér .... hvaða kona er með yður? sagði hann, þegar eldur var kominn í vindilinn.

Og um leið og hann sagði það, ætlaði hann að leggja af stað á eftir „konunni“.

Ritstjórinn stóð grafkyr.

— Ó, það er kona hérna innan að, sagði hann, Hún á heima hérna inst inni á Hverfisgötu skamt hérna fyrir ofan .... Viljið þér gera svo vel að bíða eftir mér, meðan eg kveiki sjálfur í vindli?

— Eg held, að hún sé að snúa af götunni ofan að sjónum .... Já, sem eg er lifandi maður! ....Hvaða erindi á hún þangað? Ætli hún sé að villast?

— Nei, anza kornið.

— Voruð þér ekki að fylgja henni?

— Ó-jú.

— Nú .... ætlið þér þá ekki að ná henni?

— Ekki held eg það. Henni er óhætt héðan af. Hún skilar sér. Eg held eg snúi nú við.

Í sama bili skaut grunsemdaröldu upp í hug lögreglumannsins.

— Jæja. Þér ráðið því. Eg ætla að finna hana.

Og hann þrammaði af stað.

Heyrið þér, lögreglumaður .... viljið þér ekki gera svo vel og lofa mér að kveikja í við vindilinn yðar? Eða gefa mér eina eldspýtu?

Lögreglumaðurinn rétti honum vindilinn. En

hann özlaði áfram gegn um fönnina, eins og hann hirti ekkert um að fá vindilinn aftur.

Eggert fleygði báðum vindlunum út í fönnina. Hann sá, að lögreglumaðurinn ætlaði ekki að láta tefja sig lengur. Gunnreifur bardagahugur kom upp í honum.

Hann komst fram fyrir lögreglumanninn, sneri sér að honum og sagði einbeittlega:

— Hvað er þetta maður? Hvers vegna látið þér svona? Hvers vegna farið þér að eltast við þessa konu? Eg veit um erindi hennar. Er hún ekki frjáls manneskja?

— Það veit eg ekki, sagði lögreglumaðurinn. Það efast eg um. Ef hún er það, þá gerir henni ekkert til, þó að eg finni hana. Farið þér frá, maður, og verið þér ekki að þvælast fyrir mér. Annars hafið þér verra af.

En Eggert hélt áfram að þvælast fyrir honum.

— Skiljið þér það ekki, sagði hann, að konan getur átt löglegt erindi, og kærir sig samt ekki um að hafa lögregluna fyrir votta að því .... hvort sem það er nú ástamál eða eitthvað annað?

— Mig varðar ekkert um það. Eg er ekkert hræddur við yður. Þér getið skammað mig í blaðinu yðar, eins og þér viljið, fyrir að gera skyldu mína. Eg hefi mínar skipanir. Eg e r að gera mína skyldu. Og ef þér snautið nú ekki

þurt, þá getur það orðið yður dýrt, þó að þér þykist mikill.

Viðureignin var nú orðin að stimpingum. En í þeim stimpingum hlustaði Eggert af öllum lífs og sálar mætti. Þeir voru beint upp undan bryggjunni. En ekkert sást fyrir kafaldinu. Hann heyrði mannamál og áraglamm. Hann þóttist heyra, að það væri rétt fyrir framan landsteinana. Ofurlitla stund varð hann enn að tefja fyrir lögreglumanninum .... hvað sem það kostaði. Og meðan á þessu stóð, þótti honum gaman að því. Hann þvældist enn fyrir.

Lögregluma ðurinn var sýnilega seinþreyttur til vandræða. Hann var óbreyttur, meinlaus alþýðumaður og nýkominn í stöðuna. Og þó að hann hefði talað afdráttarlaust, hafði hann ekki verið algerlega sannfærður um, að óhugsandi væri, að hann kynni að vera að gera einhverja vitleysu.

En nú var honum farið að renna í skap. Hann stakk annari hendinni inn undir kápuna og náði í kylfuna. Hann ætlaði högginu utan á handlegginn. Eggert sá, hvað var að gerast, og vék sér undan. Höggið kom utan á vangann á honum.

Við þennan rokna-snoppung gleymdi Eggert allri varkárni — gleymdi öllu öðru en því, að hann var í áflogum, að hann ætlaði ekki að

láta fara með sig eins og hund, að hann varð að vinna sigur. Hann flaug á lögreglumanninn, tók hann glímutökum og skelti honum á hælkrók. En lögreglumaðurinn hélt fast í hann, svo að Eggert skall ofan á hann. Lögreglumaðurinn tók að brjótast um. En Eggert slepti ekki tökum á honum. Stundum var hann ofan á, stundum undir. Þeir veltust þarna í fönninni góða stund.

Í þessum ryskingum hafði Eggert ekkert um það hugsað, hvers vegna hann var að fljúgast á við manninn. Bardagahugurinn bældi alt annað undir sig. En þegar viðureignin var orðin nokkuð löng, lágu þeir nokkur augnablik kyrrir og köstuðu mæðinni. Þau augnablik var Eggert ofan á. Þá heyrði hann aftur mannamál og áraglamm. Hann mintist þess nú, í hverjum erindum hann var. Og hann þóttist þess fullvís, að nú væri Þorsteinn kominn út á sjóinn.

Hann slepti tökum á lögreglumanninum, fékk slitið sig af honum og stóð upp. Lögreglumaðurinn brölti líka á fætur. Hann þreif til kylfunnar og ætlaði að berja Eggert.

— Þér þurfið ekki að berja mig, sagði Eggert. Eg ætla ekki að tefja neitt meira fyrir yður.

— Eruð þér fullur eða brjálaður? sagði lögreglumaðurinn.

— Nei, hvorugt.

— Þá eruð þér fantur, skal eg segja yður .... haldið þér ekki, að þetta hafi einhverjar afleiðingar fyrir yður?

— Jú. Eg ætla að taka þeim.

— Þér fáið áreiðanlega að kenna á þeim, hvort sem þér æ t l i ð það eða ekki.

Lögreglumaðurinn var hinn reiðasti. En nú kom honum til hugar konan, sem hann hafði ætlað að ná í. Þeir þutu báðir ofan á bryggjuna.

Þar var enginn maður.

— Hvað er þetta? sagði lögreglumaðurinn. Hann tók einhverja snjóuga flyksu upp af bryggjunni. Eggert leit á hana og þekti þar sjal móður sinnar.

— Hann hefir viljað skila aftur sjalinu, sagði Eggert við sjálfan sig. Eða ætlað að sýna mér með þessu, að hann hafi sloppið.

— Er þetta sjalið af konunni, sem þér voruð með? spurði lögreglumaðurinn.

— Já.

— Hefir hún drekt sér?

— Eg vona ekki.

Lögreglumaðurinn var alveg æfur.

— Mig varðar ekkert um, hvað þér v o n i ð, sagði hann harkalega. Voruð þér að hjálpa henni

til að drepa sig? Eruð þér líka hálfgildings manndrápari?

— Nei.

— Þér eruð til alls vís. Eg ætti nú að geta borið um það eftir nóttina þá arna .... Voruð þér þá að koma henni undan?

— Undan hverju?

— Það veit eg ekki. Þér eruð til alls vís.

— Eg ætla að fara til bæjarfógetans og segja honum greinilega frá þessu, þegar hann kemur á fætur.

— Þér ætlið? Ætli það geri ekki nokkuð lítið til, hvað þér ætlið? Ætli það verði ekki einhverjir til þess að fara með yður til hans, karl minn?

— Jæja. Þá það.

Lögreglumaðurinn hrökk saman við nýja hugsun.

— Heyrið þér .... var þetta kvenmaður?

— Þér sáuð það víst sjálfur.

— Það hefir þó ekki verið Þorsteinn Brandsson? Þér eruð svo sem til alls vís.

— Eg segi bæjarfógetanum, hver þetta var,

— Var það Þorsteinn?

Og hann þreif í Eggert í ofboði og tók að hrista hann.

— Verið þér nú rólegur, sagði Eggert góðlátlega.

Lögreglumaðurinn hætti að hrista hann.

— Já, hafi það verið Þorsteinn Brandsson, þá eigið þér skilið að fá tukthús. Okkur var sérstaklega skipað að líta eftir honum.

Hann barði saman hnefunum af vonzku.

— Eg get mist stöðuna fyrir þetta, bætti hann við.

— Nei, þér missið ekki stöðuna, sagði Eggert. Þér gerðuð alt, sem þér gátuð. Það skal eg bera.

Hann fór ofan í vasa sinn og rétti tvo seðla að lögreglumanninum.

— Stingið þér þessu á yður. Eg hefi ekki meira á mér.

— Ætlið þér svo að reyna að múta mér líka, svaraði lögreglumaðurinn .... Já, þér eruð til alls vís.

— Nei, eg ætla ekki að múta yður. Eg ætlast ekki til neins af yður. En eg finn til þess, að hvort sem það er rétt eða rangt, sem eg hefi gert, þá hafið þér orðið fyrir ómaklegri meðferð, alsaklaus, fyrir ekkert annað en að gera það, sem þér tölduð skyldu yðar. Yður er alveg óhætt að taka við þessu. Það fer ekki fleirum á milli en okkar.

— Nei. Eg tek ekki við neinum peningum

af yður. Eg vil ekkert annað, sem yður kemur við, en að sjá á eftir yður inn í steininn.

Þeir urðu samferða inn í bæinn. Eggert reyndi við og við að yrða á förunaut sinn, en fékk engin svör. Við og við tautaði lögreglumaðurinn fyrir munni sér:

— Já, hann er vís til alls, pilturinn sá arna.

Lögreglumaðurinn horfði á eftir Eggert inn í hús foreldra hans.

— Það er ekki alveg víst, að þú verðir látinn sofa allan daginn, karl minn, sagði hann hróðugur, um leið og Eggert lét aftur forstofuhurðina.

---

## XVI
## Hjá bæjarfógeta

Eggert sofnaði fljótt, örþreyttur eftir vökuna og áreynsluna. Honum fanst hann vera nýsofnaður, þegar hann sá föður sinn standa uppi yfir sér, svipþungan og órólegan.

— Það er svo að sjá, sem þú hafir verið nokkuð þarfur í nótt, sagði Sölvi gamli. Hingað eru komnir tveir lögregluþjónar, til þess að sækja þig.

Eggert vatt sér fram úr rúminu, og tók að klæða sig í snatri.

— Hvað hefir komið fyrir? spurði Sölvi.

— Eg geri ráð fyrir, að þetta sé út úr því, að einn næturvörðurinn varð missáttur við mig í nótt.

Sölvi hafði fengið sér sæti. Nú tókst hann á loft.

— Hvað? Næturvörður? Ertu farinn að fljúg-

ast á við lögreglumennina? Ertu svo djúpt sokkinn? Margt kemur nú fyrir! .... Varstu fullur?

— Nei.

— Nei? Þó ekki það? .... Hvað varð ykkur þá að missætti?

— Hann vildi ná í mann, sem eg var með.

— Nú? .... Og hvað varstu að vilja með þann mann?

— Eg var að sjá um, að hann kæmist út í skip.

— En lögreglumaðurinn vildi ná honum?

— Já.

— Og hvað hafði maðurinn þá gert?

Eggert hikaði nokkuð við svarið. En eftir andartaksþögn sagði hann:

— Það var nú ekki gott, pabbi .... Hann hafði drepið mann.

Sölvi gamli lét fallast aftur á bak í stólinn og glápti á son sinn, orðlaus og yfirkominn af skelfingu.

Eggert sárkendi í brjósti um hann.

— Eg geri ekki ráð fyrir, að eg fái tíma til þess að gera þér nákvæma grein fyrir þessu nú, mælti hann. En þér er óhætt að trúa því, pabbi, að eg hefi ekkert gert annað en það, sem samvizkan bauð mér.

Nú rauk Sölvi upp af stólnum, vondur.

— Samvizkan! sagði hann æstur og með römmustu fyrirlitning í málrómnum .... Samvizkan! .... Svo að samvizkan býður þér að ganga í lið með glæpamönnum og gera sjálfum þér og foreldrum þínum smán! .... Ætli það sé ekki nokkuð lítið gagn að samvizkunni, þegar yfirvöldin segja, að það sé glæpur, sem verið er að gera?

Í þessu bili var barið á svefnherbergishurðina og annar lögreglumaðurinn stakk inn höfðinu.

— Er ritstjórinn ekki bráðum til? sagði hann. Við getum ekki vel beðið lengur.

— Jú, nú kem eg, sagði Eggert, og kom fram í dyrnar.

Þá kom Sigríður upp stigann, og var nokkur asi á henni.

— Hvað er þetta? sagði hún. Hvað eru þessir lögreglumenn að vilja hingað? Er verið að stefna nokkurum?

— Þeir eru bara að sækja hann son þinn, sagði Sölvi með ýskrandi vonzku.

Hann starði á konu sína, átti auðsjáanlega von á því, að hún segði eitthvað. En hún sagði ekkert. Hún fór ofan í vasa sinn, tók þar upp klút og þurkaði sér um augun. Þá gekk hún að syni sínum og kysti hann. Því næst lagði hún af stað ofan stigann aftur, niðurlút.

Sölvi fór geyst á eftir henni.

— Veiztu fyrir hvað? sagði hann.

Hún svaraði engu, en hélt áfram.

— Þú hefir þó ekki verið í ráðum með honum? Þú hefir æfinlega mælt alt eftir honum, sagði hann enn æstari.

Þá sneri hún sér við, með tárin í augunum, en einbeitt samt.

— Jú, víst hefi eg verið í ráðum með honum, sagði hún.

Þau hurfu, hjónin, inn í eina stofuna.

Lögreglumennirnir þrömmuðu af stað ofan í bæinn, með Eggert á milli sín. Það vakti sýnilega athygli manna á götunni, þó að þeir leiddu hann ekki, né létu það með neinum öðrum hætti sjást, að þeir væru að sækja hann. Flestir sneru sér við, til þess að horfa á eftir þeim.

Þegar þeir komu fram hjá skrifstofu Ökuþórs, bað Eggert þá að lofa sér að skjótast upp í skrifstofuna, til þess að ná þar skjali. Lögreglumönnunum varð orðfall, og þeir litu hvor á annan.

— Skjalið kemur mikið við því erindi, sem bæjarfógetinn á við mig, sagði Eggert .... Og þið getið komið báðir með, ef þið eruð hræddir um að missa af mér.

— Ætli það sé ekki óhætt? sagði annar lögregluþjónninn við embættisbróður sinn.

— Jú-ú. Ætli það sé ekki? sagði hinn.

En það var nokkuð dræmt í þeim hljóðið.

— Eg skal segja yður hreinskilnislega, sagði sá lögreglumaðurinn, er fyr hafði tekið til máls, að maðurinn, sem þér áttuð við í nótt, varaði okkur við því að gefa yður mikið lausan tauminn, af því að þér væruð til alls vís. En ef þér viljið lofa okkur því að vera ekki með neinn mótþróa, þá ætlum við að hætta á það að gera þetta fyrir yður.

Eggert lofaði því. En honum lá við að fara að skellihlæja. Honum fanst það svo skringilegt, að alt í einu væri farið að líta á sig sem þann háskagrip, er væri mjög viðsjárverður, þó að tveir lögreglumenn væru viðstaddir, til þess að gæta hans.

Þeir urðu allir samferða upp í skrifstofuna. Eggert lauk þar upp járnskáp, tók skjal út úr honum og stakk því á sig. Þegar þeir komu aftur niður á strætið, var þar kominn mannsöfnuður, sem hélt á eftir þeim að húsi bæjarfógetans.

Bæjarfógeti var í skrifstofu sinni, þegar þeir komu þangað inn. Athygli Eggerts var með næmasta móti, af því að aldrei hafði verið svo

ástatt um hann sem nú. Hann tók eftir því, að bæjarfógeti tók kveðju hans fremur fálega. Þeir voru þó málkunnugir, og bæjarfógeti hafði jafnan vikið að honum alúðlega. Honum var vísað til sætis á stól beint á móti bæjarfógeta, við skrifborð hans. Næturvörðurinn, sem Eggert hafði átt við um nóttina, var kallaður inn. Lögreglumönnunum, sem sótt höfðu Eggert, sagði bæjarfógeti að vera viðstöddum sem vitnum. Því næst var réttur settur og Eggert ámintur um sannsögli.

Bæjarfógeti sagði, að næturvörðurinn hefði kært það, að Eggert hefði ráðist á sig með ofbeldi síðustu nótt. Nú vildi hann skora á ritstjórann að gera þess grein, hvað þeim hefði á milli farið.

Eggert sagði söguna, frá því er þeir fundust á Lindargötu, svo greinilega sem hann mundi hana, nema hvað hann slepti tilboðinu um peningana.

Næturvörðurinn var þá ámintur um sannsögli og látinn segja sína sögu. Hún var það fyllri, að hann sagði frá peninga-tilboðinu. Að öðru leyti bar þeim sæmilega saman.

— Kannist þér við að hafa boðið honum peninga? spurði bæjarfógeti Eggert.

Eggert játaði því.

Í hverju skyni skildist yður, að yður væru boðnir þessir peningar? spurði bæjarfógeti næturvörðinn.

— Mér skildist svo, sem hann ætlaði að múta mér til þess að þegja.

— Af hverju ráðið þér það?

— Mér fanst ekki hann taka sér það neitt nærri að fljúga á mig og slengja mér niður og hrekja mig og meiða mig, eftir því sem hann hafði orku á. Eg gat ekki vel hugsað mér, eftir því sem hann hafði hagað sér, að hann væri friðlaus eftir því að bæta fyrir þ a ð. Hitt gat eg skilið, að hann vildi sletta í mig nokkurum krónum, til þess að fá mig til að sættast og þegja um þetta alt.

Bæjarfógeti spurði Eggert, hvað hann vildi sjálfur um þetta segja.

Eggert skýrði hvatir sínar á sömu leið eins og hann hafði skýrt þær fyrir næturverðinum um nóttina.

Bæjarfógeti hafði bókað ummælin jafnóðum. Þegar hann hafði lokið við að bóka síðustu ummæli Eggerts, sagði hann við hann:

— Hver var þessi kona, sem var með yður í nótt?

— Það var ekki kona, svaraði Eggert. Það var karlmaður, sem heitir Þorsteinn Brandsson.

Lögreglumennirnir hrukku ofurlítið við, og litu hver á annan. Næturvörðurinn kinkaði hróðugur kolli framan í hina. Bæjarfógeti var ýmsu vanur, og lét sér ekki bregða. Hann fór hægt og stillilega að öllu, og skrifaði ekkert hraðara en hann var vanur. Lögreglumennirnir biðu með óþreyju eftir næstu spurningunni.

— Og hvert ætluðuð þið Þorsteinn Brandsson? spurði bæjarfógeti jafn-rólega, eins og hann hefði verið að spyrja, hvernig veðrið hefði verið einhvern daginn í fyrra.

— Þorsteinn var á leiðinni út í botnvörpung, sem átti að fara héðan í nótt, og hefir vonandi farið. Eg var að fylgja honum. Hann hefir verið hjá mér síðan farið var að leita að honum. Hann var inni hjá mér, þegar lögreglumaðurinn kom inn til mín í skrifstofuna og spurði mig um hann.

— Þér hafið þá skrökvað að lögreglumanninum?

— Já.

— Hvers vegna gerðuð þér það? Og hvers vegna voruð þér að geyma hann?

— Af því að þið voruð að leita að honum.

— Hvers vegna máttum við ekki finna hann?

— Af því að það er hann, sem varð Þorláki að bana.

Lögreglumennirnir störðu svo fast á Eggert, að þeir gleymdu að líta hver á annan. Jafnvel bæjarfógeti brýndi röddina dálítið.

— Hvernig vitið þér það? spurði hann.

Eggert svaraði með því að draga upp úr vasa sínum skjalið, sem hann hafði sótt inn í skápinn í skrifstofu sinni á leiðinni þangað, og rétti það bæjarfógeta.

— Ætlist þér til þess að eg lesi þetta nú? spurði bæjarfógeti.

Eggert játaði því.

Bæjarfógeti las skjalið vandlega í hljóði — lögreglumönnunum til mikillar gremju. Það var skýr og skilmerkileg frásögn um það, hvernig víg Þorláks hefði gerst, og afdráttarlaus yfirlýsing um það, að Bjarni hefði ekkert verið við það riðinn.

— Hvaða sönnur færið þér á það, að Þorsteinn hafi í raun og veru skrifað þetta? spurði bæjarfógeti. Hér eru engir vitundarvottar.

— Eg get sannað það með öðrum skrifum, brjefum frá honum, að þetta er hans hönd. Þau bréf á konan hans. Og eg get unnið eið að því, að hann skrifaði þetta að mér ásjáandi.

— Hver átti kvenfötin, sem Þorsteinn var í? spurði bæjarfógeti. Átti konan hans þau?

— Nei.

Bæjarfógeti horfði á hann og beið eftir nákvæmara svari.

— Eg útvegaði þau.

— Já, eg skil það. En hjá hverjum? Ekki eigið þér kvenföt.

Eggert gat reyndar ekki hugsað sér, að það væri neitt saknæmt, að móðir hans hefði lánað honum fötin. En hann gat ekki með nokkuru móti fengið af sér að nefna hana í sambandi við þetta mál.

— Mér finst ekki það koma málinu við, sagði hann.

— Eg er ekki að spyrja um, hvað yður finst, sagði bæjarfógeti, og var hvassari í máli en hann hafði verið. Það er mitt verk að segja um það. En yður er langhollast að vera hreinskilinn við mig, og segja mér afdráttarlaust, hvernig í þessu liggur.

Eggert þagði.

— Hver átti þá fötin?

— Eg segi það ekki, sagði Eggert.

— Jæja .... þér ráðið því .... og eruð þá auðvitað þess albúinn að taka afleiðingunum af því, hverjar sem þær kunna að verða.

— Já.

— Hvernig stóð á því, að þér fóruð að taka

Þorstein Brandsson svona ósleitilega undir yðar verndarvæng?

— Eg get ekki gert aðra grein fyrir því, en eg kendi svo mikið í brjósti um hann.

— Höfðuð þér þekt hann lengi?

— Nei.

— Hvað lengi?

— Eg hafði ekki séð hann, svo að eg þekti hann, fyr en daginn, sem fregnmiðinn frá Hnikari kom út, sá sem vakti athyglina á Þorsteini.

— Þektuð þér þá nokkura nákomna honum?

— Nei.

— Svo að fyrir al-ókunnugan mann, sem yður kom ekkert við, hafið þér lagt út í það að fela hann marga daga fyrir okkur, útvega honum far í laumi burt af landinu og berjast við lögreglumanninn, sem átti að taka hann fastan?

— Já.

— Og það var af engu öðru en brjóstgæðum, að þér hafið tekið svona að yður manndrápara, sem þér höfðuð aldrei séð, fyr en daginn, sem þér fóruð að fela hann?

Eggert hugsaði sig um dálitla stund.

— Ekki get eg sagt, að það sé alveg rétt, mælti hann því næst. Það er að vísu satt, að eg hefði ekki getað stuðlað að því með neinu móti,

að hörð lagarefsing bættist við þær þjáningar, sem hann hefir liðið um mörg ár. En inn í það ófst líka það, að saklaus maður hafði verið tekinn fastur; og það hafði verið að miklu leyti mér að kenna. Mig langaði til að greiða úr þessari flækju. Mig grunaði, að Þorsteinn hefði framið verkið .... eða réttara sagt, eg var sannfærður um það, þó að eg gæti ekki sannað það. Eg gat ekki farið fram á það, að hann gæfi mér játningu, nema eg hjálpaði honum þá að mínu leyti.

— Yður grunaði, eða réttara sagt, þér voruð sannfærður um, að Þorsteinn hefði framið verkið, segið þér? Af hverju voruð þér sannfærður um það?

Eggert fann samstundis, að hann hafði oftalað sig í einlægni. Sannfæring hans um, að Þorsteinn væri sekur, hafði ekki verið á neinu öðru reist en duláráhrifum. Ekki gat hann farið að gera bæjarfógeta grein þeirra. Honum hefði ekki verið trúað; og hann hefði orðið að athlægi. Honum varð nokkuð lengi orðfall.

Bæjarfógeti tók spurninguna upp aftur.

— Eg get ekki skýrt fyrir yður, hvernig eg fékk þá sannfæring.

— Einmitt það! sagði bæjarfógeti hægur, en dálítið háðslegur. Hefir yður ekki hugkvæmst,

að þessi frásögn yðar sé öll nokkuð ólíkleg?

— Nei, eg hefi ekki hugsað um málið frá þeirri hlið.

— Nei? .... Og þér hafið ef til vill ekki heldur athugað það, að þér hafið nú tvívegis færst undan að svara því, sem eg hefi spurt yður um?

— Jú, eg veit það, sagði Eggert.

— Framburður yðar er alls ekki fullnægjandi. Eg áminni yður um það að vera sem hreinskilnastur við mig og segja mér alt sem nákvæmast. Það getur komið yður sjálfum hjá miklum óþægindum, sagði bæjarfógeti alvarlega.

Eggert kvaðst ekki minnast neins, sem hann gæti við þetta bætt.

— Þá verð eg að láta yður vita, að eg tel skyldu mína að hafa yður í gæzluvarðhaldi fyrst um sinn.

Næturvörðurinn brosti, sýnilega ánægður. Og Eggert tók þessu rólega. Sannleikurinn var sá, að hann gerði sér þessa ekki fulla grein í svipinn. Hugur hans var fullur af æsku. Meðvitundin um það, að hann hefði unnið sigur — að nú hlyti Bjarna að verða slept þá um daginn, og að hann hefði komið Þorsteini undan — var svo fyrirferðarmikil, að annað komst ekki að.

Og helzt fanst honum það broslegt, að bæjarfógeti hugsaði sér að hafa eitthvað upp úr honum með varðhaldi.

Bæjarfógeti lauk við réttarhaldsbókunina og las hana upphátt. Allir skrifuðu undir.

Þá lögðu lögregluþjónarnir af stað með Eggert upp í steininn.

Hnikar kom síðar út þennan daginn en hann var vanur. Útkoma hans var látin dragast, þar til er blaðið gat náð í nýjustu fregnirnar af manndrápsmálinu nokkuð nákvæmar. Það sagði þær með meinfúsri vandlætingar-alvöru. Fyrirsagnir voru auðvitað gífurlega feitar:

**Morðinginn fundinn —**
**og týndur aftur.**

**Heitir Þorsteinn Brandsson.**

**Eggert Sölvason, ritstjóri Ökuþórs,**
**tekinn fastur.**

Blaðið sagði frá atvikum, eftir því, sem því var kunnugt um þau.

Merkilegasta atriðið, sem enn hefði komist upp í málinu, væri það, að Þorsteinn Brandsson járnsmiður hefði játað á sig skriflega að hafa drepið Þorlák Grímsson. En fyrir óvenju-

lega undarleg afskifti nafnkends manns í höfuðstaðnum hefði lögreglan mist morðingjann úr greipum sér.

„Ritstjóri vors háttvirta samtíðarblaðs", Ökuþórs, hefði falið morðingjann fyrir lögreglunni nokkura daga, og síðastliðna nótt komið honum út í skip í fötum einhverrar kvensu, sem hann hefði reynst ófáanlegur til að nafngreina. Skipið hefði lagt af stað með morðingjann til Vesturheims, samstundis er hann var út í það kominn.

Á leiðinni að bátnum, sem sótt hafi morðingjann, hefði ritstjóranum lent saman við næturvörðinn Ófeig Ólafsson. Sá lögreglumaður hefði ætlað sér að taka morðingjann höndum. En ritstjórinn, sem hljóti að vera vanur handalögmáli, hefði þá flogið á hann, flogist lengi á við hann, fleygt honum niður og leikið hann hart. Að viðureigninni lokinni hefði hann gert tilraun til þess að múta lögreglumanninum til þess að þegja um þetta alt saman.

Í morgun hefði ritstjórinn verið leiddur fyrir rétt. Þar hefði hann lagt fram játningu þá frá Þorsteini Brandssyni, sem áður hefði verið um getið. Hann hefði þar kannast við, að hann hefði falið morðingjann, en haldið því fram í sömu andránni, að hann hafi aldrei séð hann,

fyr en daginn, sem hann fór að fela hann. Hann hefði kannast við það, í hverjum erindum hann hefði verið um nóttina. Sömuleiðis hefði hann kannast við það, að hann hefði barið á næturverðinum, og að hann hefði boðið honum peninga á eftir.

Að réttarhaldinu afstöðnu hefði ritstjórinn verið settur í gæzluvarðhald.

Frá öllu þessu var skýrt í miklu lengra og fjörugra máli en hér. Samt var ekki minna vert um athugasemdir blaðsins við frásögnina.

Fyrst var harður dómur um það, hvernig lögreglan hefði fram að þessu staðið sig í málinu. Að jafnaði svarar hún engu, þó að gjörðir hennar séu víttar, og fyrir því eru þær hentugt áreiluefni.

Eini ljósdepillinn í atferli lögreglunnar sagði blaðið, að hefði verið frammistaða næturvarðarins Ófeigs Ólafssonar. Hann hefði ekki látið múta sér. Hann hefði sýnt sig sem heiðarlegan mann, þegar viðsjáll maður hefði reynt að leiða hann í mikla freistni, bláfátækan. Það ættu höfuðstaðarbúar að muna honum.

Að öðru leyti hefði lögreglan gert afglöpin ein. Aldrei hefði hún neitt vitað, annað en það, sem í hana hefði verið látið. Stundum hefði það verið vit, stundum vitleysa. Og þó að hún hefði

fengið laukréttar leiðbeiningar, þá hefði hún ekki haft manndáð í sér til þess að færa sér þær í nyt.

Fyrst hefði hún látið ritstjóra Ö k u þ ó r s ginna sig til þess að taka fastan saklausan mann, og halda honum lengi í varðhaldi. Síðar hefði H n i k a r sama sem vísað henni á morðingjann. Þá hafði hún látið hann ganga úr greipum sér fyrir alveg einstaka handvömm. Lögreglumaður hefði leitað að honum í skrifstofu Ö k u-þ ó r s. En honum hefði ekki hugkvæmst að líta inn í öll herbergin. Á þeirri stund hefði Þorsteinn verið í herbergi inn af skrifstofu ritstjórans. Loks hefði lögreglan ekki gætt betur en þetta að þeim mönnum, sem út í skipin færu.

Viðsjárverðasta atriðið væri þó afstaða Eggerts Sölvasonar til þessa máls.

Hvernig stóð á því, að hann gerði alt þetta? Hvað hafði þeim á milli farið, Þorsteini og honum? Auðvitað tryði enginn heilvita maður því, að þeir hefðu ekkert þekst áður. Sjálfur hefði ritstjórinn sagt fyrir réttinum, að hann hefði verið sannfærður um, að Þorsteinn hefði drepið manninn, áður en hann játaði það. Hvaðan var sú sannfæring komin? Og hvers vegna var hann ófáanlegur til þess að segja, hvernig hún hefði komið?

Alvarlegasta spurningin væri samt þessi: Hafði Eggert Sölvason haft þessa sannfæringu frá byrjun? Hafði hann haft hana, þegar hann leiddi lögregluna út á glapstigu og ginti hana til þess að taka Bjarna fastan? Hann var maðurinn, sem fyrstur sagði til líksins. Vissi hann þá, hvernig atburðurinn hafði gerst? Ef hann vissi það ekki þá, hvernig gat hann þá fengið þessa sannfæringu síðar?

Að lokum var hnýtt fast að því, hve óumræðileg hætta bæjarfélaginu og þjóðfélaginu öllu stafaði af því, ef nú væri ekki tekið röggsamlega í taumana. Þess yrði að krefjast af lögreglunni, að hún kæmist með vissu fyrir það, hvernig í þessu flókna og ísjárverða máli lægi, hverir sem í hlut kynnu að eiga.

Blaðið seldist í mörgum þúsundum eintaka — enn fleiri en Ö k u þ ó r, þegar hann sagði fyrst frá morðinu. Greinin vakti gífurlegar getgátur og hryllilegar grunsemdir.

Þeir, sem næmastir voru á blaðamensku-áhrif, hvísluðu lágt að vinum sínum spurningunni:

— Heldurðu, að það sé hann Eggert Sölvason, sem hefir drepið hann Þorlák?

---

## XVII

## Í fangelsi

Í dyrunum á hegningarhúsinu mætti Eggert Bjarna. Bæjarfógeti hafði auðsjáanlega símað upp eftir, að honum skyldi tafarlaust slept.

Eggert lá við að hlæja af kæti. Sigur hafði hann unnið, hvað sem þeir sögðu. Áhyggjur út af sjálfum honum voru engar komnar. Honum fanst þetta helzt eins og eitthvert æfintýri, sem gaman yrði að hugsa um og tala um á eftir.

Hann hafði aldrei séð fangaklefa. Þegar farið var með hann inn hegningarhúss-ganginn, lék honum forvitni á því, hvernig umhorfs mundi vera í þessari bráðabirgða-vistarveru hans. Og þegar hann kom inn, og sá rúmfletið, litla borðið, fest í vegginn, föstu smábekkina, annan til hliðar við borðið, við vegginn, hinn fyrir framan það, matarhillurnar í einu horninu, gluggann uppi undir loftinu .... og ekkert annað, nema

auða, hálfræksnislega veggina .... þá fanst honum þetta nýtt og hugnæmt og skringilegt.

Fangavörðurinn hafði tekið við honum í ganginum. Hann leit á Eggert hálfgerðum forvitni- og hálfgerðum meðaumkunar-augum. Það hafði sjaldan eða aldrei komið fyrir, að hann fengi svo vel búna og virðulega leigjendur.

— Eg held yður leiðist nú, sagði fangavörðurinn vingjarnlega, þegar inn var komið í klefann. Ef til vill langar yður til þess að líta í bók?

Já, Eggert þótti æskilegt að fá bók.

— Getið þér lánað mér einhvern róman? spurði hann. Þá væri hótellið alveg fyrirtak.

Og hann leit kringum sig brosandi.

Fangavörðurinn brosti líka.

— Nei. Rómana höfum við ekki. En eg get lánað yður Nýjatestamenti eða sálmabók.

— Nú, jæja .... Ekki væri neinu spilt, þó að Nýjatestamenti væri hjá mér.

Fangavörðurinn fór út .... og læsti dyrunum. Eftir litla stund kom hann aftur inn, færði Eggert bókina, fór út .... og læsti.

Eggert gretti sig. Þessar læsingar komu dálítið við taugar hans.

— En það er auðvitað skylda hans, sagði hann við sjálfan sig. .... Og hvað gerir það til? Eg ætla, hvort sem er, ekki að strjúka.

Hann gekk um gólf dálitla stund. Þá fór hann að linast allur og finna til þreytu eftir svefnleysið og áreynsluna. Svo að hann lagðist upp í fletið og sofnaði.

Hann vaknaði við það, að faðir hans stóð uppi yfir honum, spratt upp úr rúminu og heilsaði honum.

— Eg fékk leyfi bæjarfógeta til þess að finna þig, sagði Sölvi. Nú er svo komið, að eg má ekki tala við þig, nema með yfirvalds-leyfi. Það er eins og þú hafir komið ár þinni fremur laglega fyrir borð!

Honum var auðheyrt þungt niðri fyrir.

— Þú mátt ekki taka þér þetta mjög nærri, pabbi, sagði Eggert svo góðlátlega sem hann gat. Það lagast alt saman.

Sölvi vék við umtalsefninu. Hann fór ofan í vasa sína og sótti þangað böggul og tvær flöskur. Í böglinum reyndist vera smurt brauð, með ýmsu sælgæti ofan á. Í flöskunum var mjólk og kaffi.

— Mamma þín sendir þér þetta, sagði Sölvi. Hún hélt, að þér kynni að bregða við matarhæfið, þegar þú værir kominn .... í fangelsi.

Rödd hans var hás og loðin — ekki ólík því sem grátstafur mundi vera einhverstaðar niðri fyrir.

— Þakk' ykkur ástsamlega fyrir, báðum, sagði Eggert.

— Mamma þín vildi fara með þetta sjálf, sagði Sölvi, og þagnaði þá.

Eggert datt í hug, að hann hefði heldur viljað fá hana sem gest.

Það var eins og Sölvi hefði lesið þá hugsun hans.

— Eg aftók það, sagði hann. Eg hélt, að það væri ekki holt fyrir hana að sjá þig í þessum húsakynnum.

— Það hefir sjálfsagt verið rétt, pabbi, sagði Eggert.

En hann fékk sting í hjartað.

— Finst þér rétt af þér að gera henni þetta? spurði faðir hans.

— Mig tekur það sárt, ef þið takið ykkur þetta nærri. En mér fanst eg ekki gera annað en það, sem var rétt. .... Og sama finst mér enn.

— Rétt! sagði Sölvi með beiskum fyrirlitningarkeim í röddinni. Ætli það hafi ekki verið rétt þó! Viltu sjá, hvað verið er að segja um þig á prenti?

Hann dró Hnikar upp úr vasa sínum og rétti honum blaðið.

Eggert leit yfir greinina í snatri. Honum hitn-

aði af geðshræringu. Eitrið í örvunum smaug inn í sál hans. Samt var hann hægur.

— Þetta er afar-ranglátt, pabbi, sagði hann.

— Og þú segir: E f við tökum okkur þetta nærri!

Æsingin virtist fara vaxandi í Sölva við samtalið.

En Eggert hélt áfram sinni hugsun. Þjáningarsvipur kom á andlitið á honum. Og hann bætti við, eins og hann væri að tala við sjálfan sig:

— Í raun og veru er þetta ekki meira ranglæti en það, sem eg hafði í frammi við Bjarna. Svona erum við.

Sölvi var bólginn af alt öðrum hugsunum, og heyrði þetta ekki, eða lét sem hann heyrði það ekki.

— Finst þér ekki ganga fremur skafið fyrir okkur með einkasoninn? sagði hann. Við bjuggumst við, að þú yrðir einhver mikill maður. Það er að segja, móðir þín bjóst við því. Og nú ertu .... hér! Og einhver töluverður hluti af bæjarmönnum heldur, að þú hafir drepið mann. Eg veit ekki, hvort bæjarfógetinn heldur það. En inn hefir hann stungið þér. Og áreiðanlega halda sumir þetta. Eg var gladdur með því á götunni rétt áðan.

— Það er eins og hver önnur vitleysa, sagði Eggert fyrirlitlega.

— Já, eg vona það, sagði Sölvi. Nóg er nú samt. Nú kemur Ö k u þ ó r víst alls ekki út á morgun. Alt er í vitleysu. Það verður H n i k a r einn, sem fræðir fólkið. Þú sagðir áðan, að þetta lagaðist alt saman. Já, það lagast fallega! Og er þér alveg sama um Svanlaugu.

— Nei.

— Og samt gerirðu þetta! .... Já, það lagast fallega!

— Hefirðu nokkuð talað við Svanlaugu?

— Eg? Talað við Svanlaugu? Heldurðu, að Svanlaug tali við okkur framar? Ertu svona mikið barn?

Sannfæringar-vissa Sölva var traust eins og fjall. Eggert fann sig fölna.

— Hvers vegna segirðu þetta, pabbi? sagði hann nokkuð æstur.

— Heldurðu eg þekki ekki þetta fólk, sem þú hefir .... hefir ætlað að mægjast við?

— Nei. Þú þekkir það ekki. Þú hefir aldrei fengist til þess að kynnast því neitt.

— Jú. Eg þekki ríka fólkið hérna í Reykjavík. Það bindur ekki trúss við pilt, sem hefir farið að ráði sínu eins og þú. Það sækir sér ekki

tengdason hérna inn í steininn. . . . . Og finst þér það von?

Orð Sölva stungust eins og gaddar inn í sál Eggerts. Hann svaraði engu. Og hann fann til óviðráðanlegrar löngunar til þess að vera einn.

Sölvi horfði á hann dálitla stund þegjandi. Þá sagði hann:

— Viltu ekki fara að borða?

— Nei. Eg hefi enga matarlyst.

— Jæja. Eg ætla þá að sækja flöskurnar, þegar eg kem aftur. Eg geri ráð fyrir, að móðir þín vilji koma einhverjum mat til þín seinna. Vertu nú sæll.

— Vertu sæll, pabbi . . . . og heilsaðu mömmu hjartanlega.

— Já . . . . það er nú líka mikið gagn að því! tautaði Sölvi fyrir munni sér, og hélt fram að dyrunum.

Þá sá hann, að enginn snerill var að innanverðu. Hann sneri sér aftur að Eggert.

— Finst þér ekki eðlilegt, að faðir þinn kunni vel við þetta? sagði hann gremjulega. Nú er eg orðinn fangi . . . . eins og þú.

Eggert svaraði engu.

Þá tók Sölvi aftur til máls. Það var auðheyrt, að hann reyndi nú að tala svo góðlátlega, sem

honum var unt. Það var líka auðheyrt, að hann réð ekki við geðshræringuna að fullu.

— Eg hefi oft verið óánægður við þig, Eggert minn, mælti hann. Oft hefir mig langað til þess að þú breyttist. En aldrei hefir mér komið til hugar, að þú breyttist svona. Hvernig í ósköpunum hefir þetta atvikast?

Í þessu bili var hurðinni lokið upp. Fangavörðurinn spurði, hvort Sölvi hefði ekki lokið erindinu.

— Jú, sagði Sölvi. .... Fyrst er eg lokaður inni. Svo er eg rekinn út.

Og með þau orð á vörunum fór hann.

Fyrst eftir að Eggert var orðinn einn, var hugur hans eins og vellandi hver. Samtalið við föður hans hafði vakið svo miklar hræringar.

Faðir hans hafði spurt, hvernig í ósköpunum það hefði atvikast, að hann væri orðinn svona. Föður hans fanst hann hafa hagað sér eins og glópur. Auðvitað var bærinn fullur af fyrirlitning og smánunum þeirra vandalausra manna, sem svo litu á. Móðir hans var svo harmþrungin út af honum, að henni var ekki treyst til þess að hitta hann. Sumir töldu hann manndrápara. Faðir hans var ekki í minsta vafa um það, að Svanlaugu hefði hann mist að fullu og öllu.

Sjálfur var hann undrandi út af því, hvernig komið var, hvernig hann hafði sjálfur breyzt og hvar hann var nú staddur.

Hugsanirnar komu ekki hver út af fyrir sig. Þær ruddust fram, hver innan um aðra, runnu saman og urðu að ólgu.

Hann herti á viljanum, til þess að liða hugsanirnar sundur. Og honum tókst það. Hann skálmaði fram og aftur um klefann og hugsaði .... hugsaði, eins og hann ætti lífið að leysa.

Hann gat ekki svarað spurningu föður síns. Hann vissi ekki, hvernig hann hefði breyzt. En hann fann, að hann var gjörbreyttur. Hann hafði nú ógeð á ýmsu, sem hugur hans hafði hneigst að áður. Hann fann, að nú væri sér það þjáning að gera nokkurum manni rangt.

En lögreglumaðurinn þá? Hann hafði ekki verið að gera annað en skyldu sína. Og sjálfur hafði hann flogið á hann, hrakið hann .... hrakið hann fagnandi. .... Sá hann þá eftir því? .... Nei, nei! Hann gerði það tafarlaust aftur á þessari stundu, ef eins stæði á. En það var ilt að hugsa til þess.

Og móðir hans? Var það ekki rangindi við hana að valda henni sárustu hugraunar? Hvað hafði hún til unnið?

Og ný hugsun greip hann með járnklóm: Hver sem ætlar að lifa eftir sannfæringu sinni, hann verður að beita aðra menn meiri eða minni rangindum.

Þetta var andstygðar-líf!

Þá skaut upp alveg andstæðri hugsun:

Lífið var óumræðilega fagurt, óskiljanlega yndislegt .... af því að mennirnir voru í raun og veru góðir. Hann mintist þess, að hann hafði sagt við móður sína, að við séum öll guðir í álögum. Þá hafði hann líka sagt henni, að hann hefði séð dýrð guðs á lítilmótlegri konu.

Atvikið í skrifstofu hans, þegar Álfhildur sat úti í horninu, rifjaðist nú upp fyrir honum. Það var víst þá, að hann hafði breyzt.

— Þangað til hafði eg sofið. Þá vaknaði sál mín.

En hann mundi líka, að þá hafði móðir hans sagt: „Hvað sem það er nú að marka.“

Efasemdir fylgja dulskynjunum eins og skugginn mönnunum. Og hann sagði við sjálfan sig:

— Já .... hvað sem þetta er nú að marka. Var þetta ekki vitleysa, skynvilla hálfsjúks heila?

Honum varð litið á Nýjatestamentið á borðinu. Hann settist niður og fór að leita í því. Hann

fann 17. kapítulann í Matteusar guðspjalli og las um ummyndunina:

„Ummyndaðist hann þá að þeim ásjáandi, og ásjóna hans skein sem sólin, en klæði hans urðu björt eins og ljósið.“

Í sama bili mintist hann bókarinnar, sem hann hafði séð á borðinu hjá konsúlnum kvöldið, sem þau Svanlaug höfðu sett upp hringana. Hann vissi ekki til þess, að hann hefði neitt um það hugsað síðan. En línurnar, sem hann hafði lesið vandlegast, komu nú hoppandi fram í minnið, eins og hann hefði lesið þær samstundis:

„Sama er sagt um Móse, eftir að hann hafði verið einn á tali við Jahve; vel má vera, að svo hafi og verið um Jóhönnu frá Arc; sama getur við og við enn hent helgustu mennina.“

Þarna kom það! Nú fanst honum hann skilja þetta alt saman. Frásögn Nýjatestamentisins og ummæli Englendingsins höfðu sezt að í undirvitund hans. Þessu hafði skotið upp, ekki sem endurminning, heldur sem sýn, á hrifningaraugnabliki. Alt var frá honum sjálfum!

Hugsunin var fyrst líkust afarsárum vonbrigðum. Ef þetta var rétt, þá hafði hann ekki séð dýrð mannssálarinnar .... Ekkert séð, annað en sína eigin höfuðóra. Og sjálfur var hann flón .... og hafði látið flekast. ....

Flekast til hvers? Að lifa eftir sínu eigin eðli? Að komast í samræmi við sjálfan sig? Það fann hann, að hann hafði komist, hvað sem hver sagði, og hvernig sem menn lögðu atferli hans út.

Og svo komu innan úr sál hans mótmæli gegn þessari skýringu. Hann hafði séð dásemdina. Hann ætlaði ekki að láta efann hafa það af sér að hafa séð dýrð mannssálarinnar!

Og svo efinn af nýju. Og baráttan við hann. Upp aftur og aftur. Þangað til ný hugsun veitti honum hvíld:

— Hvað gerði til um allar kynjasýnir? Hafði hann ekki séð ástúð mannanna eins og dýrð guðs? Ástúð móður hans. Og ástúð Álfhildar. Var ekki ljóminn af þeirri ástúð í raun og veru meir en nokkur birta, sem hann gat augum litið .... veruleg eða óveruleg?

Og ástúð Svanlaugar!

Nú bar hverri endurminningunni eftir aðra fyrir huga hans. Hún hafði vafið sig upp að honum, hún hafði strokið um kinnina á honum, hún hafði brosað til hans, hún hafði kyst hann, honum alveg óvörum. Hún hafði oft fylt sál hans glampandi fögnuði.

Stundum hafði hún svarað svo hnittilega og gáfulega, að hann hafði eins og lifað á því marga daga á eftir.

En stundum höfðu svörin líka verið nokkuð hvöss ....

Sigyn! ....

Hún hafði sagt, að hugmyndin um hana væri „guðdómlega karlmannleg“ .... Og honum hafði fundist háðið napurt, eins og nístandi norðankólga.

Hún ætlaði sér ekki að verða Sigyn!

Alt rifjaðist upp fyrir honum, sem hún hafði sagt á tjörninni og heima hjá sér um kvöldið — allar fortölurnar um velgengni og völd. Það voru þrælasálir einar, sem þráðu ekki völdin ....

Hvar voru allir hans valdadraumar nú?

Þeir höfðu runnið út í loftið, eins og reykurinn úr strompunum. Þeir komu aldrei aftur .... aldrei .... Ekki eingöngu, ekki aðallega, fyrir þá sök, að hann hefði spilt öllu með fljótfærni og flónsku, eftir því sem áreiðanlega var litið á alment. Hann hafði fengið andstygð á þeim draumum sjálfum. Hann fann nú, að sú andstygð hafði alt af verið eins og falinn eldur í djúpi sálar hans. Nú var hún orðin að björtu báli. Hann vissi, að jafnvel Svanlaug gat ekki slökt þann blossa.

Auðvitað hirti hún ekki heldur um það! Auðvitað hafði faðir hans rétt að mæla. Svanlaug sótti sér ekki mannsefni inn í steininn!

Og angistin greip hann heljartökum. Meðvitundin um að hafa mist Svanlaugu. Söknuðurinn, djúpur eins og úthafið, dimmur eins og hríðarnótt, vegalaus eins og óbygðirnar .... þröngur eins og fangaklefinn. Meðvitundin um það, að hafa sjálfsagt glatað allri jarðneskri gæfu. Óttinn við það, að hann væri í raun og veru það flón, sem allir hlutu að ætla hann vera, þar sem hann var að rykkja sér út úr þeirri breytni, sem hann hafði andstygð á. Og um sál hans fóru voðalegar hvíslingar.

— Einn .... einn, var þar sagt.

Já .... já .... já .... einn var hann með söknuð sinn og efasemdir og sálarstríð alt .... Eins og hann var einn í fangaklefanum.

---

## XVIII

## Svanlaug

Það er gömul sögn, að dómsdagur muni koma eins og þjófur á nóttu. Svo kom Hnikar til Svanlaugar.

Blaðinu hafði verið fleygt inn í forstofuna hjá Melan konsúl, án þess að blaðberinn gerði neitt vart við sig. Svanlaug varð fyrst manna til þess að hirða það. Hún lauk upp hurðinni að skrifstofu föður síns. Þar var enginn. Hún ætlaði að leggja blaðið þar á borð.

Henni kom ekki til hugar að líta á það. Hún var að hugsa um alt annað og gekk að því vísu, að ekki væri neitt merkilegt í því, fremur en vant væri. En hún leit samt á það, af einhverri tilviljun.

Og hún tók að lesa. Hún fékk hjartslátt. Hjartslátturinn óx, svo að hún gat ekki staðið. Hún settist niður og las greinina til enda. Þá var henni orðið dimt fyrir augum.

Hún heyrði forstofuhurðinni lokið upp. Hún gat ekki til þess hugsað, að nokkur sæi sig, þaut fram, upp á loft og inn í svefnherbergi sitt.

Þar fleygði hún sér upp í rúmið sitt, stakk höfðinu niður í koddann og grét .... grét ....

Fyrsta tilfinningin var blygðun.

Að hún skyldi hafa orðið fyrir þessari smán! Að unnustinn hennar, sem hún hafði tekið við hönd sér og leitt fram fyrir alla þjóðina sem mannsefnið sitt, skyldi haga sér svona, nýtrúlofaður henni!

Hún var á nálum um að einhver mundi koma .... Hvað mundi mamma hennar segja? Auðvitað kæmi hún bráðum. Henni fanst hún ekki geta litið upp á nokkurn mann .... hvað þá farið út á götu og látið góna á sig .... Samt var ef til vill verst að sjá framan í mömmu.

Þá var eins og sýn brygði fyrir sál hennar.

Hún sá Eggert í fangaklefanum .... einan, þungbúinn, yfirgefinn.

Hún vissi ekki, hvernig umhorfs var í fangaklefa. En hún gekk að því vísu, að hann væri þröngur, fúll, dimmur.

Og þarna sat hann .... einn, þungbúinn, yfirgefinn .... innan við dyr, sem fangavörður hafði læst að utan.

Meðaumkunin kom eins og frjógandi regn yfir sál hennar. Og hún grét enn meira en áður.

Herbergið hennar var beint upp af skrifstofu föður hennar. Hún heyrði mannamál þar niðri. Hún þekti rödd móður sinnar, nokkuð háværa nú, í auðheyrðri geðshræring. Sjálfsagt var hún að tala við föður hennar. Svanlaug heyrði nærri því ekkert til hans.

— Nei.... hann er vanur að vera rólegur, sagði hún við sjálfa sig. En geta má nærri, hvað þau eru að tala um.

Hún heyrði komið upp stigann, og var ekki í neinum vafa um, að það væri móðir hennar. Blygðunin kom aftur, hræðslan við það að láta nokkurn sjá sig og megn óbeit á því að láta nokkurn skifta sér af sínum högum.

Móðir hennar settist við rúmið hjá henni, og var sýnilega allæst.

— Svona er þá komið, Lauga mín, sagði hún ....þetta hefi eg alt af sagt.

Mótspyrnuhugurinn gerði tafarlaust vart við sig hjá Svanlaugu.

— Hvað hefirðu sagt? sagði hún, nokkuð önuglega.

Það þyknaði þegar í móður hennar.

— Hvað eg hefi sagt? .... Um hvað ætli eg sé að tala, nema Eggert? Um hvað ætli við töl-

um hérna á heimilinu, nema hann? Það er að segja í dag. Svo tölum við aldrei um hann framar. Ekki á morgun. Aldrei framar. Við þurkum hann út úr okkar lífi, eins og hann hefði aldrei verið til. Það vona eg, að þú gerir þó fyrir mig, Lauga mín!

Svanlaug vissi ekki, nema þetta væri rétt, sem móðir hennar var að segja. Hún gat ekki áttað sig á neinu. Hún fann að eins einhverja óákveðna kvöl inni í sálu sinni. En sammála móður sinni gat hún ekki verið. Hún var í því skapi, að henni var einhver fróun að því að standa á öndverðum meið við hana þessa stundina.

— Hefir þú nokkurn tíma sagt, að hann muni gera bandalag við manndrápara? .... að hann muni berjast við lögregluna? .... að hann muni verða settur í fangelsi? .... að stórglæpum muni verða dróttað að honum? Hvenær hefirðu sagt það?

Hún sá eftir því óðara en hún hafði slept orðinu, að hún skyldi hafa sagt þetta. Það var alt ásakanir á h a n n .... Og hann var í steininum!

Oghún tók að gráta af nýju.

— Hvers vegna ertu vond við mig? sagði frúin. Get e g að þessu gert?

— Þú hefir æfinlega verið á móti honum, sagði Svanlaug.

— Já, er það ekki það, sem eg er að segja? Eg h e f i alt af verið á móti þessu. Eg hefi alt af sagt, að hann sé ekki maður handa þér? Er það nú ekki að sannast? Hefi eg ekki á réttu að standa, þó að mín orð hafi verið lítils metin .... bæði af þér og föður þínum? .... Eg var nú að tala við hann.

— Hvað varstu að tala við hann?

— Eg var að biðja hann að skrifa Sölva gamla strax. Ekki er til mikils að skrifa Eggert, þegar hann er í fangelsi. Hann fengi líklega ekki einu sinni bréfið þangað.

— Nei .... líklegast ekki.

Og Svanlaug fékk eins og hrollkipp í herðarnar, mitt í grátinum.

— Hvað sagði hann?

— Hann sagði ekkert. Ekki um það. Ekki nokkurt orð. Eg vil láta hann skrifa strax.

— Hvað viltu láta hann skrifa?

— Þú getur því nú líklegast nærri. Eg vil ekki vera að draga þau hjónin á því, að nú sé þetta auðvitað alt búið .... öll þessi trúlofunarvitleysa.

Svanlaug þagði við ofurlítið og hætti að gráta.

Hún starði fram undan sér, fram hjá móður sinni.

— Svo að þú ætlar að hugga þau með því? sagði hún loksins.

Frúin starði fyrst á Svanlaugu eins og agndofa. Þá áttaði hún sig á því, að hugur dóttur sinnar væri á þessari stund einhvern veginn svo rangsnúinn, að ekki væri til neins að tala neitt meira við hana nú.

Og hún stóð upp þegjandi og sigldi fyrir fullum seglum út úr herberginu.

Svanlaug lá kyr í rúminu og reyndi að hugsa. En alt varð að dimmu hvassviðri í huga hennar. Áhrifin af einbeitni móður hennar höfðu seitlað inn í sál hennar, þó að hún hefði ósjálfrátt verið að verjast þeim. Um hugskot hennar fór óljós eimur af sannfæringu um það, að öllu hlyti að vera lokið milli þeirra Eggerts. En hún var líka reið við móður sína — og reið við Eggert, og reið út af því, að fegurstu draumar hennar væru að breytast í smán. Og bak við alt stingandi endurminningar um yndislegar stundir með honum og eldsár meðvitund um, að hann hefði beðið ósigur og ratað í raunir.

Þá var barið að dyrum, og inn kom stúlka þar úr húsinu. Hún sagði, að niðri væri kona, sem vildi fá að tala við Svanlaugu.

— Hvað vill hún? spurði Svanlaug.

Stúlkan vissi það ekki.

— Er það nokkur, sem er kunnugur okkur .... kemur hingað?

— Nei. Það er fremur fátækleg kona.

— Það er einhver að biðja að gefa sér, sagði Svanlaug við sjálfa sig.

Það hafði orðið nokkuð títt á síðari tímum, að fátækar konur kæmu fremur til hennar en frúarinnar. Þeim þótti auðveldara að tala við dótturina. En nú gat hún engum sint.

— Spyrjið þér hana, hvort hún geti ekki komið seinna.

Og stúlkan fór. En hún kom mjög bráðlega aftur.

— Fyrirgefið þér, sagði hún. Konunni er eitthvað ósköp nauðugt að fara, án þess að fá að tala við yður. Hún segist heita Álfhildur. Og hún segist þekkja Eggert Sölvason. Hún bað mig að skila því.

— Látið þér hana þá koma hingað upp til mín, sagði Svanlaug.

Stúlkan fór.

— Svo að rekistefnan á auðsjáanlega að verða óslitin! Fyrst mamma. Svo þessi kerling.

Skapið var í úfnasta lagi.

Stúlkan vísaði Álfhildi inn. Álfhildur heilsaði

Svanlaugu. Hún tók kveðjunni, bauð henni að fá sér sæti á stól við rúmið og sagðist vera lasin. Álfhildur settist.

— Hvað er yður á höndum? spurði Svanlaug. Málrómurinn var ekki örvandi.

— Þér hafið víst lesið H n i k a r í dag? sagði Álfhildur.

— Nú .... Og hvað þá?

Rómurinn var óþolinmóðlegur og svipurinn alt annað en vingjarnlegur. Álfhildur leit á hana og þagði við andartak. Þá mælti hún:

— Fyrirgefið þér, að eg kom. Eg gerði það af því að samvizkan bauð mér það. Gerið þér mér ekki óþarflega örðugt að tala við yður. Eg veit, að eg er fátæk kona og að þér eruð rík stúlka. En eg er með margra ára reynslu og sorgir á bakinu. Eg veit, að eg ætla að fara að tala um það, sem yður finst mér koma ekkert við. En mér gengur ekki annað en gott til.

Hún sagði þetta svo kurteislega og góðlátlega, að Svanlaugu féll allur ketill í eld.

— Eg skal ekki vera vond, sagði hún. Hvað ætlið þér þá að segja mér?

— Eg er móðir piltsins, sem hefir verið í varðhaldi út af Þorláks-málinu. Hann var látinn laus í dag, og það á eg mannsefninu yðar að þakka.

Eg þekki hann vel .... ef til vill betur en þér sjálf.

Einhver gremja, skyld afbrýðisemi, kom upp í huga Svanlaugar, þegar hún heyrði þetta. Henni fanst þetta vera sér einhver læging, og einhver aðdróttun í því fólgin um það, að hún hefði ekki náð miklum tökum á unnustanum.

— Það getur vel verið, sagði hún fálega. Það leynir sér ekki, að hann hefir verið í nánum kunningskap við .... við fleiri en eg hefi vitað um.

Álfhildur fann broddinn, þó að hann væri ekki beint í orðunum.

— Já, mælti hún, hann hefir hent það sama eins og Jesú frá Nazaret, að leggja lag sitt við við fleiri en heldra fólkið.

Svanlaug fann, að Álfhildur sagði þetta hlýlega, þó að alvaran væri bersýnileg. Einhver mild gleði kom gegn um reynslublæ raddarinnar, líkt og ljós, sem fellur gegnum litaða rúðu. Svanlaug fann, að ókleift var að láta sér þykja við hana.

— Hún hefir fengið drenginn sinn aftur í dag, auminginn, sagði hún við sjálfa sig. Og hún er glöð .... og mikið betri en eg.

Og henni fór að verða vel við hana.

— Haldið þér nú áfram að segja mér þetta,

sem þér ætluðuð að segja mér. Eg skal ekki trufla yður framar..

— Þegar eg sá Hnikar, mælti Álfhildur, með því samsafni af sannindum, rangfærslum og getsökum, sem þar er prentað í dag, fanst mér óþolandi, að þér fengjuð enga rétta frásögn af málinu. Eg var svo hrædd um, að eitthvað kynni að verða gert í fljótræði og af ókunnugleik, sem gæti valdið mótlæti.

Svanlaug hugsaði til móður sinnar, hvað hún hafði sagt fyrir stuttri stund þar í herberginu.

— Já, auðvitað gat það komið fyrir, sagði hún við Álfhildi.

— Eg veit, hvernig í málinu liggur, sagði Álfhildur enn fremur. Sumt hefir hann sagt mér sjálfur, sumt móðir hans. Eg kem frá henni nú.

— Fékk hún yður til þess að fara hingað? spurði Svanlaug.

— Nei. Eg kom hingað á mína ábirgð. Hún veit ekkert um mína ferð hingað. Eg er hrædd um, að henni mundi fremur mislíka það en hitt, ef hún vissi, hvað hér er að gerast.

— Hvers vegna? spurði Svanlaug.

— Það er nú svona, að sumt bændafólk hefir sitt stórlæti.

— Þykir henni hann of góður handa mér?

— Nei. Aldrei hefi eg heyrt það á henni. En

hún sér, eins og allir sjá, að það er hann, sem væntanlega hefir svo mikinn tímanlegan hagnað af þessum mægðum. Það er henni nokkuð viðkvæmt mál. Hún mun ekki vilja, að nokkur fái tilefni til að segja, að hún reyni að halda yður fastri, ef þér haldið ekki trygð við hann sjálfkrafa.

Svanlaugu lá við að þykja.

— Henni er auðsjáanlega ekki fast í hendi um mig, sagði hún við sjálfa sig.

En þá áttaði hún sig á því, að líklega hefði hún hugsað eitthvað líkt í sporum Sigríðar. Stórlæti sjálfrar hennar kannaðist við skyldleikann.

— Hún hefði þó að minsta kosti átt að telja það sanngjarnt, að eg fengi að vita, hvernig í raun og veru er ástatt um mannsefnið mitt, sagði hún við Álfhildi.

— Já, það er það, sem mér finst. Þess vegna er eg hingað komin, sagði Álfhildur.

Þá tók hún að skýra Svanlaugu frá málinu, að svo miklu leyti, sem henni var um það kunnugt. Hún sagði frá samvizkubiti Eggerts út af því, að hafa gert Bjarna rangt. Svo hefði hann með einhverjum hætti, sem hún skyldi ekkert í, fengið vitneskju um vegandann. Til þess að bjarga Bjarna, hefði hann gengið í það að fá Þorstein til að meðganga. En þegar hann hefði kynst

vegandanum, hefði hann orðið svo gagntekinn af meðaumkun með honum, að hann hefði falið hann og komið honum á burt, án þess að hirða neitt um sjálfan sig. Hún skýrði frá atvikum, eftir því sem hún gat, og útlistaði það sem vandlegast, að ekki yrði annað séð en að góðgirnin og meðaumkunin væru orðnar sterkustu þættirnir í sál hans.

— Eg held, að þegar svo er komið, hljóti mennirnir að reka sig á í veröldinni, mælti hún. Mér kemur ekki til hugar að segja um alla, sem reka sig á, að það sé af því, að þeir séu svo góðir. En hitt held eg, að við siglum svo áreksturslaust gegn um veröldina, sem flest okkar gera, af því að við erum svo lítið góð.

Þegar hún hafði lokið máli sínu, stóð hún upp og kvaddi Svanlaugu.

— Fyrirgefið þér, að eg var að ónáða yður, sagði hún.

— Ekkert að fyrirgefa. Þakk' yður fyrir komuna, sagði Svanlaug.

En hún vissi tæplega, hvað hún sagði. Hún var eins og í draumi, þegar hún sá Álfhildi hverfa út úr dyrunum. Því að nýtt öldurót var í aðsigi í sál hennar.

Fyrst lá hún aflvana á líkama og sál. Hugur hennar var eins og í þoku, með einhverja óljósa

kvöl inni í dimmunni. Svo fóru hugsanirnar að taka á sig ákveðna mynd og brjótast fram.

Hafði hún nokkurn tíma gert sér far um að skilja hann? .... Var hann ekki öðruvísi gerður en aðrir menn? .... Betri en aðrir menn? .... Þurfti hann ekki sérstaklega að halda á skilningi vina sinna?

Hún mintist þess, að hún hafði einu sinni sem oftar komið til hans í skrifstofunni hans. Hann hafði auðsjáanlega verið fullur af einhverjum alt öðrum hugsunum en hún. Hún hafði verið að hugsa um að skemta sér. Hún hafði verið hálf-reið við hann út af því, að hann hefði gleymt því, að hún ætlaði að koma. Hann hafði farið að segja henni frá einhverri gyðju, óendanlega ástríkri .... Hvað hét hún nú? .... Sigyn? .... já, Sigyn hét hún. Gyðjan bar þjáningar mannsins síns frá eilífð til eilífðar. Og samt var maðurinn hennar verstur í heimi .... Jú, hún mundi þetta vel alt saman .... Nú fann hún, að Eggert mundi hafa verið að þreifa fyrir sér um það, hvað hún vildi á sig leggja fyrir hann. Og hverju hafði hún svarað? Engu nema logandi háði! Hún mundi ekki nákvæmlega, hvað hún hafði sagt. Hún hafði ekki sett þetta á sig .... Hún hafði aldrei sett neitt á sig, sem skifti neinu máli. Hún hafði ekki verið annað en léttúðin .... En hún

mundi það, að hún hafði afneitað kærleikanum, til þess að geta verið eitthvað oflátungslega smellin í orðum.

Þessi hugsun fylti um stund sál hennar, eins og vetrarkuldinn fyllir opið og óhitað hús. Og hún stagaðist lengi á því í huganum:

— Eg hefi afneitað kærleikanum!

Um hvað hafði hún talað við hann? ....

Hún hafði talað um skemtanir og þægindi lífsins .... Og hún hafði talað um auð og völd .... Hún hafði alt af verið að stagla um skemtanir og þægindi og auð og völd!

— Um hvað átti eg að tala annað? Eg hefi ekki verið að hugsa um annað .... Og hann hefur verið að hugsa um að verða góður! .... Nei .... Líklegast ekkert verið að hugsa um það .... ekkert verið að hugsa um sjálfan sig .... En hann hefir verið að gera sjálfan sig það!

Og nú var hann í fangelsi! ....

Hún hafði blygðast sín fyrir hann rétt áðan. Svona var hún vond! .... Hún hafði blygðast sín fyrir að hann var góður .... að hann lifði eftir sannfæring sinni .... að hann tók á sig krossinn .... að mennirnir gerðu honum rangt til! .... Svona var hún vond!

Hún varð að þvo þetta af sér.

Og nú skaut upp atviki úr djúpi vitundarinnar, frá þeim tíma, þegar hún var sjálf ofurlítil budda. Endurminningin ruddi sér til rúms innan um hugsanirnar, hálf-viðkvæm og hálf-hlægileg eftir öll þessi ár.

Barnadans átti að vera heima hjá henni. Hún hafði eignast fallegri kjól en nokkuru sinni áður. Hún ætlaði sér ekki að koma inn í salinn, fyr en allir gestirnir væru komnir — til þess að því meira skyldi verða tekið eftir kjólnum. En henni fanst hún hvergi geta verið kyr, vegna óþreyju og eftirvæntingar. Loksins lenti hún inni í eldhúsi. Móðir hennar var uppi í svefnherbergi sínu og var að ljúka við að búa sig. Hún hafði lagt ríkt á við hana að óhreinka sig nú ekki, og slept henni út úr herberginu með hálfum hug. Einhvern veginn stóð svo á, að enginn var í eldhúsinu.

En þegar hún kom inn til gestanna, fór alt annan veg en hún hafði búist við. Öll börnin fóru að hlæja. Sum hlógu hátt samstundis. Önnur reyndu að stilla sig, en hláturinn ýskraði niðri í þeim og kom svo fram úr þeim í gusum. Hún varð alveg forviða.

— Að hverju eruð þið að hlæja? spurði hún.

En krakkarnir hlógu því meira. Þangað til einn

krakkinn gat kreist þetta upp úr sér í óumræðilega mjóum róm:

— Við erum að hlæja að þ é r.

Og ein stallsystir hennar tók í handlegginn á henni og leiddi hana að stórum spegli.

— Þú þarft að þvo þér, sagði hún.

Andlitið var makað í pottahrími, afskræmt af óhreinindum, óumræðilega hlægilegt ofan við þennan dýrindis-kjól. Hún fór að gráta, og henni fanst, hún gæti ekki lifað ....

Hafði hún alt af gengið með sál sína ataða í pottahrími .... frammi fyrir mönnunum .... og guði?

Hún varð að þvo það af sér. Vistin í rúminu varð óþolandi.

Og hún lagði af stað, til þess að finna föður sinn.

---

## XIX

## Melan

Henni hnykti nokkuð við, þegar hún kom ofan í skrifstofu hans. Hún hafði ætlað sér að tala við hann einan. En móðir hennar var hjá honum.

— Hvaða kerling var að fara út frá þér áðan? spurði frúin.

Svanlaug mintist þess, að hún hefði sagt nákvæmlega sömu orðin við Eggert í skrifstofu hans fyrir skömmu. Og það fór um hug hennar samstundis, að það hefði einmitt verið sama konan, sem hún hefði verið að spyrja um. Eggert hafði ekki sagt henni, hver hún væri.

— Hann hefir ekki búist við neinni samúð frá mér, sagði hún við sjálfa sig. Svona hefir hann staðið einn, þegar eg hefði átt að vera bezti trúnaðarvinurinn hans!

— Það var móðir þessa Bjarna, sem var tekinn fastur, svaraði hún móður sinni.

Frúin komst í megnustu undrunar-æsingu.

— Hvað? .... Ert þú líka farin að binda vináttu við þetta .... þetta .... manndrápara-fólk?

— Ekki er þessi kona manndrápari, mamma, sagði Svanlaug, og það var þybbin þéttings-festa í röddinni. Og það er nú sannað, að sonur hennar er það ekki heldur.

— Jæja .... eitthvað er hárugt við það alt saman, sagði frúin. Og mér finst alveg nóg að mannsefnið þitt fyrverandi ....

Lengra komst hún ekki. Svanlaug tók fram í:

— Hann e r mannsefnið mitt.

Konsúllinn hafði horft fram á skrifborð sitt. Nú leit hann góðmannlegum undrunaraugum á dóttur sína.

En æsing frúarinnar fór vaxandi.

— Þarna kemur það! sagði hún. Eg átti svo sem von á, að þetta gæti komið fyrir. Þó að eg viti ekki, hvaðan þú hefir það að haga þér eins og þú sért ekki með öllu viti. En eg vona, að fleiri eigi atkvæði um þetta en þú ein.

— Ekki eru það nú samt fleiri, sem ætla sér að giftast honum, svo að eg á líklegast mest á hættunni sjálf, eins og pabbi sagði í haust, sagði Svanlaug af nokkurum hita.

— Farið þið ekki að deila, sagði konsúllinn.

Þetta er vandamál. Við skulum tala um það með stillingu.

— Eg vona, að þú takir nú í taumana, sagði frúin við mann sinn.

— Er þér alvara, Svanlaug mín, að halda áfram með þetta? spurði faðir hennar.

— Já. Ætti eg fremur að yfrgefa hann fyrir það, að hann hefir lent í örðugleikum .... Finst þér, pabbi?

Faðir hennar leit aftur á hana .... og brosti.

— Auðvitað er sú hlið til á málinu, sagði hann. En það eru líka til fleiri hliðar á því. Er þér alvara að halda áfram, hvernig sem í málinu liggur að öðru leyti?

— Já.

— Ertu orðin alveg brjáluð? sagði móðir hennar.

— Eg veit, hvernig í málinu liggur.

— Það getur þú ekki vitað, góða mín, sagði konsúllinn. Þú getur t r ú a ð hinu og öðru um það. Þú getur verið s a n n f æ r ð um það. En þú getur ekkert v i t a ð. Þú hefir ekki einu sinni talað við Eggert sjálfan um það. Eða hefirðu gert það?

— Nei. En eg veit það samt.

— Eg veit, sagði frúin, að hvernig sem í þessu

liggur annars, þá nær það engri átt, sem Svanlaug er að segja.

— Eg er hræddur um, að hann verði dæmdur í fangelsi, sagði konsúllinn.

— Jæja .... Hann kemur einhvern tíma út aftur, sagði Svanlaug.

— Það er auðsjáanlegt, sagði frúin, að þig langar sérstaklega til þess að eignast mann, sem hefir verið hegnt .... fyrir bandalag við manndrápara .... og fyrir ofbeldi við lögregluna .... Var það ekki eitthvað svipað þessu, sem þú sagðir sjálf við mig rétt áðan?

— Nei, sagði konsúllinn. Vertu nú sanngjörn, góða. Hana langar sérstaklega til þess að eignast Eggert .... eins og .... eins og mig langaði sérstaklega til þess að eignast þig.

Og hann leit brosandi framan í konu sína.

— Heldurðu, að þú hefðir sótt mig inn í hegningarhúsið? spurði frúin gremjulega.

— Eg veit ekki. Það reyndi ekki á það. Eg veit ekki, hvað mikill maður eg hefði kunnað að geta orðið. Og ekki hefði þér verið það nein vansæmd, að eg hefði viljað sækja þig, jafnvel þangað.

Frúin espaðist enn meira.

— Finst þér þá, að það hefði ekki verið nein vansæmd fyrir mig að vera hegningarhússlimur?

— Alt eftir því, fyrir hvað það hefði verið, góða mín.

Frúin glápti á mann sinn og stóð ofurlitla stund á öndinni.

— Heyrðu, Melan, sagði hún, þegar hún fékk orði upp komið .... þú heldur þó ekki með .... með þessum manni þarna í hegningarhúsinu?

— Nei, sagði konsúllinn. En eg sé, að Svanlaugu þykir vænt um hann. Nú er eftir að vita, hvort hann á það skilið. Á því á alt að velta .... Eg ætla að bregða mér út. Verið þið sælar. Og reynið þið að vera rólegar.

— Hvert ætlarðu að fara? spurði frúin.

— Eg ætla að vita, hvort bæjarfógetinn vill lofa mér að skreppa inn í steininn.

Og hann fór.

— Það er svo að sjá, sem eg eigi ekki að ráða miklu núna, fremur en vant er, sagði frúin .... En gættu nú að þér, Svanlaug .... Og eg, sem hélt, að nú væri eg áreiðanlega laus við allan þennan ófögnuð! .... En hvað heldurðu, að ráðherrafrúin segi, og bæjarfógetafrúin, og yfirdómarafrúin, og allar mínar vinkonur, ef ....?

— Eg held, að þær segi ekkert. Eg veit ekki annað, en að þær séu góðar konur. En ef þær

segja eitthvað, þá varðar mig ekkert um þær, sagði Svanlaug.

Hún gat ekki haldist lengur við niðri og flýtti sér upp í herbergið sitt til þess að hugsa.

Hún var milli vonar og ótta.

Pabbi var góður, indæll, elskulegur .... Stundum ályktaði hann samt einhvern veginn alt öðruvísi en hún hafði búist við .... En hvað sem hver segði, vissi hún, hvað hún ætlaði að gera.

Skammdegismyrkrið var komið í klefa Eggerts. Fangavörðurinn hafði komið inn, til þess að kveikja. Eggert hafði beðist undan ljósi. Hann hafði fleygt sér upp í fletið og ætlaði að reyna að sofna. Hann var í því skapi, að hann vildi helzt sofa til eilífðar.

Þá var hurðinni lokið upp og fangavörðurinn vísaði manni inn í klefann.

— Hvers vegna er hér dimt? spurði gesturinn.

Eggert heyrði, að það var Melan konsúll, sem var kominn. Hugur hans fyltist af undrun og reiði.

— Þetta hefði hann getað látið ógjört, sagði hann við sjálfan sig. Það sýnist nægja, að láta mig vita það einhvern veginn öðruvísi, sem hann

ætlar að segja mér. Óþarfi að koma hingað til þess að glápa á mig í niðurlæging minni.

Fangavörðurinn sagði, hvernig á myrkrinu stæði, kveikti og fór út.

Eggert stóð upp af fletinu.

— Sælir verið þér, sagði konsúllinn og rétti honum höndina. Fyrirgefið þér, að eg er að ónáða yður. Mig langaði til þess að tala fáein orð við yður.

Hann var léttur í máli og jafn-glaðlegur og kurteislegur eins og hann væri að taka á móti gestum heima hjá sér.

— Má eg bjóða yður sæti? sagði Eggert og benti á trésætið, sem stóð út úr veggnum við borðið. Nema ef þér viljið heldur setjast á rúmið. Annað hefi eg ekki að bjóða.

Og hann hló við nokkuð kuldalega.

— Rúmið, já .... þakk' yður fyrir .... Eg þigg æfinlega þau gæði lífsins, sem á boðstólum eru.

Konsúllinn settist á rúmið jafn-ánægjulegur eins og það væri glæsilegur hægindastóll.

— Hann er að minna mig á það, sagði Eggert í huganum, að eg hafi valið fangelsið, þó að annað betra hafi verið á boðstólum. Það hefði hann getað látið ógjört. Það þarf ekki að minna mig á það!

Konsúllinn hafði hnept frá sér loðkápunni. Eggert varð litið á svartan kragann úr persnesku lambskinni og gulbrúnt fóðrið úr einhverju dýrindisskinni, sem hann vissi ekki, af hvaða skepnu var. Honum fanst eitthvað hlægilegt við þetta ofan á auvirðilegu fangafletinu. Og helzt einhver móðgun við hann sjálfan. Hann bjó sig meira og meira til einhverrar varnar, og var ráðinn í því að gefast ekki upp.

Það var eins og Melan hefði einhvern grun um, hvað Eggert var innan brjósts.

— Eg vona, að þér firtist ekki við það, að eg kom, sagði hann. Það hefir komið mér nokkuð á óvart, hvernig högum yðar er nú komið. Mig langar mjög mikið til þess að fá að vita, hvernig í þessu liggur. Eg kom til þess að spyrja yður, hvort þér vilduð segja mér það.

— Já .... Annars er það alt bókað. Eg hefi sagt bæjarfógetanum það. En það er auðvitað velkomið, að eg segi yður það eins fyrir því.

Það var tregða í málrómnum, þó að hún væri ekki í orðunum.

Konsúllinn hló.

— Þakk' yður fyrir. Eg hefi lesið það, sem bókað var. Þér þurfið ekki að segja mér þ a ð. En menn segja oft vinum sínum annað en það, sem þeir segja yfirvöldum.

— Haldið þér, að eg hafi sagt bæjarfógetanum ósatt?

— Nei. En menn segja vinum sínum meira en yfirvöldum. Eg kom til þess að forvitnast um, hvort þér munduð vera fáanlegur til þess að segja mér meira.

Eggert þagði. Hann rendi huganum yfir það, sem hann hafði látið ósagt. Og honum fanst hann vilja ekki neitt af því segja, né neitt af því geta sagt.

Konsúllinn beið nokkura stund eftir svarinu. Þegar hann sá, að því ætlaði að seinka, sagði hann:

— Viljið þér þá gera aðra bón mína — segja mér, hvort þér sjáið eftir því, sem þér hafið gert?

— Nei. Eg sé ekki eftir því, sagði Eggert stillilega. Eg hefi ekkert annað gert en það, sem sannfæringin og samvizkan buðu mér. Svo að þér sjáið, að eg get ekki séð eftir því. Eg mundi gera það sama á morgun, ef eins stæði á.

— Og þér haldið ekki, að þér munduð sjá eftir því, hverjar sem afleiðingarnar yrðu af því fyrir yður?

— Nú er hann að komast að því! sagði Eggert við sjálfan sig. Hvers vegna er hann að kvelja mig með drættinum? Ætlast hann til, að

eg geri mig að lítilmenni, áður en hann kemur með það?

En við konsúlinn sagði hann:

— Nei. Eg mundi ekki sjá eftir því, hverjar sem afleiðingarnar yrðu.

Konsúllinn hló aftur, einstaklega góðlátlega.

— Við mintumst eitthvað á völd, sagði hann, þegar við töluðum saman síðast .... Við höfum ekki talað saman, síðan um kvöldið heima hjá mér, þegar þið settuð upp hringana .... höfum við? .... Eg sé, að þér eruð ekki orðinn völdunum afhuga enn.

Eggert rann kalt vatn milli skinns og hörunds. Honum fanst svo mikil illmenska í þessu háði.

— Fyrirgefið þér, konsúll, sagði hann svo stillilega, sem hann gat. Þér eruð miklu eldri maður en eg, svo að það á ekki við, að eg sé að finna að við yður. En eg verð að segja það, að mér finst ekki rétt gert af yður að tala svona. Klefinn, sem við sitjum í, sýnir það bezt, að eg er ekki í neinum valda-kappleik. Það kann að hafa verið rangt gert af mér að komast hingað. Eg efast ekki um, að þér munið líta svo á. En af því að dvöl mín hér stafar ekki af öðru en því, að eg breytti, eins og mér fanst vera rétt, þá getur mér ekki skilist, að eg eigi háðið

skilið .... til hvers annars sem eg kann að hafa unnið.

Nú varð svipurinn á konsúlnum alvarlegur, en jafn-góðlátlegur samt eins og áður.

— Þér misskiljið mig alveg, sagði hann. Eg er ekki að tala um þau völd að veita embætti eða skrifa undir lög, sem undirskrifandi hefir ef til vill litlu ráðið um. Eg er að tala um valdið yfir sálum mannanna. Það er valdið, sem mestu máli skiftir. Því ná þeir, sem fara eftir sannfæring sinni og samvizku, hverjar sem afleiðingarnar verða, eins og þér segist hafa gert. Því valdi ná engir aðrir .... að minsta kosti ekki nema um stund.

Nú varð Eggert alveg ráðalaus. Var þetta enn eitthvert háð? Eða var það hjartans alvara?

— Fyrirgefið þér, að eg hefi misskilið yður, sagði hann. En það er áreiðanlegt, að eg hefi ekki verið að hugsa um nein völd .... ekki heldur þau, sem þér minnist nú á.

— Nei, eg skil það. Og mér þykir það ekki galli á neinu verki, að sagt verði um það með sönnu, að „einn gullhringur sé það í græðis djúp þeyttur“ .... En nú ætla eg að vera hreinskilinn við yður. Eg er hræddur um, að eg sé að nokkuru leyti að villa yður sjónir, ef við höldum svona áfram.

— Nú kemur það! sagði Eggert í huganum. Hann reyndi að stæla allan mátt sinn, til þess að standast höggið, sem hann taldi víst, að nú ætti af að ríða. Honum fanst hann gæti ekki þolað það, jafn-fastlega og hann hafði þó við því búist.

Konsúllinn hugsaði sig um örlitla stund. Þá mælti hann:

— Þér haldið, að eg sé hingað kominn, til þess að slíta sambandi ykkar Svanlaugar. Og þér haldið, að eg sé að tala við yður, til þess að leita að sem beztri átyllu til þess. Er það ekki þetta, sem þér hafið verið að hugsa um?

— Eg veit ekki, sagði Eggert.

En hann vissi varla, hvað hann var að segja.

— Jú, eg fer nærri um það, sagði konsúllinn. En það er misskilningur yðar .... eins og þér misskilduð mig áðan .... Heyrið þér nú, Eggert Sölvason. Eg get vel trúað því, að þér séuð góður maður. Enn trúi eg því, að svo sé. En einn galla hafið þér: Þér tortryggið okkur. Það stendur líklegast í sambandi við það, af hvaða bergi þér eruð brotinn. Fjöldi bænda er fullur af tortrygni í okkar garð, sem höfum lifað öðru lífi, haft meiri efni og fengið annað uppeldi en þeir. Einn af þeim mönnum er faðir

yðar. Þér hafið fengið þetta að erfðum. En þér eigið að útrýma því. Það verður ekkert minna af skynsemi og drenglyndi í mönnunum fyrir það, að þeir hafa haft efni á að kynna sér veröldina .... En nú kem eg aftur að því, sem eg hvarf frá. Sumir, sem standa Svanlaugu nærri, líta svo á, sem þessi fyrirhugaði ráðahagur hennar sé ekki sem álitlegastur, eins og nú er komið. En hugur Svanlaugar hefir ekki breyzt. Eg ætla að segja yður það hreinskilnislega, að eg gæti trúað því, að henni þyki nú vænna um yður en nokkuru sinni áður .... eða öllu heldur, að hún viti það fyrst nú, hvað vænt henni hefir þótt um yður.

Fyrst fór hitastraumur af óumræðilegum fagnaðareldi um sál Eggerts við þessi orð konsúlsins. Tortrygnin feyktist burt eins og létt ský fyrir hvössum vindi. Því næst bar fölskva á birtuna í hug hans.

— En hvað eg hefi verið lítilmótlegur og vondur! sagði hann við sjálfan sig.

Konsúllinn hélt áfram:

— Eg veit ekkert um það, hvort Svanlaug fer nokkuð eftir mínum ráðum. Samt hugsa eg, að hún geri það, þegar frá líður. Hún hefir æfinlega metið mín ráð mikils hingað til. Að minsta kosti er það á minni ábyrgð, að hún fái

svo skynsamleg ráð, sem kostur er á. Það getur hún ekki fengið, nema þér segið mér, hvernig í málinu liggur. Þess vegna fer eg fram á það við yður, að þér svarið þeim spurningum einlæglega, sem eg legg fyrir yður.

— Já, eg skal gera það, sagði Eggert við konsúlinn.

— Ef til vill telur hann mig brjálaðan, sagði hann í huganum.

— Spurningarnar eru þrjár, sagði konsúllinn. Eg tek þær í þeirri röð, sem atburðirnir gerðust, þeir sem eg ætla að spyrja um. Eg las blaðið yðar með athygli um það leyti, sem manndrápið komst upp. Eg verð að segja yður það hreinskilnislega, að mig furðaði á því hlífðarleysi í garð Bjarna og móður hans, sem þar kom fram. Mér þótti það ljótt. Eg hafði haldið, að þér væruð betri maður en mér fanst blaðið bera vitni um. Eg var stundum að hugsa um, að blaðamenskan væri að spilla yður. Svo tók alt í einu fyrir þessi skrif. Hvernig stóð á því? Hvað hafði komið fyrir, sem olli þeirri breytingu? Það er fyrsta spurningin.

Eggert tók að segja honum frá því, þegar Álfhildur kom inn til hans í skrifstofu hans. Hvernig hann hefði fyrst barist við samvizkubit út af því að hafa gert henni rangt, og hvern-

ig hún hefði fyrst heillað hug hans með athugasemdum um mannlífið, þó að þær athugasemdir hefðu verið nokkuð nærgöngular sjálfum honum. Hann sagði, í hverja átt þær hefðu stefnt. Því næst hefði hún náð enn sterkari tökum á sér með ást sinni á Bjarna, ást, sem var alveg eins heit fyrir því, þó að hún virtist sjaldan hafa haft annað en raun af honum. Og loks með takmarkalausu guðstrausti sínu og dularfullu samlífi við guð.

— Þetta var alt svo nýtt í eyrum mínum, og samt svo undarlega gamalt. Mér fanst það hafa verið í sál minni allar götur frá því að eg var barn. Nú varð það eins og að einhverju fjalli þar. Ekkert annað komst þar fyrir. Allur annar gróður varð einhvern veginn að vera utan í því fjalli.

Konsúllinn hlustaði. En hann sagði ekkert; kinkaði að eins kolli við og við.

Eggert kom til hugar, að hann mundi geta sloppið með þetta. Hann hafði útlistað það svo rækilega, að hann hugsaði, að konsúllinn mundi taka það gilt, sem byrjun á hugarfars-breytingunni. Svanlaug hafði varað hann við að nefna sýnir. En hann hafði lofað að svara einlæglega. Og hann fann, að það var ómenska að fella það úr, sem hann vissi, að hafði verið aðalatriðið.

Samt fanst honum eitthvað líkt að halda áfram, eins og ungri stúlku þykir að láta lækni athuga sig allsbera.

— Svo var það nokkuð meira. Þér munið ef til vill eftir kynlegu staðhæfingunni, sem stóð í ensku bókinni, sem lá á borðinu hjá yður kvöldið, sem við settum upp hringana?

Nei, konsúllinn mundi ekki eftir henni.

— Staðhæfingunni um ummyndunina?

Jú, konsúllinn kannaðist þá við.

— Hvað er um hana? Þér hafið þó ekki séð mann ummyndast?

— Jú.

Og hann sagði konsúlnum frá sýninni, svo greinilega sem hann gat.

— Eftir þetta fann eg, að mér var blátt áfram þess varnað að gera þessari konu rangt. .... Og eg fann það þá líka bráðlega, að eg gat ekki heldur verið öðrum vondur.

Hann átti von á því, að konsúllinn mundi hneykslast .... að hann mundi reka upp skellihlátur .... að hann mundi segja, að hann hefði orðið fyrir augnabliks-vitfirring. Hann var þess albúinn að milda þetta með undirvitundar-skýringum. Það var engin ómenska, fanst honum, því að það var ekki þvert um hug hans.

En konsúllinn kinkaði enn kolli, og sagði eftir örlitla þögn:

— Eg vildi óska, að eg hefði fengið að sjá þetta sjálfur.

— En hvað það er yndislegt, að hann skuli hlusta á þetta með samúð, sagði Eggert í huganum.

— Þá höldum við áfram, sagði konsúllinn. Þér hafið sagt bæjarfógeta, að þér hafið verið sannfærður um, að Þorsteinn hafi drepið Þorlák, áður en hann játaði það fyrir yður. Þér hafið neitað bæjarfógeta að skýra frá því, hvernig þér hafið fengið þá sannfæring. Hvernig fenguð þér hana? Það er önnur spurningin.

Eggert sagði alt af létta. Hann sagði frá því, er Þorlákur hristi höfuðið dauður úti á Vesturgötu. Hann sagði frá orðinu, sem honum fanst hvíslað að sér, þegar Þorsteinn kom inn til hans, frá aðsókninni, sem hann gat að eins fundið, en ekki séð, og frá mannshöfðinu, sem liðið hafði í loftinu fyrir framan fæturna á honum.

— Það var víst þetta, sem gaf mér vissuna. Aðra grein get eg ekki gert mér fyrir henni. En hún var óbifanleg.

Konsúllinn var hættur að kinka kolli. Hann starði á Eggert eins og tröll á heiðríkju. Þegar Eggert þagnaði, hló hann við og sagði:

— Mig grunaði það ekki, að eg sækti hingað svona magnaðar draugasögur. Annars ljótur skaði, að þeir, sem eru drepnir, skuli fæstir vera jafn-duglegir og þessi Þorlákur.

Eggert fann, að það var stór velgjörð við hann, hvað Melan tók létt á þessu og glaðlega. Konsúllinn var alt í einu orðinn kunningi hans, vinur hans, jafningi hans!

— Nú kemur þriðja og síðasta spurningin, sagði konsúllinn. Þér hafið ekki sagt bæjarfógeta, hvernig á því stóð, að þér fóruð að kenna svo sárt í brjósti um Þorstein, að þér vilduð eiga á hættu fangelsisvist fyrir hann. Hvað fenguð þér um hann að vita, sem olli því?

— Það er í raun og veru ekki mitt leyndarmál, heldur Þorsteins. En nú er hann kominn burt .... og eg hefi lofað að segja yður alt.

Og hann sagði frá sálarstríði Þorsteins og öllu því, er þeim hafði milli farið.

— Þér sjáið það, vona eg, sjálfur, að eg gat ekki annað gert en það, sem eg gerði, sagði Eggert, þegar hann hafði lokið þessari sögunni. Eg gat ekki fengið hjá honum játninguna og leyst Bjarna úr þeim læðingi, sem eg hafði sjálfur komið honum í, saklausum, nema eg hjálpaði Þorsteini. Ekki hafði eg lund til þess að gerast njósnarmaður og snuðra upp sannanir gegn hon-

um. Og eg gat ekki sent inn í hegningarhúsið mann, sem forlögin höfðu níðst á árum saman, var áreiðanlega sjúkur á sálunni, og ef til vill í raun og veru saklaus.

Konsúllinn hafði hlustað enn jafn-vandlega og áður. Þegar Eggert hafði lokið máli sínu, þagði hann dálitla stund. Þá tók hann til máls:

— Eg geri ráð fyrir, að þér ætlist til þess, að eg segi eitthvað um þetta, enda má það ekki minna vera, eftir alt, sem þér hafið sagt mér. Eg ætla þá að byrja á því, að sýnir yðar og heyrnir læt eg liggja milli hluta. Eg veit ekkert, hvað þær eru, eða hvernig á þeim stendur, og efast um, að nokkur annar viti það. Samt skal eg ekkert um það fullyrða. Það hefir einhvern veginn atvikast svo, að mér hefir skilist sem guð hafi ætlast til þess, að eg fengist einkum við þá menn og hluti, sem heyra þessum heimi til. Og eg er ekkert óánægður með það. Eg hugsa, að þessi heimur sé eins guðs heimur eins og nokkur önnur veröld. En eg kvarta ekkert undan þessum dulskynjunum yðar. Mér skilst svo, að þær standi í einhverju sambandi við það, að sál yðar hefir vaknað til æðra lífs, þó að hún hafi ef til vill vaknað með dálitlum andfælum .... Látið þér ekki veröldina svæfa hana aftur, bætti hann við brosandi. .... Eg veit

ekki, hvort það hefir verið rétt af yður að taka að yður að gerast dómari og dæma manninn til refsingar .... jú, það er það, sem þér hafið gert. Þér hafið dæmt hann í útlegð, í stað þess sem dómstólarnir hefðu dæmt hann í betrunarhúsið. Eg veit ekki, hvort honum er betra. Coelum non animum .... þér kannist við það. Verði hugur hans jafn-sjúkur áfram, gerir víst minst til, hvar hann er. En ef til vill batnar honum við þessa breytingu. Við skulum vona það. Eg sé það, að frá yðar sjónarmiði mælir mikið með því, sem þér hafið gert, og eg hefi ekki áttað mig á því að fullu, hvort þér gátuð hagað yður öðruvísi, úr því sem komið var. Margt getur líka verið leiðinlegra en að sitja af frjálsum vilja í fangelsi fyrir mann, sem aldrei hefir gert manni neitt gott. En eg skal segja yður — eg er nokkuð hleypidómafullur maður. Eg geng meðal annars með þann hleypidóm, að menn eigi að hlýða lögum þess þjóðfélags, sem verndar þá. Svo að það er að minsta kosti slys í mínum augum, að þetta skuli hafa hent yður. En úr því að þér höfðuð staðráðið að koma manninum burt, þá var óneitanlega betra að berjast við næturvörðinn, en að láta taka manninn af sér. Vitaskuld hefir næturvörðurinn orðið saklaus fyrir töluverðu hnjaski. En það

má senda honum svo margar krónur, að hann leggist á bæn á hverju kvöldi og biðji þess að hann fái að berjast á hverri nóttu fyrir svo góða borgun .... og það því fremur, sem það er svo mikið eftir í mörgum okkar af víkingslund og upprunalegri karlmensku, að okkur þykir það alls ekki versta verkið að berjast, þegar út í það er komið. Hann telur krónurnar ekki mútu, ef bæjarfógetinn er fenginn til þess að afhenda honum þær. Og það get eg gert. .... En hvernig var það — skildist mér það ekki rétt, að þér hefðuð lofað Þorsteini að hjálpa konunni hans?

— Jú.

— Gerir faðir yðar það?

Eggert varð að kannast við, að hann teldi mestu tvísýnu á því.

— Þá var þetta nokkuð mikil léttúð af yður, því að sennilega hafið þér úr fremur litlu að spila fyrsta sprettinn. Svo að það lendir þá víst á mér að efna loforðið fyrir yður. Því að þér skiljið það, að lang-sennilegast er, að þér verðið dæmdur í fangelsi.

— Já, eg geng að því vísu.

— Eg vona, að þér takið þeim afleiðingum af breytni yðar með rósemi. Við þær get eg ekki ráðið. Og við þær vildi eg ekki ráða, þó að eg gæti.

— Já, eg geri það væntanlega.

— Ætlið þér að fara að fást við Ö k u þ ó r, þegar þér komið út aftur?

— Eg veit ekki. En mér finst eg vildi heldur fá að vera hérna kyr en fara aftur í ritstjórastólinn.

Konsúllinn hló.

— Eg er yður alveg sammála. Eg held, að það sé betra fyrir unga menn að vera hér en í ritstjórastólnum, meðan þeir hafa ekki fengið þann þroska, sem þarf til þess að vera leiðtogar lýðsins. .... Heyrið þér — hvernig lízt yður á að fara í þess stað í skrifstofu mína í Englandi, vera þar fyrst um sinn og sjá dálítið af veröldinni? Svanlaug kynni einhvern tíma á seinni skipunum að líta þangað inn til yðar. En þér skuluð ekki fara að gerast dómari þar. Enskir dómarar vilja dæma málin sjálfir. Og þér skuluð ekki heldur berjast við lögreglumenn þar. Ef þér gerið það .... þá veit eg engan stað, sem eg gæti sent yður í.

Nú stóð konsúllinn skyndilega upp.

— Verið þér nú sælir, sagði hann og rétti Eggert höndina.

Eggert var utan við sig, lamaður. Eitthvað fanst honum hann verða að segja.

— Þakk' yður .... byrjaði hann.

— Nei, nei, sagði konsúllinn. Við tölum ekki meira um þetta. En finnist yður nokkuð að þakka, þá látið þér Svanlaugu njóta þess, ef það kemur einhvern tíma fyrir, að yður finnist hún gera yður eitthvað rangt, þegar þið verðið orðin hjón. Það er, hvort sem er, hún, sem ræður þessu öllu.

Konsúllinn barði á klefadyrnar.

Fangavörðurinn lauk tafarlaust upp.

Og Melan konsúll fór út.

Fangavörðurinn kom þegar aftur, er hann hafði fylgt konsúlnum út.

— Það er komið langt fram á kvöld, mikið lengra en hér má hafa ljós, sagði hann. En bæjarfógeti bannaði mér að koma hingað inn, fyr en konsúllinn gerði viðvart um, að hann hefði lokið erindinu. Nú verð eg að slökkva. Viljið þér ekki afklæða yður áður?

Nei, Eggert þurfti ekkert ljós.

Fangavörðurinn slökti og fór.

Eggert veitti örðugt að sofna. Gleðin var svefninum of ríklunduð.

Samt fór svo að lokum, að fangelsisklefinn var orðinn að dýrlegri höll ....

Og Eggert sá dásamlegar sýnir. .... Og hann heyrði yndislega rödd ....

Hver var að tala?

Var það móðir hans? Eða Svanlaug? Eða Melan konsúll? Eða Jesús frá Nazaret?

Einhver guð var það áreiðanlega ....

Hann vissi aldrei, hvað hann hafði séð, né hvað hann hafði heyrt, né hver hafði talað með þessari yndislegu rödd.

Svefninn var orðinn of fastur og máttugur.

ENDIR



## LEIÐRÉTTINGAR.

Bls. 67. Greinin: En konan hans o. s. frv. á að standa á eftir greininni, sem byrjar á orðunum: — Ef hann heldur.

— 126, 11. línu að neðan: Svanhildar, á að vera: Svanlaugar.

— 142, 13. línu að ofan: gamli, á að vera: Gamli.

— 179, 12. línu að neðan: Hann, á að vera: — Hann.

— 193, 13. línu að neðan: stað ofaukið í síðara skiftið.

— 245, 9. línu að neðan: ábirgð, á að vera: ábyrgð.

